# HUGVEKJA

um

## ÞÍNGLÝSÍNGAR, JARÐAKAUP, VEÐSETNÍNGAR og PENÍNGABRÚKUN Á ÍSLANDI,

samin og gefin út

af

**J. Johnsen,**

*Assessóri í enum konúnglega íslenzka Landsyfirrètti.*

KAUPMANNAHÖFN.

Prentuð hjá J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1840.

"Það er einka ráðið, að bera saman gömlu og nýu *tímana, venjur og óvenjur, svo að sem fæst gleymist* sem hollt er og gott, eður verði útundan."

***Búnaðarritið I. B. 1. D. bls. 140.***



## Til Lesenda.

Þareð Hugvekja sú, sem á eptir fylgir, er orðin svo laung, og líka er þess eðlis, að eg hvörki get ætlast til, nè heldur óskað, að þeir, sem hana lesa vilja og íhuga, gjöri það á einum degi, held eg sumum mundi koma vel, að hafa yfirlit nokkurt yfir tilgáng hennar, efni og innihald, áður enn þeir byrja lesturin; og leyfi eg mèr þá að gjöra löndum mínum þessi skil fyrir tilgángi mínum, eða augnamiði.

Sú lítilfjörlega þekkíng á lands gagni og nauðsynjum, sem nærstum 11 ára vera í Danmörku, að mestu í nánd við þau heruð, hvörra landslag er Íslands hrjóstugu móum líkast og víða er eins slæmt og verra, þó í góðri rækt sè, enn það sem aungum hèr kemur til hugar að leggja nokkra rækt við, vakti bráðum hjá mèr eptir híngaðkomu mína — þá er eg í huganum fór að bera saman rækt og landgæði þar og hèr, og viðburði þá og atorkusemi, sem á báðum stöðum er varið til að hafa jarðarinnar sem mest og bezt not — eptirþánka um, hvað til kæmi, að vèr í þessari grein erum á eptir, eg má segja öllum, siðuðum þjóðum.

Eg sá og vissi, að hvör sú jörð þótti hèr vel irkt og setin, sem í góðu ári ber gras, hvört heldur

um hana er hirdt eða ekki, og hvört heldur það kemur uppúr þúfum eða sléttu, votu eða þurru, þegar tún og engjar á annað borð eru svo tilbúnar af náttúrunni; og þó vegur sè til að afla meiri töðu, ef slèttað væri túnið og girdt, og útheys, ef skorið væri fram votengið eða vatni veitt á þurrlendið o. s. frv. Mèr hugsaðist fljótt, að eigineignar bændur Dana kosta öllu, sem þeir eiga ráð á, til að koma öllu þvílíku í verk og yfirhöfuð til að rækta jörðina, að hún beri þeim sem mestan ávöxt, en — að svo fáir sem einginn verja til þessa efnum sínum á Íslandi.

Eg kendi því vanbrúkun efnanna eða peníngauna um viðburða — og atorkuleysi Íslendínga í jarðarræktinni; og eg sannfærðist um, að því var svona varið, einsog líka um það, að landið ekki gæti átt neinna verulegra framfara von, ámeðan menn eru svo tregir á, að verja peníngunum til jarðarræktarinnar, en að tregða þessi aptur hljóti að loða við, þar sem annaðhvört verkamennirnir sjálfir ekki uppskera allan ágóða verka sinna, eða efnin vanta, þau er landirkjan útheimtir.

Til að ráða bót á þessu hvörutveggju, sem eg held vera enar helztu og næstu orsakir til viðburða — og atorkuleysisins, gat eg ekki sèð annað betur tilfallið, enn að sem flestir bændur gætu náð að eiga býli sín sjálfir, og að enir efnalitlu nytu annarra efna við, þegar á lægi, annaðhvört til að kaupa ábúðarjarðir sínar, eða til að rækta þær; og þannig varð aðal tilgángur minn, að telja trú um, og að ráða efnamönnunum til, að verja fè því,

sem þeir eiga umfram ábúðarjarðir sjálfra sín, og þeir fá án verið við jarðarræktina, til að lána þeim efnaminni, nær þeir þess við þurfa, annaðhvört til að kaupa, eða til h'ýtar að rækta býli þeirra, mót lagavöxtum og veði í býlunum, hvar til eg því heldur nú ætla tíman komin, sem jarðirnar eru komnar í það verð, að eigi síður seljanda enn kaupanda má vera annt um, að stuðla til jarðakaupa landsetanna og jarðarræktarinnar með þessum hætti.

Hvað að öðru leiti efni eða innihaldi hugvekjunnar viðvíkur, þá var mèr, tilgángsins vegna, um það hugað, að vita hvörnig peníngunum venjulega er hèr varið, og að finna orsakirnar til vorrar venjulegu peníngabrúkunar. Eg vissi, að vanþekkíng eða kunnáttuleysi í svo mörgu öðru tilliti hefir aptrað oss framfara, og hefi hèr til fært nokkur rök og alþjóðleg sannfærandi dæmi í *inngánginum*, eða *fyrsta þættinum*. Eins fann eg nú líka, að vanþekkíng um rètta brúkun peníganna átti mestan þátt í þeirra venju - eða van - brúkun hèr á landi, og hefi eg í enum næsta *(öðrum) þættinum* gefið vorri eldri löggjöf um veðsetníngar og þínglýsingar að mestu leiti vanþekkíngu þessa að sök, undireins og eg af lögþíngis- og yfirrèttar-bókunum hefi fært sönnur á hana, og sjaldgæfi veðsetnínganna hèr á landi. Óttast eg nú að sönnu, að eg ekki allstaðar í þessum þætti sè orðinn öllum eins skiljanlegur nè fróðlegur og óskandi væri; en bæði er það, að eg ekki býst við, að hafa leyst neitt fullkomið af hendi, og líka ber það til innihalds þessa þáttar, að eg gjörði mèr í lund, að enda

sumir embættismenn væru líkt staddir og eg var, áður enn eg fór að hugsa útí efnið, að þeir ekki hefðu um það svo ljósa hugmynd, að þeir gætu haft orsök og verkun fyrir augum; en þetta þótti mèr embættismönnunum vera því heldur áríðandi, í þessu að vísu mikilvæga málefui, sem eg er þeirrar trúar, að aungu eða litlu verði á orkað án þeirra, eða yfirhöfuð enna upplýstari manna vegleiðslu eða tilsagnar, uppörfunar og eptirdæma. Þessi hugmynd dróg mig einnig til, að hafa fleiri enu bændur eina í huganum, er eg reit *þriðja þáttin*, um þýðíugu þínglýsínganna, sem og veðrèttarins og veðsetuínganna. Í *fjórða þættinum* um jarðakaupin og veðsetníngarnar sèrílagi, er skírt frá þessu hvörutveggju, eins og það híngað til hefir hèr við gengist og það kemur fyrir sjónir við sölu stólagózanna og konúngsjarðanna, um leið og kveðið er uppúr um óráð svo vaxinnar peníngabrúkunar, um fjölgun sjálfseignarjarða og nytsemi veðsetnínganna fyrir land og landsbúa. Vilda eg með þessum þremur seinast áviknu þáttum hugvekjunnar leitast við, að ryðja þeirri torfærunni fyrir veðsetníngunum, sem áður var þeim helzt í vegi, nefnilega vanþekkíngu landsmanna á rèttri peníngabrúkun. En hafi mèr ekki tekist það í þeim, vona eg að *fimti þátturinn*, um röksemdir þær, sem mæla kynnu fram með enni venjulegu peníngabrúkun Íslendínga, (hvar eg undireins vona að hafa framfært einar og aðrar athugagreinir til upplýsíngar um rètt og skyldur milli landsdrottins og leiguliða, lánardrottins og skuldunautar, og um veðrèttin yfirhöfuð), taki af

efan hjá lesendum, einkum vilji þeir halda áfram, og lesa *sjötta þáttin* með, hvarí eg hefi leitast við, með áreiðanlegum dæmum og rökum að leiða fyrir sjónir, hvörsu vel þeim efnum sè varið, sem kostað er til jarðarræktarinnar, og sèrílagi til þúfna slèttunar og túngirðínga, eptir þeim ágóða, sem sèrhvört þannig aflað kýrfóður, er því er varið til fjár- eða kúaeldis, gefur bóndanum, o. s. frv. Í *sjöunda þætti* hefi eg, í viðlíkum tilgángi, reynt að sýna og sanna, hvörsu leigubrúkun jarðanna, sem en venjulega peningabrúkun vor fæðir og nærir, ekki einúngis sè reglulegri rækt jarðarinnar og bjargræðisveganna skaðvæn, heldur og þarhjá leiði af sèr fátækt, aðburðaleysi, húsagaleysi og almennan ánauðaranda í þjóðinni yfirhöfuð, og hve áríðandi það því hljóti að vera landsins bjargræðis- og búnaðar háttum, sem og athöfnum og lands siðum yfirhöfuð, að leigubúskapnum yrði hnekkt með aðstoð veðsetnínganna, og að þarámóti sem flestir yrðu sjálfseignar bændur.

Þareð það er orðin alvenja, að setja ómyndugra og landsstiptana peninga á vöxtu í konúngssjóðin, og þetta háttalag fremur miðar til að safna auði, enn að hafa auðsins not, eða að láta hann koma fram í jarðarræktinni, gaf það mèr þarnæst tilefni til, í *áttunda þættinum* að athuga það er mèr í þessu tilliti helzt þótti athugaverdt, og að eggja á, að verja heldur peníngum þessum til að setja þá á vöxtu í landinn sjálfu. Í *níunda þætti* hefi eg yfirlitið þann kostnaðar-, erfiðis- og umsjónar-auka, sem leigujarða eignin ollir jarð-

eigendunum, en hinir hleypa fram af sèr og komast hjá, sem ekki eiga nema bújörð sína, en eiga veðskuldabrèf í stað leignjarða; og á hinn vegin þann talsverða ávinníng og hagnað, sem veðskuldabrèfin, án tillits til betri jarðarræktar, að eðli þeirra gefa hlutaðeigendum í bráð og lengd, efnamönnunum til enn alvarlegri íhugunar. Í *enum túunda* hefi eg gefið sýnishorn af jarðakaupabrèfum, veðskuldabrèfum, framsali þeirra og kvittunum, með nokkrum athugasemdum, enum sömu og öðrum til leiðarvísis, lagað samkvæmt tilgángi mínum og á þann hátt sem annarstaðar almennt viðgengst og eg helzt ætla að það geti að notum orðið. — Loksins hefi eg bætt við hugvekju þessa *ellefta þættinum;* inniheldur hann nokkrar athugasemdir við ritgjörð Síra Tómasar Prófasts Sæmundssonar, í fyrstu deild Búnaðarritsins, viðvíkjandi meiníngum hans eða áliti um konúngsjarða söluna, eigineignar notkunina hèr á landi og orsökina til að vèr verjum peníngum vorum einúngis til jarðakaupa; þótti mèr bæði þær athugasemdir eiga hèr við, og eg vænist líka að þær geti orðið lesendunum all hentugur leiðarvísir til enn betri eptirþánka og sannfæríngar um atriði þessi, sem og um hagnað leigujarðasölunnar yfirhöfuð.

Fleiri orðum ætla eg ekki muni þurfa að fara um innihald ritkorns þessa; en af því efnið er þess eðlis, að víða verður við að koma, eigi að skoða það á alla vegu, kemur hèr fleira á góma, málefninu til styrktar eða upplýsíngar, enn í stuttu máli verði frá sagt, og fyrir hvörju heldur ekki

þarf að gjöra þeim neina frekari grein, sem virða það yfirlesturs og íhugunar. Og þó að allt rannar lúti að sama efni og augnamiði, vona eg samt, að lesendunum þyki tilbreytíngar, málsatriði og athugagreinir hugvekjunnar eigi óþarfar, og að hún fremur geti orðið þeim til nokkurs gagns, eptirþánka og fróðleiks, enn til leiðinda. Verði mèr nú að þessari von minni, hefi eg náð þeim tilgángi og launum ómaks og kostnaðar, sem eg ætlaðist til, er eg tók fyrir mig að rita þessa hugvekju. Tilgángi þessum samkvæmt hefði eg því helzt kosið, að Suður-Amtsins Húss- og Bústjórnar fèlag hefði að sèr tekið að gefa hana út; en þóað fèlag þetta ekki sem stendur sjái færi á því, er eg samt orðinn fremur sterkari enn veikari í voninni við svar það, er eg hefi fengið frá nefnd þeirri, (Herra Stiptamtmanni v. Bardenfleth, Landsyfirrèttar Justitiario Th. Sveinbjarnarsyni og Prófasti, Dómkirkjupresti Síra H. Thordersen) sem falið var á hendur að segja mèr af eða á um hèr að lútandi tilboð mitt. En svarið er svo játandi:

"Eptir að við höfum kynnt oss innihald rits "þessa, getum við í sannleika ei annað enn full-"komlega viðurkennt þá frábæru alúð og greind, "með hvörri Herra Assessórinn hefir í þessu riti "farið með það málefni, (viðvíkiandi peníngabrúkun "á Íslandi m. fl.) sem allir verða að játa að er "einkar áríðandi fyrir Íslands búnaðarháttu, hvörs-"vegna við líka meinum, að þess sè að óska, að "ritið mætti koma út á prent; er við ei heldur "efum, að það muni gjöra sitt til að útbreiða

"ljósari þekkíngu á mörgu, samt sèrílagi stuðla til, "að þau málsatriði sem í ritinu fyri koma, viðvíkj- "andi landsins búnaðar háttum, verði tekin til "ýtarlegri yfirvegunar; auk þess, að þegar fram líða "tímar, mun rit þetta án alls efa gefa mörgum "kærkomna upplýsíngu um ymsa hluti, vidvíkjandi "landsins högum."

"En þegar við hins vegar lítum á fèlagsins "núverandi fjárhag, lengd ritgjörðarinnar, samt nán- "asta augnamið búnaðarritsins, þá getum við — því "miður — ekki hagnýtt okkur yðar góða tilboð, "að mega taka það inní áminnst tímarit; en skyldu "þèr þarfnast eður æskja styrks til að koma þessari "yðar ritgjörð út á prent, þá segjum við okkur "fúsa til, á næsta reglulegum fèlagsfundi að mæla "fram með því hið bezta við getum, að yður mætti "hèrtil veitast lán, eður eitthvört það liðsinni, sem fè- "lagið væri megnugt um, og yður gæti komið að haldi."

Finnið þèr annars, landar góðir! nokkuð nýtilegt í ritlíngi þessum, eigið þèr mèr það varla heldur að þakka enn Herra Stiptamtmanni v. Bardenfleth; því hann hefir ekki einúngis greidt mèr veg til þeirra uppgötvana um konúngsjarða söluna, hvar á hèr að miklu leiti er byggt, og til ávísunar þeirrar, sem hèr er gefin um þjóðstiptana og ómyndugra penínga, er menn síðan 1823 hafa verið að selja konúnginum til ávöxtunar sèr, heldur á allar lundir hvatt og styrkt mig til þessa fyrirtækis. En hèraðauki má eg, og hvörr sá sem hugvekjan gæti að notum orðið, þakka bæði honum, Herra Landsyfirrèttar Justitiario Th. Sveinbjarnar-

syni, Biskupinum Herra Steingrími Jónssyni, Dannebrogsriddara og Dannebrogsmanni og Amtmönnunum, Herra B. Thorsteinson Dannebrogsriddara og Herra B. Thorarensen, einkanlega þó enum fyrrnefnda, marga upplýsandi og málstyrkjandi athugasemd, sem til er orðin við munnlegar eða skriflegar bendíngar þeirra og ávísanir. Eins verðskuldar sífeld viðstöðulaus greiðvikni Herra Land- og Bæarfógeta St, Gunlögsens, til þessa fyrirtækis frama, mitt og þeirra þakklæti, sem það gæti að liði komið.

þareð eg í fyrstu hvörki gat haft það traust á sjálfum mèr, sem þurfti til fullkominnar sannfæríngar um yms atriði, er komu efninu við, nè heldur vænt að landar mínir alltjend mundu láta sannfærast af svo lítt reyndum og óvönum ritböfundi sem eg er, sá eg mèr ekki annað fært, þegar eg var búinn að taka saman hugvekju þessa, enn að fara að kynna mèr allt, hvað eg átti kost á, og efninu eða einstökum greinum þess við kom, og hefi eg með þessu móti næsta styrkst í trúnni um hvað eina er eg áður ritað hafði, bætt nokkru þar við, og löndum mínum til fróðleiks og trúarstyrkíngar hvervetna bendt til ritgjörða þeirra, sem mig gjörðu trúarsterkari og fróðari um margskonar atriði.

það hefði vel mátt til hlýða, ennþá að auka við hugvekju þessa ávísun um Láns-samlög *(Credit-Foreninger)*, Sparnaðarsjóðu *(Sparekasser)*, Þjóðbánka- og Konúngs-skuldabrèf, sem annarstaðar tíðkast, en naumast eru kunnug

hèr að nafninu til, hefði hún þá ekki orðið töluverdt lengri; en eg sleppi því að þessu sinni, (vonandi að þar til kannske seinna bjóðist tækifæri), bæði þessa vegna og líka af því, að mèr nú sem stendur þótti mestu varða, að koma löndum mínum á þann einfaldasta, alfarnasta og greiðasta veg, til að hafa efnanna, og þarmeð landsins, sem mest og farsælust not.

Um leið og eg bið landa mína að virða á hægra veg yfirsjónir þær, sem mèr kynnu að hafa orðið í orðfæri og rèttritun ritkorns þessa, má eg að endíngu óska þess: að hvörr sá, sem fær sannað að eg í einhvörju áríðanda atriði ekki hafi á rèttu að standa, ekki leyni mig eða aðra landa sína meiníngum sínum og ástæðum; því þar á ríður, að vèr til fulls komumst niður í því sem *satt* er og *rètt* í þessu sem öðrum áríðandi þjóðar málefnum.

*Reykjavík 2. Marts 1840.*

**J. J.**

# I. INNGÁNGURINN.

Að sèrhvörr landa minna, sem er hugleikið um framfærslu húss sins, bjargræðisveg sinn, eða yfir höfnð um stöðu sína í mannlegu fèlagi, athugi: hvörnig hann bezt verji afgánginum af lífsbjörg sinni, eða peníngum þeim, er hann ekki þarf til lífsins viðurhalds, ætla eg óyggjandi. Að vísu þykjast sumir hafa nóg afrekað, þegar þeir hafa sèð sèr og sínum borgið með nægilegum fötum og fæði. Þeim kemur ekki til hugar, að á meiru sè þörf, afla því ekki nema að skornum skamti, hirða ekki um almeningsgagn eða velgengni, föðurlandsins framfarir, heillir eða heiðnr, og gefa framtíðinni aungan gaum; en færstir eru þó þeir, sem vantar vilja til að vera almenníngi, eða því fèlagi, hvörs limir þeir eru, að notum, og er það fremur, að Íslendínga skortir yfirhöfnð þekkíngu, eptirþánka og áræði, en vilja til að gagna sinni fósturjörðu. Ekki get eg efast um, að vorir fáu bjargræðisvegir mundu taka góðum og miklum framförum, ef vèr sæum og þekktum meðöl þau sem efla framfarirnar, og verkanir þeirra, eða betur og gjörr vissum, hvörnig þeim yrði við hjálpað;

eg efast heldur ekki um, að þeim mætti fjölga, ef vèr til hlýtar þekktum og hefðum vit á, að hagnýta oss allan landsins gróða og landsnytjar. Um þetta ber öllum saman: enir hygguu og skarpskygnu landar vorir, Páll lögmaður Vídalín og Konferenzráð Jón Eiríksson telja vanþekkíngu um vora eigin bjargræðis- og atvinnu-vegu, og einkum um aðferð og áhöld við flestallt þar að lútandi, fyrst meðal orsakanna til landsins framfaraleysis og hnignunar, já, enda kenna henni, og þar af fljótandi áræðis- og framtaksleysi voru, um hinar höfuðorsakirnar (þær er við verður gjört) til apturfara landsins og bjargræðisveganna vansmíðis, nefnilega, um fátækt landsbúanna, fólkseklunа, verzlunar ófrelsið (áður enn fríhöndlunin komst á), hirðuleysi embættismannanna og húsagaleysið[1]). Ef-

---

[1]) Sjá ritið: *Deo, Regi, Patriæ* (um viðreisn Íslands) bls. 33, 49, 53, 64—70, 75, 92, 162, 281—82, 286—326; Kammerskretera *Olavii ökonomiske Reise i Island* bls. CXXV., CXXXII., CLXXXVII., 660—664 skíríngargr. og víðar; "Æfisögu Konferenzráðs Jóns Eiríkssonar," bls. 45 nótu, 77, 139 (bréfið til Biskups Dr. Hannesar frá 26. Júlí 1779) og 149, hvar haft er eptir J. Eiríkssyni, að hann vildi láta höfuðtilgáng Lærdóms-listafèlagsins vera: "að fræða landa vora í búsljórnar efnum, en aukatilgáng að eins, að kenna þeim snjöll vísindi." Sama er að skilja af öllum, eldri og nýari, innlendum sem útlendum rithöfundum, er minnst hafa á ófullkomlegleika vorra bjargræðisvega; sjá til að mynda: Eggerts Ólafssonar *Reise igjennem Island* og þá nýáminnstu *Olavii Reise*, þar sem þeir rita um jarðarrækt

laust mundu fleiri girða og slètta tún sín, ef þeir vissu gjörla, hve miklu meiri töðu velgirdt, varin og slètt tún gefa af sèr, enn hin þýfðu og vangirdtu, og þar að auki: hvörr verkaþjófur krappaþýfið er um hásumartíman, á hvörs rèttu brúkun líf manna ríður, og sem því er svo mjög dýrmætur[1]). Vissulega mundu fleiri gjöra sèr far um, að drýgja túna áburð og nýta mó til eldiviðar í stað sauðataðs og kúamykju, ef þeim væri í augum uppi hve mikið við það væri unnið fyrir áburðarfrekt tún til ávaxtar og fènaðar halds[2]) — fleiri stunda betur kálgarða og jarðepla rækt, ef menn kynnu betur þar að, íhuguðu og kynntu sèr, hvílíkt búsílag kál og jarð-

---

og fiskiveiðar; *Philosophische Schilderung von Island*, Altona 1786, bls. 27, 30, 100, 151 o. v.; "Lærdómslistafèlags ritin" víða, og "Búnaðarrit Suðuramtsins Húss- og Bústjórnarfèlags" I. B. 1. D. bls. 47 og 139.

[1]) Sjá *Olavii Reise*, bls. XXIII.—XXV., 158 og 473; "Fèlagsritin" VI. bls. 53 o. v. og Fjölnis fimmta ár í íslenzka flokkinum bls. 30—41.

[2]) Sjá Fèlagsritin I. bls. 162—200, VI. bls. 51—53 og XII. bls. 1—47; Eptirmæli 18du Aldar bls. 68—69; Fjölnis 5ta Ár, ísl. fl. bls 41—48 og Búnaðarritið I. B. 1. D. bls. 35—37 og 185—87. Það var ekki út í loptið, að enn hyggni landi vorr, Amtmaður (nú Etazráð, Bæar og Hèraðs-fógeti í Meðalför á Fjóni) Grímur Johnsson, í byggíngarbrèfunum brýndi fyrir öllum konúngs landsetum norðanlands, meðal annars fleira, þær ágætu og eptirbreytnisverðu reglur um túnateðslu og teðslu-drýgindi, hvörra seinna nákvæmar skal getið.

epli á marga vegu geta verið[1]) — fleiri leggja erfiði og alúð á, að veita vatni af mýrum og votengi, þar sem það er að baga, eða leiða það yfir harðlendi, hvar þess er kostur, ef menn til hlýtar vissu aðferðina, og hefðu lag á því, en tækju jafnframt til yfirvegunar og eptirþánka, hvílík auðs von þaðan er, og af vaxandi heyafla yfirhöfuð[2]) — einstöku menn að minnsta kosti friða skógaleyfar og gjöra tilraun til að sá og planta trè, ef þeir

---

[1]) Siá *Olavii Reise* bls. 475; Afla á sumum stöðum; Fèlagsr. VI. bls. 152 o. f. um samjöfnuð á fjallagrösum og káli, með og móti mjöli, til drýginda í búnaði vorum, og "Eptirmæli" bls. 58—65. Í sama góðu tilgángi og sannfæríngu um jurtagarðanna mikilvægu not, skoraði Etazráð Johnsson á í byggíngarbrèfum, "að landseti skyldi rækta kálgarð og halda honum við, samkvæmt lögum, og þar á meðal konúngs úrskurði frá 26. Febr. 1754."

[2]) Sjá *Olavii Reise* bls. 16.; Konferenzráðs sál. St. Thorarensens nytsömu "undirvísun um vatnsveitíngu af mýrum og þeirra meðferð, að þær beri gott gras" (Fèlagsr. II. bls. 30—55), og hans íhugunarverðu "Tilraun til að ákvarða gagnsmuni heyskaparins í samlikíng við kornaflu sem hèr er mögulegur" (Fèlagsr. XII. bls. 227—259). Hèr má og þess geta, að Etazráð Johnsson einnig setti leiguliðum konúngs norðanlands hèr að lútandi skilmála, á þessa leið: "Af mýrum á hann (leiguliði) eptir megni að kappkosta að veita vatni með djúpum og breiðum skurðum, hvar því verður viðkomið, og þannig gjöra þar af þurlendt engi. Þarámóti skal hann, þar sem þörf krefur og landslag leyfir, kostgæfilega veita vatni, bæði á tún og engi, og yfirhöfuð, eptir ýtrasta megni og á allan mögulegan hátt, betra þau og útvíðka."

myndu eptir, hvörsu landið var skógi vaxið forðum, íhuguðu orsakirnar til eyðileggíngar skóganna og þeirra miklu nytsemi fyrir jarðarræktina, vissu að hèr á 20 ára fresti ennþá geta vaxið 10 álna há trè af landsins eigin viðar aunguin, eins og Factor Baagöe hefir sýnt á Húsavík, og ef þeim væri trjá- plöntun og' -hirdtni eins lagin og þessum nytsemdar manni[1]); — margir leggja kapp á, að byggja hagkvæmari, rýmri og varanlegri hús,

[1]) Sjá Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 72, 232, 733—34, 860 og 1021—23. Rit Skúla Landfógeta Magnússonar "um trjávöxt á Íslandi" í Fèlagsr. VI. bls. 97—116, og enar nýu ágætu athugasemdir Ramsíngs Prests, viðvíkjandi "hvörnig afstýra megi trjáskorti Vesturjótlands, sèrílagi með hliðsjón til Rípa Amts," í *Dansk Folkeblad* 5ta árg. No. 28—29, sem, eins og margt hvað annað, er Prentfrelsis fèlagið gefur út, verðskuldar alla vora athygli; og er það næstum mínkun, að ekki fleiri eru hèr meðlimir fèlags þessa, enn ennþá eru það, því færstir eru þeir menn hèr á landi, sem dönsku skilja, er ekki geti sèð af 2 rbd. árlega, þegar til svo mikils fróðleiks er að vinna, sem rit fèlagsins og nefnt blað, fyrir svo lítið árstillag, gefa kost á. Ekki gleymdi heldur Etazráð Johnsson, að setja leiguliðum konúngs þá kosti: "að þeir varúðarsamlega skyldu með fara þær á jörðuann verandi leyfar af skógi, hrísi og lýngi, samkvæmt Rentukammersins umburðarbrèfi af 30ta Septbr. 1825, samanborau við Jónsb. Llb. 7. Kap.; friða þær fyrir manna og skepna áverkum og átroðníngi, og hvörki sjálfir neitt af þeim höggva eða upp rífa, nè leyfa öðrum það, án administrators útþrykkilegs leyfis og ávísunar, hvað og hvar höggva eða upp rífa megi; allt undir málsókn til straffs og bóta fyrir skógarspell, auk útbyggingar ef útaf ber og ámóti er breytt."

ef menn legðu niður allan kostnað, verkatöf og annan skaða, er leiðir af hroða byggíngum og saggakofum, fyrir heilsu manna og eignr, kynnu að hagnýta sèr þau hentugustu verkefni, sem vèr eigum ráð á, og einkum væru lægnir á, að kljúfa og höggva grjót [1]); — fleiri kosta kapps um betri sauðfjárrækt, ullar- verkun og -vinnu, ef menn vissu aðferðina, og það með, að íslenzka ullin því að eins gæti hækkað um allan helfing í verði; eða ef vèr hefðum tök á, með minni fyrirhöfn að vinna úr henni eins fín ef ekki fínni og skjólbetri klæði enn þau sem vèr, að þarflausu, erum að kaupa dýrum dómum í kaupstöðunum, eða ef oss yfirhöfuð væri lagið að hagnýta ullina sem bezt má, eins og t. a. m. Færeyíngar — hvörra ull er eins gjörð og en íslenzka — og sumir bændur Vesturjótlands, hvar karlar sem konur starfa að ullarvinnunni; eða ef oss ekki skorti áhöld, sem annarstaðar eru svo mjög til hægri verka og flýta fyrir ad tægja, spinna, prjóna, vefa, þæfa og lita, og sem eins gætu orðið hèr að mesta liði, ef eigi hamlaði kunnáttuleysið að finna þau og afla þeirra [2]).

---

[1]) Sjá Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 141, 926—27 og 965; *Olavii Reise*, bls. 218, 487—90 og 565; "um húsa-eður bæa-byggingar á Íslandi," í Fèlagsr. XI. bls. 212—78; og "um bæabyggíngu af steini á Íslandi" í sömu ritum, XV. bls. 215—28.

[2]) Sjá *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 65, 198—210; Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 149—50, 199—200 o. v.; *Olavii Reise*, bls. XC.—XCII., CXXXII; 633—73 o. v.; ritlíng

Sama er til að geta um hagnýtni og verkun á öðrum vörutegundum, svo sem fiski, smjöri, tólg; og hví seljum vèr t. d. selaskinn vor — sem öðrum þjóðum ekki þykir fyrir að hrúka, jafnvel til fatnaðar (í óveðrum) frá hvirfli til ilja, — nema af því, að vèr ekki, eins og Grænlendíngar, höfum huga eða vit á að verka þau, eða færa oss þau svo vel í nyt sem auðið er? Og hvað hamlar meir enn kunnáttuleysið, að vèr ekki gefum oss við verkun annarra skinna vorra og húða, á líkan hátt og aðrar þjóðir, sjálfum oss til heilsu-, skjól- og hald-betri skóklæða og annars fatnaðar, er reynslan þó hefir sýnt, að þessa er hèr auðið, og að skinnaverkunar smiðjan sem hèr var stofnuð 1753, eptir 6 ár hafði 320 dala ábata[1])? — Mundum vèr á hvörjum bæ fleygja út gripa beinum og óнýtum fata görmum, e f o s s k æ m i t i l h u g a r, að vèr gætum grædt á hvörutveggju, já, máske smámsaman gjört oss beinin eins nytsöm til vallar áburðar og Enskir (og nú jafnvel Danir), er

---

ens sama "um litunargjörð" Kh. 1786; snillirit Ólafs Stiptamtmanns Stephensens "um gagnsmuni af sauðfè" í Félagsr. V. bls. 66—114; *Island i det 18. Aarhundrede* bls. 432—33 og 439; "Sunnanpóstin" 1. árgáng bls. 110—12, 2. árg. bls. 74 og 85 og 3. árg. bls. 145—46, svo og nýtt ritkorn um tóvörur Jótlands, í *Dansk Folkeblad* 5. árg. No. 25 og 26.

[1]) Sjá *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 65, 210—215; Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 44 og 337; ritlíng Egils Prófasts Þórhallasonar "um verkun Grænlendínga á selaskinnum til báta og fatnaðar," í Félagsritunum VIII. bls. 172—78; *Schilderung von Island*, bls. 158.

til þess kaupa þau dýrum dómum[1]), en útslitna fata garma eins arðsama til pappírs afla og aðrar þjóðir? — Mundu ekki fleiri við sjáfarsíðuna verða til, bæði að byggja þilskip og hafa þau við fiskiveiðar og flutnínga, ef þvílík byggíng, veiðar og ferðalög væru orðnar formönnum vorum og sjáfarbóndanum eins kunnar og tamar, og bátasmíði það og útróður, sem nú tíðkast[2])? — Mundum vèr ekki vera ríkari af tíma- og verkdrýgjandi áhöldum eða verkfærum yfirhöfuð, er eins gætu verið oss og öðrum þjóðum vinnufólks ígyldi, ef vèr þekktum þau, og oss væri lagið að leggja oss þau til[3])? Dæmin eru fleiri enn hèr sè frekar þörf til að færa, sem reynslan sýnir uppá það, að þekkíng og hygginði, sameinuð reglusemi, nýtni

---

1) Sbr. Búnaðarritið, I. B. 1. D. bls. 47—51, og brèf um útflutníng á beinum, í 3 árgángi "alþýðu blaðsins" (*Dansk Folkeblad*) No. 11.

2) Sjá *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 123, 264—70 og 322—24; *Olavii Reise*, bls. XIII. o. v.; Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 505—508; Jóns Eiríkssonar Konferenzráðs rit "um hvalaveiði" í Fèlagsr. I. bls 143—61 og Ól. Ólafssonar "um bátasmíði og siglíngu Marstrendínga" m. m. í Fèlagsritunum, II. bls. 173—94.

3) Sjá *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 64, 147—48, 288—90, hvar enn djúpsæri Konferenzráð Jón Eiríksson tekur þannig til orða: "Gætu eindagis áhöld og verkfæri, sem (annarstaðar) brúkuð eru til flestra hluta, tekið nægri bót og betrun, væri strax fenginn fjöldi fólks, hvörs kraptar nú gánga í súginn með óhagkvæmum verkfærum og aðferð, en þá eflaust gætu afrekað nokkuð að ráði: já, þvílík endurbót gæti eða aukið fólkstöluna sjálfa"; smbr. bls. 313 o. v.

og dáðrekki, eykur og margfaldar allan lands- og sjáfarafla, eins og þekkíngar- umhugsunar- hirðu- og dáð-leysi rýrir og ónýtir hann.

Eins og það nú opt ber við, að menn ekki vita, íhuga, eða af einhvörskonar ótta og óvana ekki ráðast í, að auðga sjálfa sig með þeim hætti, sem náttúran og gjafarinn gefur kost á, svo veldur vanþekkíng einnig tíðum, að menn eigi heldur hjálpa og gagna náúnganum á þá lund, er einka helzt getur orðið honum og almenníngi til heilla. Þessi vanþekkíng ætla eg nú og eigi mestan þátt í, að enir svokölluðu ríkis- eða penínga- menn meðal vor, fremur enn í öllum öðrum löndum gengst við, sælast eptir fasteignum; að þeir ekki verja peníngum sínum til að lána þá öðrum á móti rentu og veði í fasteignum eður öðrum munum, heldur kaupa jarðirnar sjálfir, jafnóðum og þeir afla peníngauna, já, geyma þá arðlausa í hirzlum sínum árunum saman, þángað til annaðhvört nóg er komið til að kaupa fyrir heila jörð og borga hana að fullu, eða þeir deya sjálfir frá þessu dauða fè. Eg þarf ekki að færa löndum mínum sönnur hèr á; allir vita að peníngaverzlun vorri er þannig varið.

Einginn láir þeim er penínga áttu um það bil sem Skálholts stólsjarðir voru seldar, að þeir þá vörðu þeim til jarðakaupa, því allir vita, hve góðu verði þær voru seldar eða rèttar að segja — hve jarðir eru stignar í verði síðan; en, það er hygginna manna að sjá hag sinn, og þá er hagnaður eða ávinníngur að jarðakaupunum (fyrir aðra enn ábúandan) þegar jarðirnar gefa meira eptir sig enn peníngunum sjálfum, eða lagavöxtum þeirra nemur.

En nú er öldin önnur, og sú tíðin af, að peníngamenn geti grædt á jarðakaupunum, þareð eptirgjaldið í meðal árl ekki nemur meiru enn hálfri, eða 3 fjórðúngum af lagarentu peníngauna eða jarðarverðsins[1]). Því neitar einginn, að betra sè að kaupa jarðir enn eiga peníngana öldúngis arðlausa, og má enda yfirhöfuð álíta það sèrílagi nytsamlegt, ekki einúngis í tilliti til kaupanda, heldur og fyrir seljanda og sjálft landið, að jarðir konúngs og klaustranna aptur verði landsmanna eigin eign; því það gefur hvörjum að skilja, að þeim má vera annara um og veita hægra að hafa umsjón yfir og irkja eign sjálfra sín, enn umboðs- eða umsjónarmönnum veitir. En bæði er það, að færstir sem kaupa fleiri jarðir enn ábýli sjálfra sín, hafa huga á að kosta nokkru til, að gjöra búndanum þær arðsamari, með betri rækt og búnaðarháttum, því þeim er meira hugleikið um eigin hagsmuni, árlegt eptirgjald og festu við ábúenda skipti; og líka er það alltídt, að peníngamenn vorir, af því þeir hafa allan hugan á þessu, ekki einúngis synja sjálfum sèr um en beztu not peníngauna, til betri og fullkomnari ræktar og ábúðar á býlum sjálfra sín, heldur fara með peninga þá, sem þeir eru vel að komnir, eins og ófrjálst fè, svo einginn veit eða fær að vita að þeir eiga þá, fyrrenn einhvör jörðin verður föl, sem þeir geta borgað út í hönd. Þeir ihuga ekki, að þeir með brúkunarleysi peníngauna árlega eyða 4 af hvörju 100 til einkis, er þeir safna þeim og geyma þá til þessara gagnlitlu jarða-

[1]) Smbr. Búnaðarritið I. B. 1. D. bls. 162 o. v.

kaupa, auk ágóðans, sem renturnar sjálfar árlega gætu af sèr gefið (rentu-rentu); og er þessi hugsunarlausa geymsla, eða samansafn penínganna svo almenn og rótgróin á landi voru, að það kvað vera fyrir satt haft, að jafnvel hyggnustu menn, og nytsemdamenn að öðru leiti ekki ósjaldan skilja við heim þenna og penínga sína svo snirtilega, að spesíur Kristjáns 7da finnast raðaðar á einum staðnum, og Friðriks 6ta á öðrum o. s. frv., stundum fágaðar og glóandi, stundum blakkar og ryðgaðar, allt eptir því hvörsu laungu fyrir andlátið eigandanum hefir auðnast að handleika og hirða um þetta glíngur sitt og ómaga fè.

Enn þótt mèr nú ekki geti betur skilist, enn að þetta háttalag sumra minna heiðruðu landa sè fásinna hin mesta, og að það sè í sjálfra þeirra valdi, eins og *síðar* skal gjöra skil fyrir, að gjöra penínga sína sèr arðmeiri og nytsamari með öðru móti enn með óþörfum jarða kaupum, má eg samt hins vegar játa, að þeim að miklu leiti er vorkun, þó þeir eigi sjái hag sinn, eða sèu á rèttum vegi í þessu efni, því ekki vanta

## II. ORSAKIR TIL VANÞEKKÍNGAR ÍSLENDÍNGA UM REGLULEGA PENÍNGAVERZLUN, OG UNDIR EINS TIL ENNAR VENJULEGU PENÍNGA BRÚKUNAR ÞEIRRA.

Veðsetníngar og veðskulda brèf hafa, allt þángað til tilskipanin frá 24. Apríl 1833 kom út,

verið lögum landsins að kalla má eins ókunnug, og þau eru sjálfu því eða innbúum þess. Að sönnu minnast vor gömlu landslög (Jónsbók) á "veð" og "veðfè," en þeirra fáu ákvarðanir hèrum eru, sem von er, í lögum frá 1280, allar aðrar, og öllu ófullkomnari, enn þær sem nú almennt gylda í þessu efni; þannig kallar Landabr. bálk. 9di og Kaupab. 21. Kap. það eina "lögveð," er sá, sem veð vill taka, lætur virða sèr af skynsömum mönnum (6, þegar um lönd var að gjöra) í jörðu eður öðrum aurum skuldunautar síns, og átti þvílíkt lögveð í landi að handsalast millum hlutaðeigenda. Þessi veðlegging má því heita einskonar kaupgjörníngur, með venjulegum vitundarvottum (smbr. Lbrb. Kap. 6 og 11) milli veðtakanda og veðsetjanda, miðandi til endurgjalds fjár þess, er veðsetjandi hefir glatað og eydt fyrir hinum, hvörsvegna tèðir lagastaðir ákvarða, að lánardrottinn "eignist" svo mikið fè í landi eða öðrum veðlögðum grip, sem vottarnir dæma og virða honum, þó svo, að veðsetjandi í ákveðin tíma hafi lausnarrètt til veðfjárins. Með því veðtakandi þannig fèkk einskonar eignarrètt (um tíma) yfir veðfènu, er það og skiljanlegt, að allir skuldaheimtumenn í þá daga áttu að sömu kostum að gánga eptir dauða menn fèlitla og í öreiga búum, að hvörr maður nl. fèkk skuld sína ef búið vannst til, en misti ella, eptir sem tala rann til (Jb. Erfðatökub. 18. Kap. og Kaupab. 7. Kap.). Þvílík veðlegging átti þannig lítið annað skyldt við veðsetníngar nú á tímum, enn að lánardrottinn fèkk skuld sína borgaða, "en hinn það sem að auk var." Veðleggíngin var ekki

til að afstýra **komanda**, heldur til að bæta **liðin skaða**, sem hlutaðeigendur sjálfir því ekki máttu meta, heldur aðrir skynsamir menn dæma um og virða — ekki á þíngi, **öðrum**, er við skuldunautin eptirá fengju saman að sælda, til **viðvörunar** — heldur í votta viðurvist **gjörníngnum til sönnunar**, þó vitnisburðar þeirra eigi yrði leitað lengur enn þeir til endtust og til þeirra varð náð. Þar átti eingin renta við, því enn veðlagði hlutur átti einúngis að endurgjalda liðin skaða í þann svipin[1]), en ekki vera til fullvissu um apturgreiðslu lánsfjár, enn síður peníngaláns[2]); líka hafði veðtakandi öll not veðfjárins, þángað til það annaðhvört varð hans órjúfanleg eign, eða fyrri eigandi leysti það til sín, og líktist það að svo miklu leiti enn svo nefnda brúkunarveði (**brúkunarpanti**, *Pant til Brugelighed*) nú á tímum, en aunganvegin sjálfhaldsveði [**undirpanti**, *Underpant, hypotheca*, þ. e. því nú tiðkanlegasta og eins óhulta veði í annarra fjármunum, sem í eigandans vörzlu fullvissar lánardrottin um skaðlausa apturgreiðslu peníngana (ásamt árlegum laga ávexti) þegar að skulda dögunum kemur, um leið og skuldunauturinn nýtur alls árlegs ágóða af sinni veðsettu en óafsöluðu eign]. Þaráméti er en umgetna veðleggíng mjög náskyld veðsetníngu þeirri, **sem við gekkst með Rómverjum áður enn þeir fundu annan hagkvæmari veðsetníngarmáta, um það leiti lögbók vor var sam-**

[1]) Peninga rentur voru líka í þá daga óþekktar og mótstríðandi páfaboðunum.

[2]) Peníngar voru þaraðauki mjög sjaldgæfir, þegar lögbók vor var skráð.

in. Þar afhendti líka fyrst um sinn skuldunauturinn lánardrottni sínum eignarréttin að þeim hlut er hann veðsetti, með þeim skilmála, að hann að skuldinni lokinni gæfi honum þennan rétt aptur með sama móti; og má vera, að lögbók vor í þessu efni eigi kyn sitt að rekja til enna eldri laga Rómverja, viðlíkt og fleiri lög Noregs, hvaðan Jónsbók er sprottin, um þær mundir[1]). Á líkan hátt tóku Danir haldsveð (brúkunarveð) fyrir skuldum og skaða, áðurenn lögbók vor varð til, og þángað til þeir, skömmu eptir að hún var oss gefin, komust upp á annan umstáugsminni veðsetníngarmáta. Hafi því veðleggíng sú, sem Jónsbók til tekur, nokkurn tíma verið tíðkuð í landi voru, hefir það bæði verið með öllu öðru móti og öllu öðru réttar gyldi, enn veðsetníng fasteigna eða annarra hluta, sem nú tíðkast[2]).

Að sönnu lítur svo út, sem einstöku lagagreinir á seinni tímum hafi gjört ráð fyrir, að vèr nytum almennra laga og ákvarðana um veðsetníngar, og að veðskulda brèf ekki væru sjaldgæfari hèr á landi, enn í Noregi eða Danmörku, hvar alþýða síðan á miðri 16du öld hafði að notið eins ens fullkomnasta veðlögmáls, til lèttis og frömunar viðskiptum manna, bjargræðisvegum og heillasömum fyrirtækjum yfirhöfuð. Þannig leyfir konúngsbrèf frá 14. April 1759 lögmönnunum að taka hálfan ríkisdal

[1]) Smbr. *Koefod Ankers Fortale til "Arnesens islandske Rettergang,"* og *Bangs Romerret* 2. B. 1. H. bls. 228—30.

[2]) Smbr. *Arnesens islandske Rettergang* bls. 112—15 og *M. Stephensens "Commentatio de legibus quæ jus Isl. hodiernum efficiunt"* p. 152—53 og 175. Konúngsbrèfin frá

fyrir þínglýsíngu sèrhvörs kaupbrèfs, veðskulda- og gjafa-brèfs, í lögþingisrèttinum [1]). Sömuleiðis úrskurðaði Kansellíið 3ja Novbr. (13. Decbr.) 1766 [2]), og 22. Apríl 1790 — útaf klögun lögþíngisskrifarans og lögmannanna yfir, að landsfólkið hirdti eigi að láta tèð brèf birta í lögrèttunni — að Stiptamtmaður skyldi áminna það um, at láta öll eignarskjöl og veðbrèf lesa, áskrifa og bóka við hlutaðeiganda rètt; tilskipunin um ena íslenzku kaupverzlun, frá 13da Júní 1787, gefur í 2. kap. § 19. til kynna, "að kaupmenn og aðrir landsbúar geti varið peníngum sínum eins og þeim bezt um semur, og lánað þá mót veði, annaðhvört í höndlum eða öðrum eignum, og mót venjulegri *(gang-*

9 Maji 1593 og 27. Maji 1638 (12ta grein), sem stofnsettu lögþíngisskrifara-embættið, eins og það síðan við hèlzt, og ákvörðuðu takmörk þess og skyldur, fyrirleggja að eins lögþíngisskrifaranum: "að halda rètta innsiglaða alþíngisbók, innfæra í hana allt hvað á alþíngi ferr fram og í hana á að innfæra, og ekki annað þarf rita, enn brèf konúngsins og skipanir, svo og dóma þá, sem á alþíngi dæmdir eru, auk sèrhvörs annars sem höfuðsmaðurinn konúngsins vegna fyrirskipar", og má af þessu ráða, hvörsu lítið embætti þessu upphaflega var ætlað að lètta undir peninga verzlun eða veðsetníngar hèr á landi, og að stjórninni þá enn hafi verið næsta lítt um þetta hugað, smbr. *Arnesens islandske Rettergang* bls. 517–519.

[1]) N. L. 1—23—12 ákvarðar þó fyrir þínglýsíngu sèrhvörs þvílíks skjals við lögþíngin í Noregi ekki minna enn 1 Rdl.

[2]) Þessi úrskurður, ásamt lögvitríngsins Stampes þar að lútandi atkvæði, er í hans *Erklæringer*, V. bls. 125.

*bar)* rentu, samkvæmt nú gyldandi tilskipunum", einnig að á sama hátt megi lána penínga ómyndugra og þjóðstiptana landsins, sbr. Kansellí Promemoria til Stiptamtmannsins frá 5ta Apríl 1788. Tilskipunin um peníngabreytínguna á Íslandi, frá 20. Marts 1815, inniheldur ákvarðanir um rentuhæðina[1]), skuldabrèf, veð í fasteignum og veðbrèf (§§ 7—9 og 10—18), og sýnist sem þær allar gjöri ráð fyrir eldri almennum landslögum og laga venju um þessi efni; sama er að segja um aukatekju reglugjörðina frá 10. Septbr. 1830, sem í 3. kap. ekki einúngis ákvarðar tekjur fyrir rèttarathafnir þær, er áhræra veðbókar stjórn og þínglýsíngar, heldur setur einnig reglur embættismönnum þeim, er þetta hvörttveggja liggur á herðum.

En, þegar nákvæmar er að gætt verður þó ekki annað ráðið af lagagreinum þessum, enn að jarðakaupa-, gjafa- og veð-brèf að sönnu hafi verið til í landi voru og þínglýsíng þeirra að borið, án þess nokkur skýlaus regla finnist gefin um þau, eða þínglýsínguna sjálfa; og er líklega þess vegna svo að orði kveðið í riti Konferenzráðs sál. M. Stephensens, *Island i det 18de Aarhundrede* (útkomnu 1808), bls. 447—48: "að peníngabirgðir þær, sem eru á strjálíngi útum landið, því miður ekki sèn til neinna gagnsmuna, þareð þær hljóti að liggja sem daudt og ávaxtarlaust fè — af því einginn vegur sè til að koma eigendunum á, að gjöra sèr þær arðsamar á nokkurn annan óhultan hátt enn með mögrum

[1]) Sbr. opið brèf 22. Novbr. 1820 (lögleidt hèr með Kansellíbrèfi frá 16. Júní 1821) og 7. Maji 1822 (lögleidt hèr með Kansellíbrèfi frá 9. Sept. 1823).

jarðakaupum" (sbr. bls. 427); enda sèst það einnig, eins og nýlega var ávikið, bæði af fyrr tèðu konúngsbrèfi frá 1759, að þínglýsíngarnar ekki voru borgaðar eptir N. lögum, og af þeim áminnstu Kanselli úrskurðum, að þá var álitið efunar mál, hvört slík skjöl ætti fremur að lesa á manntalsþíngum enn fyrir lögþíngisrètti, jafnvel þó nefnt stjórnarráð, samkvæmt Stampes athugasemdum, tjáði þessa þínglýsíngu — sem þó, eptir athugasemdunum að dæma, sýnist einúngis að hafa við gengist fyrir lögþíngisrèttinum í 30 ár fyrir árið 1765, eða síðan 1735[1]) — einkar vel tilfallna og nytsama, "þareð eigendurnir fá tilbærilega (eignar) vissu, og aðrir, sem vilja eignast eða (fyrir

---

[1]) Af enum prentuðu alþíngisbókum má og ráða, að þínglýsíng eignar- og annarra privat-skjala um þessar mundir (1735), naumast var orðin algeng í lögrèttunni, og ókunnug að kalla um aldamótin 1700, enda þó N. L., sem í 1—8—4 höfðu gefið næsta góða ávísun um þínglýsingu og bókun veðskulda-, makaskipta- og kaup-brèfa, eins og um afsals- og veð-bóka not og meðferð yfirhöfuð, sama árið og þau birtust væru send lögmönnunum til yfirvegunar, hvörsu vel löguð þau væru fyrir Ísland (konúngsbrèf 14. April 1688). En ekki er það ólíklegt, að bæði þessi hugvekja og sèrilagi konúngsbrèf frá 2. Maji 1732, með hvörju N. Lög voru lögleidd hèr, að því leiti form (Formalitet) og rèttargángsmáta snerti, hafi stuðlað til, að þínglýsing prívat skjala hvað af hvörju fór að komast á eptir aldamótin, einkum eptir að bæði hið seinast nefnda konúngsbrèf kom út og tilskipun frá 7. Febrúar 1738 enn fullkamnar var búin að ákvarða skyldur rèttarþjónanna viðvíkjandi þínglýsíngu á skjölum og gjörð veðmálabóka.

peninga sína) veðtaka jarðir, hús og byggíngar, af afsals- og veðmála-bókinni ætíð geta fengið ánægjanlega ávísun, þegar þeir þarfnast hennar," og þareð forsómun þínglýsíngarinnar "andveldlega getur komið af stað mikilli óreglu og órètti, og leidt af sèr leiðinleg og kostnaðarsöm málaferli, hlutaðeigendum til tjóns og skaða," en "að þeir mættu kenna sjálfum sèr það tjón, óvissu og annan óskunda, er af forsómun þínglýsíngarinnar leidt gæti fyrir sjálfa þá og aðra." Svofeld aðvörun leiddi einúngis af áður tèðum klögunum lögmannanna, án þess að ákveðið væri, hvört þínglýsíngin skyldi heldur fara fram við lögþíngisrèttin enn manntalsþíngin; áleit Stampe því fremur hið síðast talda svara tilgánginum, sem N. L. 5—3—39 og 40 (hvörja lagastaði hann að öðru leiti játar ólögleidda hèr á landi) öllu fremur gáfu átyllu fyrir því, enn fyrir þínglýsíngunni við enn fjærlæga lögþíngisrètt[1]). Það var því heldur ekki svo öldúngis að tèðra úrskurða boðum, að lögmenn og lögþíngisskrifari árið 1793 á alþíngi áminntu landsfólkið um, at láta jarðakaupabrèf sín birta þar fremur enn á manntalsþíngum. Þessi áminníng eða "auglýsing" (prentuð í lögþíngisbókinni 1793 bls. 29—30) sýnir að öðru

[1]) Sjá áðurtèð rit hans, bls. 125—26 og 28. Hvörnig það þarámóti gat orðið gjört að skilmálum við Skálholts jarða söluna, sjá söluskilmálana frá 27. Apr. 1785, § 3 Nr. 11., að kaupendur skyldu láta lesa kaupbrèf sín á næstu manntals og lög þíngum, er mèr öllu síður í augum uppi enn nytsemi þessarar reglu eða reglulegrar þínglýsíngar yfirhöfuð.

leiti, að lögmönnunum ekki var svo annt um veðskulda- sem um jarðakaupa- og makaskipta-brèf, (því hún áminnir einúngis um þínglýsíngu seinast tèðra brèfa); og virðist hún þó enda skráð í þeim stil, að ráða megi, að þeir eigi hefðu fellt undan undir eins að áminna um þínglýsíngu veðskuldabrèfanna í lögþíngisrèttinum, hefðu þeir átt þeirra von hèr á landi, hvar til þeir líka höfðu sömu laga heimild og í tilliti til jarðakaupabrèfanna, og enn meira tilefni, að því leiti sem það árið voru til þínglýsíngar í rèttinum 44 jarðakaupabrèf af samtals 51 skjölum. En eins og reynslan hefir mátt kenna lögmönnunum, að þeir áttu einkis ávinníngs von af þínglýsíngu veðskuldabrèfa, svo var þess eigi heldur að vænta eptir landslögunum; því þótt veðskuldabrèfa þínglýsíng að Danmerkur og Noregs lögum og löglærðra meiníngum þar, væri jafn nauðsynleg og nytsöm og jarðakaupabrèfanna, svo gat hún raunar, eptir áður sögðu, ekki hèr átt heima, ámeðan landslögin aunga ákvörðun gáfu um veðsetníngar, því síður um þínglýsíngar veðskuldabrèfa. Þarámóti vantaði hèr ekki reglur fyrir jarðakaupum (Lbrb. Kap. 6 og Kaupab. Kap. 11) eða um jarðakaupabrèf og lögun þeirra (Kaupab. Kap. 12), sem lögmennirnir hinsvegar, fyrst vani var kominn á, að þínglýsa brèfum þessum við þeirra rètt, því fremur sýndust geta fært til síns máls, þar Kaupab. Kap. 12 fyrst og fremst áskilur að þeir sèu við kaupin og innsigli kaupabrèfin, en ef ekki þeir, þá sýslumaður eða nokkrir skilríkir menn, og þeir sán, að landsfólkið, í jarðakaupabrèfunum, að öllu öðru leiti hafði vanist og bundið sig við landslögin,

orð þeirra og talshætti[1]). Það var eptir þessum kríngumstæðum eins náttúrlegt, að þínglýsíng skjala þeirra, er þínglýsa þurfti, færi fram á alþíngi, hvar einnig lögmennirnir og yfirvöld landsins urðu að njóta áheyrnar bæði hjá sýslumönnunum sjálfum og öðrum er þíngið sóktu, eins og að stjórnarráðin og þeir menn, er mikið áttu undir upplýstra landsbúa sögusögu, af því þeir ekki sjálfir gjörla þekktu landsins lög, lagavenju eða ástand[2]), en því betur

[1]) Það hefir og allt til þessa dags verið hèr venja, að skrásetja kaupbrèfin (líkt og við gekkst með Dönum fyrir miðja 16 öld, áður enn regluleg þínglýsíng var þar innfærð, *Rosenvinges Retshistorie 2. Udg.* bls. 194–95) eptir fyrirmælum ennа tilfærðu kapítula Jónsbókar. Þau byrja venjulegast á þessa leið: "1828 þann "2. Október framfór svo felldur kaupgjörníngur í millum "undirskrifaðra N. N. og N. N. í viðurvist tveggja (eða "fleiri) votta, bændaana N. N. og N. N." o. s. frv. Svo er og tilgreint að keypt sè með "handsölum" og stundum með "heimildartökum"; því næst eru gjörníngsvottarnir, ásamt kaupanda og seljanda, vanir nú undirskrifa og innsigla kaupbrèfið. Að sönnu er nú þessi lögun kaupbrèfanna arðia meir enn 560 úra gömul, eða jafngömul lögbók Íslendínga, en hún er eigi að síður skynsamleg og má vel vera, því ekki ríður á miklu, hvört kaupbrèfið er skráð eins og nú var frá sagt, líkt og þíngsvitni, eður að hætti döasku laga (hvartil tilskipun frá 24. April 1833, § 4 nú bendir oss): "Hèrmeð gjöri eg undirskrifaður heyrum kunnugt, að eg selt hefi, eins ag eg hèrmeð sel og afsala mèr og mínum erfíngjum" a. s. frv., sbr. tilskip. 17. April 1833 § 3–5.

[2]) Uppá þetta færir Stumpe á öðrum stað í áðurtèðu riti, IV. bls. 124–25 annað næsta fágætt og öllu verra dæmi, er Kansellíið, — með úrskurði frá 6. Júlí 1753, að ráði þessa eins mikla lögvitríngs, bygðu á meðmælum

nytsemi þínglýsínganna í Danmörku, gjörðu ráð eins fyrir veðskuldabrèfa sem kaupbrèfa þínglýsíngu í lögþíngisrèttinum, hvar til Dönsku lög, ef ekki fyrrtèð konúngsbrèf frá 14. April 1688 og 2. Maji 1732, gáfu þeim fyllsta tilefni[1]). Þessi hugmynd gefur nú og að skilja, hvörnig áður tèðar tilskipanir frá 1787, 1815 og 1830 gátu gjört ráð fyrir veðsetníngum og peníuga láni mót rentu hèr á landi, en þótt oss þarum skorti lög, einnig hvörs vegna tilskipanin frá 11ta Júlí 1800 § 12 taldi bæði veðskuldabrèfa og jarðakaupabrèfa þínglýsíngar meðal embættisverka lögmannanna, er nú voru falin Landsyfirrèttinum á hendur [hvar frá aukatekjureglugjörðin 1830 (§ 29 og 30) þó aptur fèll, er hún gjörði ráð fyrir, að þínglýsíng slíkra skjala færi fram á manntalsþíngum, án þess að í þessu

verzlunar ráðsins (*Commerce-Collegii*) og Stiptamtmanns lands þessa, leyndarráðs og Greifa **Ranzaus** — hvörjum Stampe gjörir ráð fyrir að landsins og verzlunarstnðanna ásigkomulag, og eigi siður almúgans og verzlunarmannanna kríngumstæður, hljóti að vera kunnar — gefur, að ósk þáverandi verzlunar fèlags, leyfi til, að landsmönnum, "þegar þræta hefst millum þeirra og fèlagsmanna," verði stefnt til kaupstaðanna, sem þeirra rètta varnarþíngs, þegar svo ber undir; og mun þvílík undantekníng frá enni fyrstu og stöðugu rèttargángs reglu (að aungan megi sækja nð lögum utan á varnarþíngi hans) fyrr og síðar vera fádæmi.

[1]) Eigi að síður er nú í inngánginum til aukatekjureglugjörðarinnar frá 1830 (sjá *Collegial-Tid.* 1830, bls. 760 og 1833 bls. 329) látið í ljósi, að almenn meiníng sè, að þínglýsíngar eigi nð fara fram við heraðsþíngin. Það lítur yfirhöfuð svo út, sem meiníngar manna

tilliti þó yrði nokkur bein lagabreytíng, fyrr enn eptir tilskipun frá 24. Apríl 1833 § 1].

Að framvegis þessar einstöku (eldri) lagagreinir, er virðast að gjöra ráð fyrir veðsetníngum á Íslandi, framar eru gefnar til vonar og vara, enn í vissu um, að þeirra hèr gjörðist þörf, eptir þeirri reynd, er menn þarum höfðu, er og auðsært af því, að en seinni lagaboð — sem reynslan gjörði nauðsynleg í Danmörku og Noregi, til að koma í veg fyrir óforsjálni þá, óreglu og óhöpp, sem fleiri og margbreyttari viðskipti lánardrottins og skuldunautar þar gátu af sèr leidt — ennþá ekki hèr hafa náð fullkomnu lagagyldi. Þannig eru hèr til miðandi opin brèf frá 8. Júní 1787, 18 Jan. 1788 og 23. Júlí 1819, þó þeirra daglega gæti í Danmörku, ólögleidd hèr á landi[1]), nema að því leiti gyldi þeirra hèr nú kynni að mega sýnast sjálfsagt, af anda og tilgángi tilskipunarinnar frá 24. Apr. 1833: að veita oss fastar og tilhlýðilegar ákvarðanir viðvíkjandi afsala- og veðskulda-brèfa meðferð. Eins hefir Kansellíið, sem studdi sig við athugasemdir enna íslenzku embættismanna, álitið, að eingin not gætu hèr orðið að löggyldi tilskipunarinnar frá 7. Febr. 1823 um ónýtíngu glataðra skuldabrèfa, "þareð slíkra brèfa sjaldan eða aldrei verður getið

um allt hèr að lútandi hafi breyzt með tímunum og kríngumstæðunum, hafi þær annars verið nokkrar, eða nokkurntíma ljósar þeim mönnum sjálfum, sem áttu að leiðbeina þeim er aungar höfðu.

[1]) Smbr. Konferenzráðs M. Stephensens sættakver, 1819, bls. 56—57; Klausturpóstin 1820 bls. 52; Doctor-dispútatíu ens sama bls. 152—53.

hèr á landi" *(Coll. Tid.* 1826 bls. 269), jafnvel þó löggjöf þessi þyki í Danmörku næsta nytsöm og ómissandi. Loksins er í inngánginum til tilskipunarinnar frá 24. Apríl 1833 *(Coll. Tid.* bls. 329) berlega sagt: "að eingin föst regla sè áður gefin um eignar- og veðskuldabrèfa eða annarra þvílíkra skjala þínglýsíngu á Íslandi", því síður um veðsetníngar yfirhöfuð; svo og í inngángi reglugjörðarinnar frá 10. Septbr. 1830 *(Coll. Tid.* bls. 759—60): "að afsals- og veðskuldabrèfa málefni á Íslandi sèu á svo öldúngis völtum fæti, að það enda sè óvíst, hvört þínglýsa skuli einúngis í Landsyfirrèttinum; þessvegna sèst og tíðum, að skjöl þau, er birt hafa verið í Landsyfirrèttinum, eru áður lesin við manntalsþíngin, og er það von, þó fáfróðir almúgamenn, sem lifað hafa í villu þessari og óvissu, sèu jafnvel enn í dag í efa um, hvar þeir eigi að láta t. a. m. jarðakaupabrèfum sínum þínglýsa, eins og þess líka eru dæmi, að þeir hafa óskað gjafa- og afsalsbrèfum sínum þínglýst í Landsyfirrèttinum — eptir að tilskipun frá 24. Apríl 1833 § 1 aftók þínglýsíngar í þeim rètti — og það þó rèttarskrifarinn, samkvæmt Kansellíbrèfi frá 28. Octóbr. 1815, þegar slíkt hefir að borið, hafi gefið þeim til kynna, að þeir með því einúngis olli sèr óþarfa kostnaðar.

Það vakti bæði furðn og eptirþánka hjá mèr, sem áður hafði vanist í mögrustu heruðum Jótlands að sjá árlega þínglýst veðskuldabrèfum svo hundruðum skipti, þegar eg fór að skygnast eptir í Landsyfirrèttarins afsals- og veðbrèfabókum, að finna þar, um 33 ár, (frá 1801 til 1833, þá sú í Lands-

yfirrèttar tilskipuninni frá 11. Júlí 1800 § 12 lög heimilaða þínglýsíng téðra skjala við þenna rètt var aftekin með tilskipun frá 24. Apríl 1833 § 1) einúngis **160** skuldabrèfum þínglýst, að öllu saman töldu[1]); þaráméðal voru 33 útgefin (flestöll af kaupmönnum) til ennar íslenzku sölu nefndar við lok konúngsliöndlunarinnar *(den islandske Handels-Realisations-Commission)*; 83 til kaupmanna og annarra útlendra frá skuldunautum þeirra hèr á landi; 17 til konúngs fjárhirzlu; 2 til spítala, 800 Rdl. virði; 1 til prentverks ens fyrrveranda landsuppfræðíngarfèlags[2]), og einúngis 24 til landsmanna sjálfra; öll samtalin 8682 Rdl. 4 mörk[3]). Á sama tímabili eru í Landsyfirrèttinum birt **424** afsals- og makaskiptabrèf[4]). Að vísu er mèr ókunnugt, hvört nokkur

[1]) Nokkur af þessum ákveða þó aungan pant, en eru eigi að síður þínglýst, líklega í þeirri trú, sem á aungu er bygð, að lánardrottinn þannig mundi öðlast nokkurn þann rètt, sem hann eigi eptir þvílíku skulda brèfi óþínglýstu áður hafði.

[2]) Þessu skuldabrèfi, til 2263 Rbdl. 28 Sk. er þínglýst 1833.

[3]) Þetta er að skilja að samtöldu kúranti, nafnverði og silfri, eins og skuldabrèfin koma fyrir, og eru þó færst þeirra útgefin á tíð peníngabreytíngarinnar.

[4]) Það er lángt frá að mèr miklist tala þessi, og eg geng að því vísu, að mörgum afsals- og makaskiptabrèfum frá 1801 til 1833 ekki sè þínglýst í Landsyfirrèttinum, og að vísu eru allfá af Hólajarða afsalsbrèfunum birt þar; en eins og hèr af má ráða, að aungri stöðugri eða fastri reglu hefir verið fylgt um þínglýsíngu skjala þessara síðan Landsyfirrètturinn var settur, svo sýnir einnig samburður milli þeirra og veðskuldabrèfanna, sem

eða hve mörg skuldabrèf eru (útgefin og) þínglesin í hernðum landsins á tèðu tímabili, án þess að vera það í Landsyfirrèttinum; en bæði af því, að þínglýsíngu þvílíkra skjala á manntalsþíngnm, eða fyrir undirrèttum hèr á landi ekki var veitt neitt rèttargyldi fyrr enn með tilskipun frá 24. Apríl 1833, og þareð hvörgi nærri öll en áminnstu 24 veðskuldabrèf eru úr þeim hernðum er næst liggja Landsyfirrèttinum, heldur líka nokkur úr öðrum landsfjórðúngum, má þess til geta, að þau veðbrèf frá fyrrgreindu tímabili, sem ekki hefir verið þínglýst í Landsyfirrèttinum, sèu næsta fá [1]). Það er og í þessu efni næsta eptirtekta-

---

þínglýst hefir verið á sama tímabili, að veðsetníngar eða peníngalán híngaðtil hefir verið svo að segja fádæmi í landi voru. Þess er og til að geta, að færstir af þeim fáu, sem penínga lánuðu mót veði og rentu, hafi viljað eiga það á hættu að láta ekki skuldabrèfum sínum þínglýsa í Landsyfirrèttinum, þareð það mátti heita við tekið, að þínglýsíngin þar gæfi nokkuð rèttargyldi eða vörn mót tjóni og skaða.

[1]) Að söauu eru frá 1822—1833, einnig að nokkru leiti á ófriðar árunum, jafnaðarlega birt færri jarðasölubrèf enn áður í Landsyfirrèttinum; en hvört hèraf svo mjög verði ráðið, að þvílíkri þínglýsíngu fyrir rèttinum hafi að kalla verið hætt áður enn tilskipunin kom út 1833, og þarámóti almennar tíðkast á manntalsþíngum, má eg láta ósagt; þó er mèr nær að halda, að orsökin framar liggi í áraskiptum bæði að jarðasölu og forsómun manna að láta eignarskjölum sínum þínglýsa aokkurstaðar, er aptur gat komið af ymsu, hvað og er að sjá af lögþíngisbókunum. Hèr af verður því ekkert heldur ráðið um veðsetníngarnar á tèðum tímabilum.

verdt, að eínglu skuldabrèf finnast þínglesin í Landsyfirrèttinum frá kaupendum Hólajarðanna, þar þeim þó, í sölnskilmálunum frá 13. Marts 1802, 4 grein, var gefinn kostur á, að láta tvo þriðjúnga andvirðisins standa ógoldna í jörðunum með því móti, að þeir gyldu 4 af 100 í árs rentu af eptirstöðvunum, auk annarra hlynninda er leiguliðunum var heitið, ef þeir keyptu.

Ekki hýsnaðist mèr þó síður veðsetnínga ástand vort fyrir 1801, þegar eg fór að líta eptir í veðlýsíngabókum lögþíngis vors: því þó það væri almenn landsvenja, eins og vèr áður sáum, að þínglýsa skjölum þeim, sem þínglýsa átti, í lögþíngisrèttinum, og þó hægra væri að ná til hans einnsinni á ári frá öllum fjórðúngum landsins, enn seinna til Landsyfirrèttarins í Reykjavík, finnst þar þó ekki þínglýst um heil 15 ár, frá 1786 til 1800, nema einum 9 prívat skulda- og veðbrèfum, að upphæð alls 1359 Rdl. 24 Sk., enþótt þar á sama tímabili væru 800 afsalsbrèf til birtíngar [1]), og þó hallæris árin 1779—1785 gengju

[1]) Meðal þessara hafa 143 verið birt árið 1794 og 230 árið 1795, flestöll fyrir Skálholtsjörðum. Að öðru leiti eru lögþíngis bækurnar nógur vottur þess, að sjálfum lögmönnunum ekki hefir verið með öllu ljóst, hvörnig þínglýsíngarnar ættu fram að fara, né hvörr tilgángur þeirra væri og rèttar gyldi. Því ýmist hefir þar viðgengist, að minnast ekki einu þínglýstu skjala í þíngbókinni, heldur einúngis láta lögþíngisskrifaran rita þau í veðsetníngabókina, og vitnar hann þar líka sem optast um þínglýsíngu þeirra í rèttinum, án þess að hann hafi til þess nokkra ástæðu í þeirri rèttarbók sjálfri (: Lögþíngisbókinni eða Jústizprótókolunum), hvar þínglýsíngin átti að rèttu lagi fram að fara. Við undirrèttina hefir víðast

á undan Skálholts jarða sölunni, hvað annars að líkindum olli því, að færri urðu kaupendur yfirhöfuð og sjálfsábýla sèrílagi, enn orðið mundu hafa eptir betri vegnun og árferði; og að mestpart efna- og ríkismenn — sem peninga höfðu fyriliggjandi (eða þá nóga landaura til að selja öðrum og láta í kaupstaði fyrir peninga) og gátu borgað allt út í hönd að kalla — nutu kaupanna, og lögðu þannig stofnin til seinni fjár- eða fasteignar-afla. Þetta sýnir sig á því, að ekki svo mikið sem eitt einasta skuldabrèf er að finna í lögþingisbókunum fyrir þeim tveim þriðjúngum kaupverðs, sem Skálholts jarða kaupendum í söluskilmálunum var leyft að láta standa í jördum þeim er þeir keyptu, eins og Hóla jarða kaupendum seinna var boðið.

hvar hið gagnstæða viðgengist: að geta þínglýsíngarinnar í Jústizprótókolunum, en bóka hvörgi en þínglýstu skjöl; varð því aldrei gefin afskrift, eða tilhærileg ávísun um hið þínglýsta skjal, og glataðist því hæði skjalið sjálft og réttar gyldi þess. Enda var og á alþíngi árlega þínglýst ymsum skjölum, hvörra þínglýsíng ekkert réttargyldi gat haft, t. a. m. erfðabréfum (*Testamenter*) og gjafabréfum, sem ekki áttu að ná fullnustu fyrri enn að gjafaranum látnum; konúnglegum staðfestingum (*Confirmationer*); framsalsbréfum (*Transporter*); ávísunarbréfum (*Anviisninger*); uppsagnabréfum (*Opsigelser*); kvittunarbréfum; kaupstaðarskulda reikníngum (*Restancer*); skuldabréfum sem ekkert veð settu, já enda vitnisburðarseðlum vinnufólks og annarra (*Arnesens isl. Retterg.*, bls. 158) og öðru þvílíku, er hvörgi gat náð til þriðja manns, né raskað rétti hans.

En þegar eg var kominn þann feril laganna á enda, sem eg að framan hefi rakíð, viðvíkjandi þínglýsíngum og veðsetníngum hèr á landi, og eg var búinn að sjá, hvörnig jafnvel hinir vegvísustu gátu villst á þessum villugjarna vegi, þá hvarf mèr öll furða á, að svo fáar veðsetníngar hafa við gengist á Íslandi, og þá sá eg, hvörnig það gat orðið — á landi, sem er nærhæfis 1500 □ mílur á stærð og hefir yfir 50,000 innbúa, 7000 heimili og 6000 bæi[1]) — að einúngis 33, segi þrjátígir og þrjú, skuldabrèf (til 10,041 Rdl. 88 Sk.) eru auglýst í viðskiptum landsmanna um 48 ár, þar sem á sama bili er lýst 1221 fasteigna-, afsals- og makaskipta-brèfum[2]); þaraf þóktist eg geta ráðið, hvörsvegna menn hèr á landi ekki hafa verið vanir að taka peníngalán af öðrum, nè lána sjálfir penínga, nema ef vera skyldi til lífsbjargar, eða til að eta þá upp, og þvílíkra smálána hvörgi sè getið nema á milli lánardrottins

---

[1]) Sjá Amtmanns Riddara Thorsteinsons rit "*om Islands Folkemængde og oeconomiske Tilstand siden Aarene* 1801 *og* 1821 *til Udgangen af Aaret* 1833," Kh. 1834. Að fólkstala landsins 2. Febr. 1835 var 55,737 má lesa í Sunnanpósti 1836, bls. 66, sbr. 1835, bls. 40—42.

[2]) Eg tel eins margar fasteignir seldar og kaupbrèfin eru; því að sönnu eru nokkur af þeim fyrir jarða pörtum, en aptur önnur fyrir svokölluðum jarða torfum eða fleiri jörðum til samans, svo nð tala enna afsöluðu jarða þannig varla mun ofhátt sett. Að öðru leiti er þessi jarða tala eingin ósköp á svo laungu tímabili, jafnvel þó hún að vísu verði mikil í samanburði við veðbrèfin, sem þínglýst er á sama tíma, og verður samjöfnun þessi óröskuð, þó nokkur af kaupbrèfunum sèu í raua og veru útgefin laungu áður enn þeim er þínglýst.

og skuldunautar; varð þá að leggja peníngana fyrir og safna þeim, þángað til jarðarverðið var fengið, ef nokkuð átti úr peníngabrúkuninni eða jarðakaupunum að verða[1]), og er það sem nú var sagt um stólsjarða söluna órækastur vottur þess, að ráðlagið hafi verið þannig. Þaraf sá eg orsökina til, að ekki fleiri enn sjöttúngur ábýlisjarða sýnist hafa skipt hèr eigendum um 50 ár[2]), jafnvel þó stólsjarða salan m. fl. sè látin fylla töluna á þessari hálfu öld; þaraf varð mèr og auðskilið, að stjórnin, forstöðumenn þjóðstiptananna[3]), kaupmenn og útlendir menn, sem voru öllu öðru vanir og ekki höfðu vaxið upp með landsins lögum, en færstir aðrir, settu peninga sína hèr á rentu, mót veði í fasteignum skuldunautanna, og undireins, að einúngis yppurstu og hyggnustu menn af landsins sonum urðu til að feta í stjórnarinnar fótspor, og láta sèr það skiljast, að veðsetníngar (eins og hvörr annarr ólögbannaður samníngur, og eigi síður enn kaup og sölur) mættu vera eins leyfilegar og rèttgyldar þó að lög vor þegðu um þær, án þess að láta gamla landsvenju eða hleypidóma aptra sèr,

[1]) Í Danmörku viðgengst það gagnstæða, og þar eru skuldabrèfin öllu fleiri enn fasteigna- eða jarðakaupabrèfin.

[2]) Eg gjöri hèr 1000 úr 1221 fasteignum, og 50 ár úr 48, lesendunum til hægri verka og nákvæmari íhugunar.

[3]) Þó finn eg einúngis að þeir feðgar, Biskuparnir Dr. Finnur Jónsson og Hannes Finnsson, hafi varið peníngum Skálholts stóls, skóla og dómkirkju, spítala og kirkna, í veðskuldabrèf, ámeðan alþíng var uppi.

þegar þeir sáu hins vegar sitt og annarra gagn [1]). — Þessa var aptur nanmast að vænta af ennm meiri og fáfróðari hluta landsfólksins, sem ekki vissi af öðrum lögum enn lögbók Íslendínga, og þar hjá ekki er gefinn fyrir að brjála gamalli landsvenju; einkum þar eingin vissa var um þau laga boðorð, sem önnur aðferð yrði bygð á til að gjöra

[1]) Þau áðaunstu 33 skuldabréf eru nefnilega útgefin til 9 eða 10 lánardrottna, meðal hvörra eg sérílagi aafngreini: Konferenzráðin Stephán Thorarensen og Magnús Stephensen, Biskup Dr. Hannes Finnsson, Etazráð Ísleif Einarsson, Egil Sveinbjarnarson í Innri-Njarðvík, Snorra Sigurðsson á Eingey og Gunnar Þorkelssnn á Korpúlfsstöðum. Eins voru það hyggnustu merkismenn, sem réðust í að taka til láns umgetna þjóðstiptann peninga, sem nýnefndir Biskupar komu á laga-vöxtu mót jarða veði; það voru: Skúli landfógeti Magnússon, Mag. Bjarni prestur Jónsson, Kansellíráð og sýslumaður Steindór Finnsson, Biskup (þá verandi Prestur) Geirr Vídalín, og prófastarnir Markús Magnússon á Görðum og Guðlaugur Sveinsson í Vatnsfirði. Svo er og af lögþíngisbókunum að ráða, sem þau örfáu prívat-veðskuldabréf, er þínglýst eru á alþíngi fyrir 1786, á framkvæmdarárum Skúla landfógeta, séu öll nð kalln frá honum; og þó þetta með öðru geti verið til sannindnmerkis um það sem segir í æfisögu Jóns Eiríkssonar (bls. 57), "að Skúli hafi ekki verið lagaður til að fara laglega með lítið," er það eigi síður meðal annars órækur vottur hins, að enir vitrustu og framkvæmdarsömustu menn voru óveilir á, bæði að taka lán þegar þörf krafði, og að selja peninga á rentu, þegar þeim ekki öðruvísi varð betur varið; einnig sýna lögþíngisbækurnar, að enn ráðsvinni og duglegi sýslumaður í Árness sýslu Brynjólfur Sigurðsson tíðkaði hið sama á sinni tíð.

peníngana arðsamari, og landsfólkinu þannig yfirhöfuð voru ókunnug öll lög og áreiðanlegar reglur um veðsetníngar, veðbrèfa meðferð og þínglýsíngar.

Að þeir menn, sem nú var getið, áttu einnig hvörr um sig miklar fasteignir, er öllum kunnugt, eins og líka má fullyrða, að það sem þannig finnst lánað af peníngum þeirra mót veði og rentu, varla nemi meiru enn því, sem þeir í þann svipin ekki gátu varið til jarðakaupa, og því hefði orðið að liggja ávaxtarlaust þángað til einhvör jörðin varð föl, hefðu þeir ekki tekið til bragðs að koma því í skuldabrèf; og því hyggnari menn sem þessir fáu lánardrottnar voru, þess óhultar má af jarðaeign þeirra ráða, að þeir yfirhöfuð ekki hafi álitið það eins arðsamt, að setja peninga sína á rentu, eins og að kaupa fyri þá jarðir um þær mundir. Vèr getum því ekki eingaungu kennt ófullkomlegleika ennar eldri löggjafar vorrar og þaraf risinni vanþekkingu og óvana landsfólksins yfirhöfuð á veðsetníngum, um peníngabrúkun vora, heldur er hún að nokkru og miklu leiti einnig sprottin af rèttu áliti þeirra sem peníngana áttu, um eigin hagsmuni, áður enn jarðirnar hækkuðu í verði, og á meðan færri voru peníngar í landinu. Jarðir hafa nefnil. áður fyrri, og allt þángaðtil vèr fórum að njóta enna góðu ára þessarar aldar, verið hèr í næsta lágu verði, í samanburði við landskuldir þær og leigur sem af þeim skyldi gjalda. Það hèlzt lengi við, að eptirgjaldið hafði töluvert yfir vanalega lagarentu jarðarverðsins, og þó að landskuldin ein ekki væri allstaðar eða alltaf mjög há, þá unnu aptur leigurnar það upp; það þókti og má þykja

góður arður fjár, að taka 20 álnir (2 fjórðúnga smjörs) í ársleigu eptir 120 álnir. Leigan meir enn fjórborgaði innstæðuna á sama tíma (25 árum) sem ársrentur af peníngum (4 af 100) unnu upp höfuðstólin einúngis einusinni. Þar af er það skiljanlegt: að jarðeigendur ætíð kappkosta að fá leiguliða sem flest kúgyldi á leigu, svo að þau enda víða eru fleiri enn lög og lands venja ákveða, eins og t. a. m. í Þykkvabænum í Rángárvalla sýslu; að svo margir verða búendur sem aunga skepnu eiga; að allir vilja loða á jörðum sínum í lengstu lög, og jafnvel enn eru að hrúga þeim saman að óþörfu, sumpart í þeirri von, að vinna upp á leigunum og aukakvöðunum — þó hvörttveggja þetta sè þeim fyrirmunað í sölu skilmálum konúngsjarðanna — það sem á lagarentu jarðarverðsins vantar í landskuldargjaldinu; að konúngur einn, sem eins varðar um almenníngs gagn og sjálfs sín, gefur leiguliðunum kost á, að kaupa ábýli þeirra; að einginn fylgir því dæmi sem gefið er með stóla- og konúngsjarða sölunni til að fjölga sjálfseignar bændum, og af því, já að mestu leiti af því, fæ eg ráðið, að aungum Íslendíngi, svo eg til viti, enn þá hefir orðið að vegi, að uppörfa til ábýla kaupa á landi hèr, eða að vísa á veðsetníngar, sem hentugast og heillavænlegast meðal þeim til útbreiðslu. Landaurar forngyldir rèðu verðhæðinni, og peníngaverzlunin fór ekki eptir peníngaeigninni þar sem hún var fyrir. Þeir voru tíðast jarðeigendur sjálfir, sem bezt höfðu skyn á þörfum landsins, eða lögðu fyrir sig að rita um þesskonar efni,

og þeim er máske ekki svo mjög láandi, að þeir þögðu í þá daga[1]).

Að Jón Konferenzráð Eiríksson hvörki í enn annálaða riti *Deo, Regi, Patriæ*, sem leggur ráð til vidreisnar landinu, nè í seinni ritum sínum bendir til að fjölgað sè sjálfseignum með styrk veðsetnínganna, furðar mig heldur ekki, þareð mestur hluti landsins í það mund, áður enn stóla gózin voru seld, var eign konúngsins, stólanna og annarra stiptana, og það mátti heita eins að þörfum þessara og annarra eigenda að halda jörðunum óseldum, ámeðan þær gáfu þeim meiri eða eins mikin ávöxt og lagarenta jarðaverðanna, eptir þeirra daga gángverði á jörðum og landaurum; en þegar svo á stóð, var það hvörki samkvæmt embættis stöðu Jóns Eiríkssonar, nè óhlutdrægni og rèttsýni hans, að eggja á annað til viðreisnar fósturjörðu sinni, enn það sem hann áleit vera konúngi eða stiptunum þeim í hag, hvörra gagn hann átti að stunda; má og vera, að þeir sem litu öðrum augum enn Jón Eiríksson á Skálholts jarða söluna, (sjá æfisögu hans bls. 53, 75, 77, 135—36, 141 o. v.) ekki hafi verið landsins og stólsins högum eins gagnkunnugir og hann, en haft hugan á að koma landinu upp með þessu móti, því fremur sem áþekkt meðal hafði reynst vel í Danmörku — og var beggja tilgángur góður, þótt sitt vildi hvörr; sbr Eptirmælin bls. 630. En sá var munurinn, að í Danmörku var konúngur ekki einn um, að styrkja bændur til að

[1]) Sbr. *Schilderung von Island*, bls. 81, 111—118, 235 o. v.

kaupa ábýli þeirra, því þar vildi hvörr sá, sem peníngahafðl, koma þeim á rentu, en hèr einginn, en af því leiddi aptur, að ávinníngur landsins varð minni enn ætlað var, þar jarðirnar voru seldar í bendu eða allar í einu að heita mátti, og færstir leiguliðar, sem von var, gátu keypt og borgað það sem borga átti, af eigin stofni. Mælir þetta — ásamt jarðaverðinu (í samanburði við eptirgjaldið eða ávöxt jarðeignanna) um þær mundir — ekki lítið fram með tregðu Jóns Eiríkssonar á sölu Skálholts jarðanna; enn varla mun nokkurr sá, sem þekkir þjóðmæríng þennan af æfisögu hans, geta til, að hann mundi nú lengur hika, ef hann væri uppi, og sæi í hvílíkt verð jarðirnar nú eru komnar, eða við hvílíku verði nú má selja þær, eins og hitt, hvílíkan árs ávöxt og andvirðis auka þær ávinna eða geta áunnið eigendunum.

Þannig læt eg fullrædt um orsakirnar til ennar óhaganlegu peníngabrúkunar Íslendínga, er enn þá viðhelzt, og leiðir með sèr, að ábúendurnir sjálfir verða sjaldnast eigendur býla sinna, en landið ferr að mestu á mis við aðalgagn peníngа þeirra sem hèr ílendast; vík eg nú til aðal tilgángs hugleiðínga þessara: að vekja máls á því, hvað oss hefir áskotnast með tilskipuninni frá 24. Apríl 1833, eða á lögmáls þessa eiginlegu þýðíngu og tilætlun um þínglýsíngar og veðsetníngar yfirhöfuð, sem hún hefir lögleidt hèr; og því næst, hvört nú sè ráðlegra fyrir þá, sem ekki eru ábýla þurfandi, að verja peníngum til jarðakaupa, eða til að lána þá búendum og öðrum, gegn lagarentu og veði í jörðunum.

Til að geta gefið þeim löndum mínum, sem þar um eru ófróðir, nægilega ávísun um

## III. ÞÝDÍNGU ÞÍNGLÝSÍNGARINNAR

eptir tèðri tilskipun yfirhöfuð, og sèrílagi um not hennar í tilliti til afsals- og veðskuldabrèfa, verð eg um stund að yfirgefa Íslands lög, hvörra örbirgð í þessum efnum vèr þegar sáum, en þarámóti leitast við, stuttlega að gjöra grein fyrir efni þessu með aðstoð eldri og nýari laga Dana; og efast eg ekki um, — eptir því sem ráða virðist mega af tilgángi og innihaldi tilskipunarinnar — að þau bæði megi vera vor leiðarvísir til þekkíngar á greindu efni, og í viðlögum boðorð til eptirbreytni, að því leiti þau geta átt hèr við.

Hjá öllum siðuðum þjóðum, sem gjört hafa sèr nokkurt far um að efla velgengni sína og heiður, eða sína bjargræðis- og atvinnuvegu, eru veðsetníngar jafntíðkaðar og kaup og sölur, og jafnaldra þessum viðburðum þjóðanna til heilla eflíngar sèr. Um þetta ber hvervetna raun vitni. Hitt er aptur bæði náttúrlegt og reynslunni samkvæmt, að þjóðirnar hljóta að hafa tekið tölnverðum framförum, áður enn þær komust uppá þann veðsetníngarmáta, sem miðar til að gefa lánardrottni rètt yfir þeim munum skuldunautarins, sem honum eru ekki afhendtir, en eru framvegis í vörzlum skuldunautar; eða með öðrum orðum: aður enn þær fóru að geta haft not af sjálfhaldsveði (innstæðuveði? *Underpant).* Mönnum er að sönnu fljátt umhugað, að fullvissa sig um greiðslu skuldarinnar af fjár-

munum skuldunautarins, en þeim er óljóst hvörnig það geti orðið sem hagkvæmast og fyrirhafnar minnst. Ámeðan menn voru ófróðir um þetta, þókti það einasti og einfaldasti vegurinn, að taka það eina veðfè fyrir skuldinni, sem lánardrottinn gat sjálfur tekið við og haft til umráða eða varðveizlu (handsöluveð, *haandfaaet Pant;* haldsveð, brúkunarveð, *Brugspant)*. Þetta viðgekkst og mest hjá Dönum, allt fram á miðja 16du öld, þá þeim voru gefin þau lög, sem komu á sjálfhaldsveði, og hefir það síðan almennt og næstum eingaungu verið tíðkað í Danmörku og Noregi. Áður framfór veðsetníngin líkt og veðlegging eptir Jónsbók, sem annarr samníngur: þurfti þar samþykki hvörntveggju, handaband *(Haandslag)*, votta viðurvist til vitnisburðar um samníngin, og handsölu veðfjárins; en ef fasteignir voru veðsettar, varð að gjöra það með þeim hætti sem fasteignir voru afsalaðar að fornu, þannig: að veðsetjandi (seljandi) lagði jarðarhnaus eða handfylli af moldu úr enni veðsettu jörðu, eða og lyklana að húsunum, í hendur veðtakanda (kaupanda), til merkis um afsölu veðrèttarins (eignarrèttarins) frá einum til annars (*Vethskjödning; Scotatio);* síðar var venja: að veðsetníngin (salan) færi fram á þíngum, til enn betri staðfestu og sönnunar gjörníngiunum. En eptir að fólkið fór að athuga, hvað til þess eigin framfara heyrði — og sá að þessi veðsetníngarmáti var næsta umstángssamur, daglegum verzlunum og viðskiptum manna til hindrunar og óhentugur til að veita veðrèttinum, eða veðsetníngunum þá þýðíngu og útrými,

sem nauðsynjar landsins og þarfir manna kröfðu; þareð einnig færstum af þeim sem peníngaráð höfðu gat verið hægt að taka veðfè, allrasízt í fasteignum, til eigin brúkunar — fór því og að skiljast — fyrst í kaupstöðunum, hvar peníngabrúkunin var margbreyttari og tíðari, og síðan á landsbygðinni, eða til sveita, þegar menn þar fóru að stunda af alvöru jarðarræktina, og verja til hennar erfiði og peníngum, sem hvörr mátti — hve umsvifaminna og hentugra það væri í viðskiptum manna, að taka peníngalán ámóti veðfè, sem eins eptir sem áður gæti verið í vörzlu eigandans. Eptir siðaskiptin í Danmörku og Noregi 1536 var eigi heldur lengur bannað að taka rentur af peníngum, og urðu peníngamennirnir við það því fúsari á, að taka sjálfhalds veð í stað brúkunarveðs, sem þeir optastnær sáu sèr meiri hag búin af lagavexti peníngarna, enn af brúkun og afrakstri veðfjárins, (sem einnig var í ábyrgð þeirra, sem höfðu það til vörzlu eða brúkunar), einkum eptir og á meðan rentan var ákvörðuð til 5 af hvörju hundraði. Af þessum nýrri veðsetníngarmáta hlutust samt smámsaman óhöpp, prettir og svik óráðvandra skuldunauta, sem stundum að lánardrottni sínum óvörum veðsettu eða seldu eign sína fleirum, sem við það tíðum urðu fyrir skaða, og komust í þras og málaferli um veðið. Til að stemma stigu fyrir þessu, og sjá þriðja manni borgið, eða hvörjum þeim, sem eignast vildu og veðtaka fasteignir, var ákvarðað — fyrst í tilskipun 1553, og síðan í fleirum rèttarbótum og tilskipunum, að miklu leiti ánýuðum við dönsku og norsku lög

Kristjáns 5ta um þetta efni: — að öll skjöl, með hvörjum menn afsala eða veðsetja fasteignir, skyldi birta á þíngum, og rita í þar til gjörðar embættisbækur (afsals- og veðmálabækur); sbr. *Rosenvinges Retshistorie*, Kh. 1832, bls. 193—96. Þíngin voru um þær mundir fyrir sitt leiti álíka fjölmenn í Danmörku og manntalsþíng vor eru nú; það var því hægt fyrir alla, sem vildu, að fullvissa sig um, hvört seljandi eða veðsetjandi áður hefði selt eða veðsett eignir þær, er þeir ætluðu sèr að öðlast nokkurn eignar- eða veðrètt yfir, bæði með því að vera sjálfir á þíngunum, og líka af skírslu þeirri (veðbókarskírslu, *Panteattest*), sem hlutaðeigandi rèttarþjón átti að semja eptir greindum embættisbókum og veita þeim er hennar óskuðu (D. L. 1—8—4 og tilskip. frá 7. Febr. 1738). En þó þíngstaðirnir nú sèu orðnir þunnskipaðri í Danmörku, enn áður voru þeir, ámeðan alþýða jafnvel tók þátt í ríkisstjórninni á þíngunum, og gaf þar ráð sín og atkvæði — enda eru nú eigi heldur skattar goldnir þar á þíngum, og fáir hafa eða gjöra sèr þángað eyrindi í viku hvörri — viðhelzt það samt enn í dag, að álíta þá fasteigna sölu og veðsetníngu (hvört heldur til brúkunar eða ekki) ónóga til að hrinda annarra eignar- eða veðrètti (afsals- eða veðskuldabrèfum) sem ekki á lögboðin hátt er þínglýst (D. L. 5—3—28, 32 og 5—7—7), án þess menn þó, nema stöku sinnum og í einstöku höndlunar viðskiptum og viðlögum, nýti sèr laganna leyfi (í D. L. 5—7—1 til 4. Art.) til að taka handsöln veð í lausum

aurum, og enn síður leyfi þeirra (í D. L. 5—7—6, 8—14) til að veðtaka fasteignir til brúkunar. Menn sjá lánardrottni í hvörugu neina hagsmuni, skuldunautnum þarámóti óhagnað og skaða í að missa við eigin brúkunar og umsjónar enna veðsettu muna eða fasteigna. Kaupandi og veðtakandi hafa nú ekki einúngis nóg sönnunar meðöl, jafnvel sterkari enn áður, fyrir rètti þeirra, heldur og fullvissu, sem þeir höfðu eigi áður, um, að þeir ekki verði eignar- eða veðrèttinum sviptir af öðrum, þegar þeir hafa öðlast hann á sagðan hátt að lögum. En veðrètturinn er þarí innifalinn, að lánardrottinn fær þau umráð yfir veðfènu, í hvörs höndum sem það er sem þurfa til að fullnægja honum fyrir lánsfèð og árs ávöxt þess, en ef veðfèð ekki hrökkur til, þá rètt til verðs þess sem á vantar af öðrum fjármunum skuldunautar, að tiltölu og jöfnuði við skuldaheimtumenn þá, er ekkert veð hafa í eigum hans (D. L. 5—7—2, 9—11, 17 og opið brèf frá 12. Marz 1790). Rèttur sá sem lánardrottinn þannig hefir yfir veðfè sínu, þegar veðskuldabrèfinu er löglega þínglýst, er því fullnógur til að sjá peníngunum borgið — sè veðfèð annars enna lánuðu peninga og ársrentunnar virði — og aungu minni yfir sjálfhalds veði í fasteignum enn yfir brúkunar- eða handseldu veðfè; lánardrottinn þarf ekki, þegar að skuldadögunum kemur, og höfuðstóll eða renta ekki er goldin í eindaga, að standa frammi fyrir skuldunaut sínum til að ná skuld sinni, heldur hefir hann aðgángin að veðfènu sjálfu, og segja því löglærðir menn, að hann allteins og

eigandinn, hafi rètt — ekki yfir skuldunauti sínum, heldur — **yfir** eða í **hlutnum sjálfum** (ítölu, *Ret i Tingen, jus in re)*. Þessa veðrèttar hafa Danir nú þegar að notið um 300 ár, og unað vel við, jafnvel þó stimplaði pappírinn, sem þeim er boðið að rita öll slík skjöl á, olli þeim ærinna penínga útláta (optastnær nokkurra Rdl. til sèrhvörs skjals þess, sem penínga áhrærir eða penínngavirði); en Ísland mun að vonum leingst af, sem híngað til, komast hjá þessu útsvari (tilsk. 3. Dec. 1828, § 30).

Vèr erum nú og loksins orðnir aðnjótendur löggjafar þeirrar, er **gefur oss vissu um enn sama órjúfanlega eignar- og veðrètt**, og **sömu meðöl til að öðlast hann**; í þessu er fólgin hin eiginlega þýðíng og tilgángur þínglýsíngarinnar og til þessa miða boðorð tilskipunarinnar frá 24. Apríl 1833, um: **að** ekki einúngis afsals- og veðskuldabrèfum, heldur og öllum öðrum skjölum, er miða til eigna afhendíngar[1]) eða til að

[1]) Svo sem eru: gjafa- og erfðabrèf, sem áhræra fasteignir; eins ágrip af skiptagjörníngum; leyfisbrèf ekkna til að sitja í óskiptu búi; hjónavígslu skírslur presta, og önnur þvíumlík skilríki, sem í viðlögum gefið geta hlutaðeigendum eignarheimilun fyrir fasteigninni; hvar við þó er athugandi: að erfða- og fjórðúngsgjafa-brèf, **eptir manu dauðan**, geti þau annars álitist að hafa nokkra laga verkun, fyrst koma að haldi þegar arfleiðslumaðurinn eða gjafarinn — hvörjum alltaf er innanhandar að breyta vilja sínum — eru andaðir; og er skjala þessara þínglýsíng þángað til óþörf, eins og þínglýsíngin yfirhöfuð ekki heldur getur bætt úr laga brestum sjálfra skjalanna, ef nokkrir eru.

leggja ískyldu *(Forhæftelse)* nokkurskonar á góz og eignir[1]), svo og sèrhvörju öðru skjali, sem lesið er til að ná einhvörri umkomu yfir eignar umráðum manna[2]), skuli (til að ná fullvissu og rètti mót öðrum útífrá) þínglýsa — til sveita á manntalsþíngunum, en í Reykjavík á enum reglulegu þíngum, er þar eru haldin á viku hvörri; — því skjali, sem viðvíkur afhendíngu eða ískyldu nokkurrar fasteignar með því er henni fylgir, á því þíngi, sem fasteignin á þíngsókn að — en hinu, með hvörju lausir aurar, sem eru í vörzlu eigandans verða veðsettir, ætíð á varnarþíngi veðsetjanda, svo og þeim skjölum sem gjöra einhvörja almenna takmörkun í eignar umráðum manna, (sjá næstu skíríngargrein á undan), hvör skjöl þó einnig ber að lesa á þeim þíngum, í hvörra sóknum hlutaðeigenda fasteignir eru, ef þau annars eiga að geta veikt þær afhendíngar eða veðsetníngar, sem með tilliti til fasteignanna eptirá verða gjörðar, með

[1]) Svo sem eru samníngar um ítök í annars landi, með fleiru þessháttar.

[2]) T. a. m. veðsetníngar alls þess sem skuldunautinum á og eignast mun; skuldbindíngar um að selja ekki eða veðsetja eignir sínar; gjörníngar staðfestir af konúngi, t. d. arfleiðslubrèf og hjónabandssamníngar *(Ægtepagter)* sem takmarka eignar umráð manna; framsal gjaldþrota búa *(Fallissementer)*; kyrrsetníngar; fjárlög *(Udlæg)* og fénáms dómar; sættir og stefnur (um peníngagjald) til æðri rètta; svo og próventubrèf; yfirvalda ályktanir um, að myndugir menn skuli vera ómyndugir *(Umyndighedsdecreter)*; leigu- og byggíngar-brèf, sbr. opið brèf frá 18. Jan. 1788, Kans. umburðarbrèf frá 3. Marz 1804, D. L. 5—1—9, N. L. 3—14—25, tilskip. frá 8. Febr. 1810, § 6 og 25. Nov. 1831, § 1.

löglega þínglýstum skjölum (§§ 1—3); — að lagaverkun ens þínglýsta skjals (þínglýsíngarinnar) skuli byrja og reiknast frá þínglýsíngar deginum, nema það áður sè sýnt sýslumanni, til að geta þess fyrirfram *(antegnes)* í afsals- og veðmálabókinni, og skal fengin áteiknan hans og síðan hvörttveggja lesið á næsta manntalsþíngi; hefir það þá lagakrapt frá þeim degi, er það var sýnt sýslumanninum, og skal vera í fyrirrúmi (hafa forgángsrètt) fyrir öðrum skjölum, sem undireins er þínglýst, en annaðhvört ekki, eða seinna eru sýnd sýslumanni (§ 4)[1]; — að en þínglýstu skjöl

[1]) Það er venja sumra rèttarþjóna vorra, að rita þegar skjöl þau, sem þeim sýnd eru, heil *(in extenso)* í veðmála bókina; en þetta er tómur óþarfi og gjörir ekki nema trubla sjálfa þá. Nóg er, ef þeir tilgreina í bókinni: hvönær og af hvörjum skjalið er þeim sýnt, hvörskonar það sè, hlutaðeigenda fullu nöfn, stand og heimili, nær skjalið sè útgefið og um hvað það sè; skal þá skírlega tilgreind en selda eða veðsetta jörð með kúgyldum, kaupverðið, lánið, renturnar, og *(Prioritets)* veðrètturinn hèrumbil á þessa leið: "Ár 1840, 28. Janr., var Álfur bóndi Skíðason frá Skálholti staddur við afsals- og veðmálabókina, og krafðist, að getið yrði veðskuldabrèfs, sem til hans er útgefið þriðja Decbr. fyrra árs að Spóastöðum í Skálholts sókn, af bóndanum sama staðar Sigvalda Sturlusyni, fyrir 400 Rbd. r. S. sem greiðast eiga að hálfs árs fresti eptir að þeim er sagt lausum af beggja hálfu, mót fyrsta veðmálarètti í (óðals- og) eignarjörðu skuldunautarins, nýnefndum Spóastöðum, 20 hundruðum að dýrleika með 4 kúgyldum, og móti laga ávexti 4 af 100; kveðst Álfur Skíðason ætla að láta þínglýsa brèfi þessu á næsta manntalsþíngi og varnarþíngi jarðarinnar, Vatns-

skuli orðrètt[1]) innfæra í þá af Amtmanni löggyldtu leysu". Sbr. *Coll. Tíd.* 1833, bls. 331—32 og tilskipun frá 3. Decbr. 1833; *Coll. Tíd.* 1834, bls. 81—100, einkum § 9. Orðrètt bókun skjalanna er, eptir orðum tilskipunarinnar frá 24. Apr. 1833 og hlutarins eðli, ekki nauðsynleg fyrr enn þínglýsíngin er um garð gengin, því þá fyrst fá þau fullt rèttargyldi (mót 3 manni), sem bókunin ekki fær þeim veitt, og sem því (að vorum lögum) er gagnslaus án þínglýsíngar. Ekki er það síður öldúngis gagnstædt þínglýsíngarinnar veru, að afmá þau en þínglýstu skjöl í veðmálabókinni, nema þess sè getið á þínginu eða í bókinni, að þau sèu úr gyldi gengin (eða að þeim, sem menn að orði komast, þar sè aflýst), eiga rèttarþjónarnir að rita þetta á skjölin, og þareptir vitna, að þau sèu afmáð úr veðmálabókinni, sbr. N. L. 1—8—4. Þetta nær þó aungauvegin til afsalsbrèfa eða annarra eignarskjala, því þau falla aldrei úr gyldi, hvörsu opt sem eigenda skipti verða, en halda því einmidt upp frá þínglýsíngunni, til verndar eignarrètti ens þáveranda og allra eptirkomandi eigenda; get eg þessa hèr, af því eg einnig hefi sèð þessháttar skjölum aflýst hèr á landi, og afmáð úr veðmálabókinni, allteins og skuldabrèfin; en eg þykist þess fullviss, að embættismönnum þeim, sem falin er á hendur þínglýsíngin, ritun og umsjón afsals- og veðbókanna, sè ná orðið annara um þessa mikilvægu grein embættis þeirra, enn að hèðan af þurfi að gjöra ráð fyrir þvílíkum villum. Ekki þarf heldur að aflýsa skjölum þeim, hvörra þínglýsíngu lögin gefa rèttar gyldi um tiltekin tíma — þessi eru t. a. m.: kyrrsetníngar, fjárlög (*Udlæg*) og fènáms dómar, stefnur til æðri rètta (þar sem ekkert veð er sett) sbr. opið brèf frá 18. Janr. 1788 og Kans. umb. br. frá 3. Marz 1804 — því eptir þann tíma hafa þau, eins og sèrhvör önnur óþínglýst skjöl, einúngis sönnunarkrapt, en aunga (aðra) verkun á eignarumráð hlutaðeigenda eða rètt þriðja manns.

[1]) Að vísu þykir í Danmörku ekki þurfa að rita byggíngarbrèfin í afsals- og veðbrèfabækurnar, til að ná

afsals- og veðmálabók og skuli bera með sèr rèttar þjónsins áteiknun um þínglýsíngu þeirra og bókun[1]), sem og um sèrhvörn þann brest (ef nokkurr er) sem finnast kann á útgefandans heimild til fasteigna þeirra, er með þeim verða afhendtar eða veðsettar, og hvört nokkurt skjal áður sè lesið, sem rýra megi fullgyldi ens þínglýsta skjals (§ 5)[2]); — að rèttarþjónarnir skuli gjöra nákvæm registur yfir öll þínglesin skjöl; þau registur eiga sumpart að vera nafnaskrár í stafrofs röð, þeirra sem af-

óhultum ábúðarrètti festujarðanna, heldur þykir nægilegt, að einúngis ágrip af þeim sè til í þíngbókunum, eins og af öðrum skjölum, sem þínglýst er (Kansellíbrèf frá 1. Octbr. 1811); en þar eru þau líka allstaðar orðrètt skráð í svonefndum festubókum *(Fæsteprotocoller)* festugózanna, hlutaðeigendum til ávísunar og eptirbreytni.

[1]) Fyrir þetta á nð gjalda 24 sk. fyrir hvörja örk, en fyrir lestur skjals hvörs og áteiknun rèttarþjónsins 24 sk., 36 sk., 48 sk., 64 sk., 1 Rbd., 1 Rbd. 32 sk., 2 Rbd., 2 Rbd. 48 sk., eða 3 Rd. r. s. allt eptir því hvörsu miklu skjalið nemur (undir 50, 50—100, 100—200, 200—400, 400—600, 600—1000, 2000—3000 eða þar yfir; Reglug. 10. Septbr. 1830 § 29). Í Danmörku eru bókunarlaunin þriðjúngi meiri, en fyrir þínglýsíngu ymsra skjala enda helfingi eða tveim þriðjúngum meiri, og er þar að auki goldið 20 af hvörju 100 í launanum í aukagjalds sjóðinn *(Justitsfondet)*, en 1 Rbd. af hvörri þúsund Rbd. jarðarverðs þess eða peninga sem taka yfir 3000 Rbd. *(pro mille Gebyhr)*.

[2]) Skirsla um þetta, sem rèttarþjóninn ritar á skjalið, ef þennar þarf, eða ef fullgyldi brestur, kostar hálfu minna enn þínglýsíngin sjálf, þó ekki yfir 64 sk. (Reglug. § 31); í Danmörku ekki yfir 2 Rbd. auk sakagjaldsins *(til Justitsfondet)*.

henða og eignast fasteignir, og hinna hvörra eignarráð takmarkast með ennm þínglýstu skjölum, líka eiga þau að vísa til þeirra staða, hvar sjálf skjölin finnast í bókinni; auk þess skal vera registur yfir sèrhvörja eign, sem afsöluð er eða veðsett, á þann hátt, að tilvísun til allra þeirra skjala sem þínglýst hefir verið um sömu eign finnist á einum stað[1]); en þetta miðar allt til þess, að þeir með nákvæmni geti fullnægt skyldu sinni í tilliti til stjórnar á afsals- og veðmálabókunum, og veitt hvörjum sem hafa vill áreiðanlega skírslu um heimild á fasteignunum, ískyldur þær (ítök, veðsetníngar o. s. frv.) er þeim fylgja, og hvört nokkuð það sè á þíngi birt sem verið geti umráðum eigandans til tálmunar (§ 6)[2]); og loksins — að Amtmennirnir nákvæmlega skuli líta eptir afsals- og veðmálabókunum og registrum þeirra, og annast um, að brestum þeim eða óreglu, sem í þeim finnast, verði afstýrt (§ 7 og 8).

Vèr ættum þannig ekki lengur að vera í efa um, **hvar** eða **hvörnig** þínglýsingin á fram að fara, til hvörs hún miði og hvört rèttar gyldi hennar sè. En því er miður, að vèr naumast ennþá látum

[1]) Veðbókaregistur flestra rèttarþjóna í Danmörku eru og þannig löguð, en þótt þeir enn þá aunga skýlausa laga ákvörðun hafi um það, nema þá sem oss nú er gefin.

[2]) Fyrir skírslu þessa, sem nefnd er veðbókar attest (veðmála seðill?) eru hèr goldnir 48 rbsk., en í Danmörku, auk sakagjaldsins, 1 Rbd. 48 sk., eptir reglugjörð frá 10. Septbr. 1830, sbr. Reglug. 22. Marz 1811, § 78 og 156.

þetta ásannast í verkinu, og er hèr því varla ofaukið þeim uppörfandi og upplýsandi athugasemdum, um þýðíngu og not þínglýsíngarinnar yfirhöfuð, og á afsals- og veðmálabrèfum sèrílagi — sem lögvitríngurinn Stampe heimfærði uppá Ísland árið 1766, útaf fyrr tèðri klögun lögþíngisskrifarans — löndum mínum til enn betri íhugunar um þetta efni:

"Það er hvörttveggja, að boðorð þessi, um að láta þvílíkum brèfum (ɔ: kaupbrèfum og veðmálabrèfum) og skjölum þínglýsa og bóka sèr í lagi, í rauninni hvörki eru skýlaus nè almenn, enda þurfa þau heldur ekki að vera það, þareð sèrhvörr með ljúfu geði sjálfkrafa, og án þess að vera skuldbundinn til þess, breytir eptir þeim, beri hann að eins kennsl á og sjái, hvað til hans eigin sönnu nota og óhultleika útheimtist." — "Not þau eru stór og mikilvæg, sem menn hafa af veðmálabókum hèr á landi; þannig geta 2 menn, seljandi og kaupandi, á hálfri stundu keypt um landeign sem kannske er 100,000 Rd. virði eða meira. Hafi seljandi einúngis útskrift og skírslu úr rèttarbókunum í höndum, getur kaupandi, þegar kaupin eru gjörð, verið fullviss um, að hann nú að lögum og rètti eigi það hann keypt hefir, að ekkert geti aptrað honum frá að gánga að því sem eign sinni, og að einginn fái gjört löglega kröfu um það heilt eða hálft." — "Oss ætti því fremur að vera annt um þetta skipulag, sem það varla nokkurstaðar er á betra fæti enn í þessum ríkjum (Danmörku og Noregi), því í veðmálabókum vorum og registrum þeirra má finna gjörvalla æfisögu allra fasteigna,

að því leiti eignar rètt eða ítölu *(jus in re)* í þeim [1]) snertir" — "Þar má finna hvörr eigandi eignarinnar sè eða hafi verið, hvör eignarskilríki hann fyrir henni hafi, hvört þau gefi tilefni til nokkurrar undantekníngar eða efa, og hvört aðrir eigi nokkurt veð eður aðra ítölu í eigninni. Þeir sem skynja nytsemina af þessu, og hvílíkan óhultleika það veitir manni, að láta þínglýsa eignar- og veðbrèfum sínum, eða öðrum þeim skjölum sem gefa ítölu í fasteignum, og hvílíkan vanhag og vanda sá bakar sèr, sem þetta forsómar, þeir þurfa aungrar áminníngar við, um að láta lýsa brèfum þessum á viðkomanda þíngi og rita í afsals- og veðmálabókina." — "Hefði ekki sú venja verið komin á á Íslandi, að lesa og bóka skjöl þessi í lögþíngisrèttinum, mundi mig ekki furða, þó það ekki gengist þar við, en fyrst það svo lengi (um 30 ár) hefir verið tíðkað, og hlutaðeigendur hafa haft tækifæri til að nema og sjá nytsemi þess og gagn, svo skil eg ógjörla hvörra orsaka vegna það nú aptur geti verið lagt af. Að vísu er það svo, að hin gamla einfeldni og ráðvendni, sem ekki er enn með öllu á flótta rekin úr Íslandi (!), gjörir ekki þvílíka varúð mót svikum og brögðum þar eins nauðsynlega og annarstaðar (?), en það getur jafnvel meðal enna allra einföldustu, já einmidt af tómri einfeldni borið við, að menn selji einum eða veðsetji þann sama hlut, sem þeir áður hafa selt, veðsett eða á annan hátt afsalað til annarra. Sá sem þá verður fyrir skaðanum, lærir þar af að sjá nytsemi þínglýsíngar brèfanna,

---

[1]) Þ. e. ítaks- eða veðrètt.

og að sá staður er til (ɔ: afsalsbrèfa- og veðmálabókin) hvar hlutaðeigendur geta fengið vissu og áreiðanlega ávísun um rètt þann, er aðrir kynnu að hafa öðlast til eignar eða ítölu í hvörri fasteign sem er." — "Þareð tilgángur skipulags þessa ekki heldur er, að auka tekjur rèttarskrifarans, heldur einúngis að hjálpa þeim, sem eignast vilja fasteignir eða veðtaka fyrir lèða peninga, til að öðlast þá upplýsíngu, sem þeir þurfa til að vera óhultir — svo get eg ekki fallist á, að Íslendíngum, eptir kröfu hans (lögþingisskrifarans) og meiníngu Amtmannsins, sè skipað að láta öll þvílík brèf lesa og bóka á lögþínginu, en álít það nóg, að þeim sè bendt til þess, sem þess hlutar, er horfir sjálfum þeim til gagns og nota. Þetta er enda ekki beinlínis fyrirskipað í Danmörku eða Noregi" — "það er hvörjum í sjálfsvaldi, hvört hann lætur veðsetníngarbrèfi sínu þínglýsa eður eigi; forsómi hann það, er honum ekki refsað fyrir, en hann missir þá fullvissu fyrir kröfu sinni, og þann rètt til ens veðsetta hlutar er þínglýsíngin annars hefði veitt honum."

## IV. Hvað nú JARÐAKAUPUNUM og VEÐSETNÍNGUNUM SJÁLFUM viðvíkur,

þá er auðsært af því sem áður er sagt, að tilskip. 24. Apríl 1833 eins hefir verndað eignarrètt voru og veðrètt, og gefið oss öll meðöl til að geta það á sem hægastan og kostnaðarminnstan hátt; það er einnig sannað, að veðsetníngar fasteigna eru, eptir uppruna þeirra og eðli og lögum eldri og nýari tíma, ómissandi til að

nä nokkrum verulegum þjóðarframförum, og að aungu fallvaltara or, að eiga penínga á rentu, mót fasteignaveði, eða veðskuldabrèf (sem kveða á veðmálan þannig, að skuldunauturinn játar á sig lántöku eða skuld, sem hann skuldbindur sig til að gjalda á ákveðin hátt, og leggur fyrir það eign sína í veð, þ. e. gefur lánardrottni sínum veðmálarètt yfir henni) enn að eiga fasteignina sjálfa, eða, að lánardrottinn ekki á meira á hættu, þó hann láni öðrum penínga til að kaupa jörð fyrir, enn þó hann kaupi hana sjálfur. En reynslan sýnir, að peníngamönnunum er enn ekki orðið þetta auðskilið, og að þeir síðan nýnefnd rèttarbót var gefin hvörki eru orðnir jarðakaupunum afhuga, nè fúsari enn áður á að lána penínga sína mót veði og rentu, og hjálpa með því leiguliðunum til að eignast ábýli þeirra; og er eins og vèr í þessu efni ekki gefum neinn gaum að eptirdæmum þeim og uppörfunum, sem vèr höfum beint fyrir augum. — Það var þegar við Skálholts jarða sölnna meðal annars gjört að skilmálum, til að fjölga sjálfseignarbændunum, og styrkja leiguliðana til að eignast ábýli sín: að einúngis sjöttúngur kaupverðs skyldi goldinn þegar við móttöku heimildarbrèfsins, þó ekki fyrr enn að 3 árum liðnum ef landseti keypti, annarr sjöttúngur að 6 ára fresti, en tveir þriðjúngar af kaupverðinu máttu standa ógoldnir í jörðunni, ámeðan löglegum rentum var svarað af þeim — renturnar voru enda gefnar Hóla jarða leiguliðunum eptir um 3 fyrstu árin — þó svo, að sèrhvörr kaupandi, eptir hentugleikum

sínum, gyldi smámsaman nokkuð uppí það sem ógoldið var; að bæði rentur og kaupverð mætti gjalda í gyldum kaupvörum í stað peníuga, ámeðan konúngsverzlun viðhèlzt í landinu; að jarðirnar skyldu seldar með öllum þeim gæðum, eignum og ítökum, sem þeim fylgt höfðu að hefð og lögum, og að þær sem tíundafríar voru skyldu framvegis aungar tíundir gjalda, þó þær þaðan af yrðu bænda eignir; að einginn einn mætti kaupa meira enn hálft annað hundrað hundraða; að leiguliða skyldi unna forkaupsrèttar til ábýlis hans. — Í viðlíkum tilgángi mun það hafa verið áskilið, bæði í þessum skilmálum og eunm seinni, fyrir Hóla jarða sölunni (sem í flestu eru hinum næsta áþekkir): að kúgyldin, sem seld voru, skyldi ekki alíta sem föst innstæðu kúgyldi — að fráteknum kirkjajarða kúgyldunum — og skyldi þeim ekki neyða uppá leiguliða (ef hann keypti ekki sjálfur eða hann seldi síðan jörðina) nema báðum semdi um; svo og, að einginn framar hefði rètt til að heimta mannslán, hestalán, dagsverk, eða aðrar kvaðir af skálholts jörðunum, sem áður höfðu á þeim legið. Það væri ómaksins verdt að komast eptir, hve margir leiguliðar, einkum Skálholts, gátu aðnotið söluskilmála þessara, og keypt býli sín, eptir harðinda árin 1779—1785, en þará sè eg aungan kost; en að kaupendurnir, hvörjir sem voru, ekki hafi verið á hjarni, virðist mèr þaraf í augum uppi, að 57,148 Rbd. í kaupverð og rentur voru þegar goldnir í jarðabókar sjóðin 3. Júlí 1801, enda þó allra færstir öðluðust konúngs samþykki til kaupanna og þessvegna ekki gætu byrjað að borga jarðir

þær, sem þeir áttu kaupboð að, fyrr enn um og eptir 1790[1]. Á líkan hátt eru á 4 fyrstu

[1]) Mér telst annars eptir jarðabókar reikníngunum, að hérum 60,650 Rd. (mestpart kúrant) séu komnir í fjárhirzlu landsins, fyrir Skálholts gózið (að meðtöldum rentum) þángað til 1814, en þaðan af hefi eg ekki fundið neitt goldið þángað, sem eignað er Skálholts stóli. þarámóti hefir Herra Steingrímur Biskup Jónsson, árið 1833, þá Rentukammerið fékk frá Stiptamtinu ávísun um skóla efnanna ástand, ekki reiknað kaupverð Skálholts eigna þeirra sem þá var búið að selja hærra enn á 52,118 Rd. 83⅓ sk.; en í tilliti til mismunar þessa er aðgætandi: að Herra Biskupinn hefir bygt reikníng sinn á alþíngisbókunum frá 1785—1795. Og hefir hann fundið þar, að á þessum árum hafa verið lesin á alþíngi stólsjarða afsalsbréf uppá rúma 41,268 Rd., en að öðru leiti hefir hann bygt á landfógeta sál. Thorgrimsens ávísun um, hvað inn var komið af Skálholts stóls fé síðan 1795. Nú finn eg í landfógeta reikníngum árin 1788—95, að inn séu komnir hérumbil 42,840 Rd. (að meðreiknuðum rentum; en fyrir 1788 get eg ekki séð að neitt sé goldið í téða fjárhirzlu, en hins hefi eg séð nokkur, en þótt fá dæmi, að konúngs kaupmenn hafa, samkvæmt sölu skilmálunum, tekið við nokkrum jarðaverðum fyrir 1788. Þarhjá má gjöra ráð fyrir, að ekki hafi allir svo nákvæmlega uppfyllt þann skilmálan, sem skoraði á, að þegar skyldi láta þínglýsa afsalsbréfunum á alþíngi, að óhult treysta megi, að ekki sé meira borgað um fyrrgreind 10 ár enn þínglýst afsalsbréf finnast fyrir; þetta atriði, ásamt því, að Biskupinn sjálfsagt aungar rentur hefir reiknað meðal fyrrtéðra 41,268 Rd. og heldur ekki, eins og eg, 1,002 Rd. fyrir Papey, virðist mér geti gjört allan muninn, þó hann enda yrði nokkru meiri ef eg hefði getað tekið það með, sem kaupmenn tóku við. Annars hefir Herra Biskupinn frædt mig á, að Skálholts stóll árið 1833 ennþá átti 410

árunum eptir Hóla jarða söluna, þ. e. frá 1. Aug. 1804 til 31. Júlí 1808, eptir reikníngum landfógetans, í einni bendu að kalla, komnir inní sjóð konúngs fyrir Hóla góxið rúmir 37,000 Rd., en ekkert (að mèr virðist) eptir 1821; á öllu þessu tímabili telst mèr vera goldið (ásamt rentum) nærfellt 59,000 Rd.[1]).

Enir svokölluðu ríkismenn vorir eða jarðeigendur í Suðuramtinu hafa nú og um nokkur næst undanfarin ár sèð fyrir sèr konúngsjarða söluna þar, og að konúngur ennþá býður kaupendum

---

hundruð óseld, þaráneðal Bjarnanes umboð, 209 hundruð 80 al., Papeyar og Árness ískyldu, m. m.

¹) Landfógetinn skírði þarámóti frá árið 1833, nð fyrir Hóla góz væri þá að öllu meðtöldu lokið í konúngssjóðin hèr á landi 53,142 Rd. 62 sk. r. S.; en Konferenzráð Engelstoft segir í *Skoleannaler* 1813, bls. 238, að 1808 hafi verið búið að selja af Hóla gózinu fyrir 69,618 Rd. 40 sk. Að landfógetanum og mèr næstum ber á milli um 6000 Rd., ætla eg komi af því, nð hann hefir reiknað allt í ríkisbánka peninga sem inn var komið í fjárhirzluna, eg þarámóti ekki; en enn mikli mismunur sem aptur er á milli reiknings okkar beggja og Engelstofts, er máske nð nokkru leiti eins undir kominn, en þó víst að mestu leiti þannig, að Amtmaður sál. Konferenzráð Thorarensen, sem hafði á hendi stjórn og umsjón Hólastóls sölunnar, ýmist sendi peningana beint til Hafnar, eða til landfógetans, eptir sem á stóð, en einkum mun þetta hafa gjört verið framan af, því Engelstofts egir frá á sama stað bls. 198, sbr. 206) að árið 1803 (einu ári áður enn nokkuð var komið til landfógetans) hafi verið búið að selja fyrir 55,618 Rd.; og er honum hèrum helzt trúandi, þar hann hefir bygt á skírslum Rentukammersins og máske líka Amtmanns Thorarensens.

að halda tveim þriðjúngum af jarðaverðinu ógoldnum, mót veði í jörðunum og 4 af 100 í vöxtu, en lætur sèr nægja að fá þriðjúng andvirðis borgaðan. Væri nú konúngur sá eini jarðeigandi sem þetta væri óhætt, eða nyti hann nokkurs þess rèttar yfir skuldunautum sínum, sem aðrir lánardrottnar ekki hafa, þá væri það ekki svo mikið tiltökumál, þó menn ennþá hikuðu við að taka þetta eptir; en hann hefir aungan annan nè meiri rètt yfir sínum skuldunaut, enn sèrhvörr annarr lánardrottinn. Tilskip. frá 13. Júní 1787, Kap. 2, § 19, áleit — eins og alltjafnt og enda áður, við Skálholts jarða sölnna, hefir verið álitið — ómyndugum og stiptunum landsins óhætt, að veðtaka sèrhvörja fasteign fyrir tveim þriðjúngum verðs hennar, hvað þá ekki öðrum, sem hafa ölla betra tækifæri enn umsjónarmenn stiptananna, til að gefa nægilegar gætur að rækt og umhirðíngu jarðarinnar eða veðfjárins. Þetta er sèrílagi konúnginum með öllu ómögulegt, og með því hefir eiginn hans vegna neina tilsjón, en hann lætur sèr nægja, ef rentan er goldin í rèttan gjalddaga inní fjárhirzlu landsins. Ekki hefir hann heldur látið aptra sèr frá, að gefa þessi kjör, þó að jarðaverðið á Íslandi um þessar mundir sè stigið svo hátt, að sýnast mætti að því muni veita hægra að falla enn að stíga ennþá hærra; því hann gjörir sèr hinsvegar þá von, að jarðirnar, með betri rækt og hirðusemi eigandans, geti ekki eptirleiðis orðið eins fallvölt eign eða ávaxtarstofn í höndum ábúanda og áður, (ámeðan þær voru í hans eign), þó ekki láti sem bezt í ári, eða þó önnur óhöpp kynnu að

henda skuldunautana. — Hann hefir sèð í Danmörku ríkan ávöxt margra og mikilla tilrauna til að stoða bændur, svo að sem flestir mættu eignast ábýli sín, og að stórjarða eigendur í Danmörku, sem gefið hafa leiguliðum sínum eignar umráð yfir festujörðunum, aldrei hafa iðrast þess. Hann vildi því ekki láta Ísland fara varhluta af gæðum þeim, almennings velgengni og framförum, sem leiða af sjálfseignar brúkuninni, og áskilur einnig þess vegna leiguliðunum rètt til, að gánga að hæsta boði sem gjört er í ábýlisjarðir þeirra. Þetta er að vísu einginn nýfenginn rèttur leiguliða vorra: Þeir hafa, í þessu skyni, haft hann að lögum síðan konúngsbrèfið frá 22. Decbr. 1797 tók af allan efa, og lögleiddi hèr tilskipunina frá 18. Júní 1723, sem hýður: "að leiguliðar (í Noregi) skuli vera næstir til að kaupa jarðir þær, sem þeir hafa til bygginar og lífsfestu [1]), og að landsdrottinn skuli

[1]) Tilskipun frá 15. Maji 1705 § 6 býður einnig, eins og greint konúngsbrèf (frá 1797) gjörir ráð fyrír, að leiguliðum hèr á landi sèu bygðar jarðir æfilángt, eða, hvað eð kemur í sama stað niður, að þeir skuli njóta löglega fengins ábúðarrèttar, ámeðan þeir standa í öllum lögskilum; með þessu boði virðist að landslh. 1. Kap., að því leiti láuardrottni þar er leyft að byggja jörð sína árlángt, sè úr gyldi felldur. Sbr. Amtmanns og Riddara Thorsteinsons ritgjörð: *Om det islandske Afgiftsvæsen*, bls. 141—42. Þar sem þetta er ekki tíðkað, er landsdrottinn sekur í laga yfirtroðslu, sem aldrei fær fríað hann frá, að láta landsetan njóta forkaupsrèttar síns. Að öðru leiti misskilja menn sumstaðar þenna rètt leiguliða, og halda sèr beri hann eins þegar jörðin er seld á uppboðsþíngi, þó ekki bjóði þeir í hana við upp-

bjóða þeim fyrstum og unna þeim kaups á jörðunum, fyrir það verð er sèrhvörr annarr býður." Við yfirtroðslu þessa boðorðs var lagt uppnám kaupverðsins hjá seljanda eða kaupanda, einum fyrir báða og báðum fyrir einn, og á sá helfíng sem kemur kaupunum upp, en helfíng á fjárhirzla konúngs, (tilskipun frá 25. Febr. 1733). Landsdrottnar vorir hafa annaðhvört ekki þekt þessa skyldu þeirra, eða ekki gætt hennar, og komist hjá viðlögðu fjártjóni annaðhvört af því, að leiguliði ekki hefir haft þrek til að heimta rètt sinn, eða hann í þann svipin ekki hefir getað goldið allt jarðarverðið, og aungrar aðstoðar til þess vænt, ámeðan peníngalán og veðsetníngar voru að kalla ókunnar í landinu, og öllum þókti peníngunum bezt varið til jarðakaupanna — og á þessu steitir fjölgun sjálfseignar bænda vorra ennþá, og um leið, að ætlun minni, velgengni lands vors og landsbúa. Konúngurinn er enn sá eini, og hefir ætíð verið einn um að styðja leiguliðana til að eignast ábýli þeirra, og eru þó færstir, því miður, svo djarfhuga, að þeir vogi að leggja út í jarða kaupin nema þeir hafi allt jarðarverðið fyrir-

boðið; en til þessa eru eingin rök: seljandi þarf einúngis að taka fram í uppboðs skilmálunum, að leiguliði (sem fyrifram er gjörður varr við uppboðið) fái gengið að hæsta boði hvörju, sem gjört verður, þángað til hamarshögg er lostið, þ. e. hann þarf aldrei að bjóða yfir; þetta var skilmerkilegast tekið fram í sölu skilmálunum á Skálholts jörðunum (§ 3, No. 13), laungu áður enn konúngsbrèfið kom út.

liggjandi, eins og lands venja er til[1]). Sá sem er peníngaláns þurfi, og hinn sem lánað getur, munu og sem optast báðir gefa nokkra orsök til, að peníngalán og veðsetníngar hèr eru svo sjaldgæfar. Það lendir á báðar síður við ena gömlu vanaþögn, að þessi geti lánað eða hinn vanhagi um peníngalán mót veði í jörðu sinni, og þessa þögn slítur hvörigur, en allrasízt peníngamaðurinn, sem af ótta fyrir þjófum og ræníngjum, gamallar venju og jarðakaupa hugans vegna, heldur öllum í óvissu um og leggur dulur á peníngafaung sín. Hèr kaupir því einginn eða allfærstir, sem eru uppá annarra lið komnir, nè heldur selja, nema í ýtrustu nauðir reki, og er þá eins furðanlegt og í sjálfu sèr gleðilegt að sjá, að þjóðjarðir þær, sem á seinni árunum hafa verið seldar í Suðuramtinu geta með þessum lands sið komið í svo margra hendur, og að sèrílagi svo margir leiguliðar hafa getað notið forkaupsrèttar síns á jörðunum. Einkum er það gleði efni að finna svo marga leiguliða í enum snauðu Gullbríngu og Kjósar sýslum færa um að kaupa ábúðar-

[1]) Eg læt mèr nægja, auk annarra röksemda, að færa hèr til eitt af enum nýustu dæmum: það er ekki lengra enn síðan í sumar er var, að leiguliði dó á Þórisstöðum í Ølvesi, Vigfús að nafni, eptir hann fundu menn 500 Rbd. r. S. og þar að auki nógan fènað og töluverðar heyfyrníngar, eins og hjá bezta bónda. Hve lengi hann hefir verið að safna fjárstofni þessum veit einginn, en ekki var honum ennþá orðið að vegi að kaupa ábújörð sína (31 hundruð að dýrleika); enda er ekki sagt, að hún hafi verið gefin hönum föl, eða að hann hefði fengið lán fyrir því sem á brast verðið, þó nokkuð hefði á brostið og hann hefði falast eptir láninu.

jarðir sínar, að 40 af 70 konúngsjörðum[1]), sem þar hafa verið seldar með innstæðu kúgyldum um 12 seinast liðin ár, frá 1827—1839, en þó að mestu á árunum 1835—1839, eru orðnar eign ábúendanna[2]), og að verð allra þessara 70 jarða, samtals 36,188 Rbd., var lokið 31. Júlí 1839, að undanteknum einum 11,232 Rbd., sem þá stóðu eptir ógoldnir, (þar af voru 2591 Rbd. andvirði 4ra konúngsjarða, sem seldar voru um nýár 1839, svo konúngs samþykki kom híngað fyrst um vorið næst á eptir); af eptirstöðvunum var enn goldið fyrir 31. Janúar 1840 1897 Rbd. 32 sk., og er þó athugandi: að skuld þessi var ekki eldri, enn frá reikníngsskapar árinu milli 1. Ágúst 1837 og 31. Júlí 1838, á hvörjum tíma 13,497 Rbd. 67 sk. komu inn í fjárhirzluna fyrir konúngsjarðir, að mestum hluta úr greindum sýslum. Á 5 seinast liðnum árum hafa í Skaptafells sýslu verið seldar 13 konúngsjarðir með kúgyldum, fyrir 5943 Rbd., og 8 leiguliðar orðið við það sjálfseignar hændur, auk enna svo kölluðu "Austfjarðajarða og Hengi gózins" í Austurskaptafells sýslu, er selt var fyrir 2284 Rbd. Þessir 8227 Rbd. samtals eru eigi að síður alborgaðir að kalla inní jarðabókar sjóðin, og náðu þó ekki kaupendur konúngs samþykki fyrr enn í sumar er var að 3 jörðum, sem gengu til 1434

[1]) Af þessum 70 voru 5 eyði jarðir, og eru nokkrar af þeim þegar bygðar á ný, eptir að kaupendurnir höfðu tekið við.

[2]) 4. Janr. 1840 voru hér að auki uppboðnar 2 konúngsjarðir í téðum sýslum, og urðu ábúendurnir hæstbjóðandi að báðum, fyrir 1310 Rbd. samtals.

Rbdala. Eins eru þær 6 konúngsjarðir með kúgyldum, sem 1836 voru seldar í Árness sýslu þannig, að 4 eru komnar í eigu ábúendanna, allar borgaðar útí hönd með 4652 Rbd. að samtöldu. Þegar nú hèr við er bætt:

verði tveggja eyðijarða í Rángárvalla sýslu, 70 Rbd.,
einnar eyði jarðar í Borgarfirði . . . 42 —
tveggja eyði jarða og tveggja annarra
jarða í Vesturamtinu . . . . . 862 —[1]),
og þriggja jarða í Suður-Múla sýslu,
og einnar eyði jarðar þíngeyra klausturs, samtals . . . . . . . . . 2334 —[2]);

þá höfum vèr alls 52,375 Rbd. r. S., sem runnir eru inní konúngs sjóðin um þau 12 reikníngskapar árin frá 1. Aug. 1827 til 31. Júlí 1839 fyrir eintómt jarðagóz; af þeim var 37,814 Rbd. r. S. lokið 31. Júlí 1839, en af eptirstöðvunum (14,561 Rbd.) var þegar 31. Janúar 1840 búið að borga 3331 Rbd., svo að einúngis 11,230 Rbd. stóðu þá óborgaðir á vöxtum hjá kaupendunum. Það er einnig næsta merkilegt, að konúngsjarða salan í Gullbríngu-, Kjósar-, Árness- og Skaptafells-Sýslum eiginlega ekki hófst (að nýu) fyrr enn 1835, og að einúngis 2980 Rbd. 15 sk. af greindum 52,375 Rbd., voru borgaðir í landsfjárhirzluna fyrir 1. Aug. 1835. Það lítur því svo út, sem hörðu áranna 1833—35 hafi hvörgi gætt á Suðurlandi, svo að penínga ekla yrði, heldur enn hallæris áranna, sem gengu

[1]) Hèr að auki voru komnir frá Vesturamtinu 31. Janr. 1840 178 Rbd. 82 sk. fyrir eina hálflendu af Arnarstapa umboði.

[2]) 31. Janr. 1840 var búið að bæta við 564 Rbd., fyrir eina jörð þíngeyra klausturs.

á undan Skálholts jarða sölunni, og er svo fljótt og talsverdt peníngagjald, þegar þannig á stendur, einhvörr enn áreiðanlegasti vottur þess, að hèr á landi sèu enn nokkur peníngaráð[1]), og undireins þess, að mikill hluti landseta gæti keypt ábýli sín, ef þeir ættu kost á, og hefðu nokkra aðstoð peníngamannanna til þess.

Varla ferr hjá því, að þeir sem orðnir eru eigendur konúngsjarða þessara, eins og stólsjarða kaupendurnir áður, hvört heldur það eru landsetarnir sjálfir, eða aðrir, hafi að mestu goldið andvirðið af eigin ramleik; því það er ósklljanlegt, að þeir taki peníngalán af öðrum til þess, (enda bera afsals- og veðmálabækurnar í Kjósar og Gullbríngu Sýslu naumast vitni um það), þegar þeir eiga kost

[1]) Ekki er það að sönnu ólíklegt, að harðinda árin 1833—35, viðlíkt og hallæris árin 1779—1785, hafi gjört einstökn mönnum hægra fyrir að kaupa jarðir, því þá hækkaði allur bústofn mjög svo í verði, og kvikfè fjölgaði því meir sem færra var eptir ófallið. (Þetta hefir Hannes biskup skilmerkilegast leidt í ljós að jafnan leiði af hallærum, í ritgjörðinni "um mannfækkun af hallærum á Íslandi" í Fèlngsr. XIV. bls. 192—94, 209 og 211). En bæði er það, að peníngar þeir, sem áskotnast hafa þeim er selt gátu fènað eptir hallærið, hafa áður verið í eign þeirra sem fènaðin mistu og keyptu síðan; enda hækkuðu ekki landvörur þær sem eru eiginlegar kaupstaðar vörur í verði um seinustu harðinda árin, svo nærri má geta, að margir hafi orðið að grípa til peninga sinna, til að kaupa fyrir kaupstaðarvörur þegar landvörur vantaði. Það er og auðsært, að þeir einir geta grædt á kvikfènaði eptir harðinda árin, sem geta fært hann fram á meðan þau standa, og að heyaflinn einn, eða stofn hans jarðarræktin, og ekkert annað, veita þennan gróða.

á að láta tvo þriðjúnga jarðarverðsins ógoldna, hvörsu lengi sem vera skal, og eru þó jafnfullkomnir eigendur hvört þeir gjalda konúnginum allt jarðarverðið eða einúngis þriðjúng þess, og hvört hann eða aðrir eru lánardrottnar þeirra. Veðskuldabrèfin eru honum og hvörjum öðrum seljanda eins góð borgun fyrir tvo þriðjúngana eins og sjálfir peníngarnir, en kaupanda öllu haganlegra að mega njóta peníngaláns þess, sem hann smámsaman eptir hentugleikum og efnanna ásigkomulagi hefir í sjálfsvaldi að borga eða ekki borga, enn þess, sem honum kynni að vera falt hjá öðrum einúngis meðan lánardrottinn sjálfur fær peníngauna án verið; enda er það all álitlegur kostur við peníuga lán þetta fremur öðrum, að konúngur aungan uppsagnarfrest áskilur sèr af skuldunautunum (kaupendunum), en lætur þá öldúngis sjálfráða hvört og hve mikið þeir vilja borga inní fjárhirzluna 11. Júní árs hvörs, án nokkurrar fyrirfarandi aðvörunar af þeirra hálfu. Það eru allstaðar annarstaðar haldin einhvör hin mestu hlynnindi við hvörja fasteign — og þetta munu þeir merkismenn, sem fyrr var getið að tóku þjóðpeníngalán hjá biskupunum, Finni og Hannesi, hafa tekið til greina — ef á henni er veðmáli fyrir þjóðpeninga láni, sem ekki þarf að óttast uppsögn á nè kröfu um lúkníngu þess af hendi lánardrottins (þjóðstiptunarinnar), og standa þvílíkar fasteignir einmidt þessa vegna, jafnan í hærra verði enn aðrar, er annaðhvört aungir eða óvaranlegri lánspeníngar standa veðfastir í. Þóað nú kaupandi væri svo heppinn, að hann í bráð gæti fengið jafnvel leigulaust

peninga lán hjá einhvörjum einka vini sínum eða náúnga, þá er það þó ekki nema stundar friður. Það er sjálfsagt að skyldmenni og aldavinir hjálpa opt hvörr öðrum á þessa lund; en einginn lánar vandalausum til lengdar peninga sína með þessum kjörum ef nokkurr kostur er á að hafa gagn af þeim, annaðhvört á þann hátt sem hèr tíðkast, með jarðakaupum, eða með óhultu láni mót lagavöxtum, eða á annan veg. Eg get því ekki ímyndað mèr að neinn sá, sem ekki hefir efni til að borga þann hluta jarðarverðsins þegar, sem ekki er áskilið að gjalda skuli, taki til þess peníngalán af öðrum, enda má eg játa, að eg hefi aldrei þekt betri og haganlegri skilmála á kaupum nè láni, enn þá sem konúngur gefur jarðakaupendum á Íslandi, bæði nú og fyrri, ekki sízt við sölu stóla gózanna[1]).

Þetta sem nú hefir verið sagt um stólsgóza og konúngsjarða söluna á seinni árum rekur oss þannig úr skugga um, að svo fáir sem aungir kaupa hèr jarðir, nema þeir sem geta borgað þær útí hönd, eða bráðum losað sig við allt jarðarverðið, hvört heldur það eru landsetar eður aðrir, sem kaupa. Það er svo lángt frá, að jarðeigendurnir eða efnamennirnir ennþá hafi fært sèr í nyt eptir-

[1]) Þetta sá Hannes Biskup, og var hann því ávallt fremstur í flokki til að brýna það fyri leiguliðunum og eggja þá á að bjóða í ábýli sín, ámeðan svo góður kostur var á; og hefi eg það eptir sannfróðum manni, að hann hafi stundum átt fullt í fángi að koma þeim á það, því einginn þóttist geta ráðist í kaupið, nema hann ætti sjálfur nóg fyrir jarðarverðinu.

dæmi það, sem konúngur hefir gefið þeim um jarða-sölu og peníngalán, að í stað þess að fækka jörðum sínum og gefa landsetunum kost á að kaupa þær, eða hjálpa þeim konúngslandsetum sem þess við þurfa, með peníngastyrk, bjóða þeir í kapp við þá í jarðirnar, þángaðtil svo er komið, að þeir hafa ekki nema helmíngs arð af peníngum sínum, mót vöxtum þeim, sem þeir gætu gefið í landsetanna eða kaupendanna höndum. Samt vil eg aungum álasa, þó hann kaupi, og kaupi dýrt, þjóðjarðirnar — ef jarðar ábúandinn eða aðrir ábýlisþurfandi dugnaðarmenn ekki bjóða, því það verður þó seint eða snemma landinu til lukku og blessunar, að það á sig sjálft, og ekki get eg kviðið því, að landar mínir haldi áfram í þánkaleysi að verja peníngunum einúngis til jarðakaupa, þegar þeir loksins eru búnir að koma því fyrir sig, að þeir verða þeim öllu arðminni með því mótinu enn hinu, að lána þá út mót veði og lagarentu, og ekki get eg verið í efa um, að samsinna Eggers barúni í því: að það sè ein af aðal orsökunum til hnignunar landbúnaðarins, að færstar jarðir á landinu eru eign þeirra er á þeim búa(Eggers *Schilderung von Island*, bls. 111.). Eg hefi að sönnu hvörgi sèð þessa meiníngu eins hiklaust framsetta af þeim, sem gefið hafa ráð til viðreisnar landinu, enda hefi eg í ritdómi þeim *(Lærde Efterretninger for 1786*, bls. 421) um tèða bók, sem haldið er að Jón Eiríksson Konferenzráð hafi samið, ef ekki einnig átt þátt í ritinu sjálfu (sjá æfisögu hans bls. 94 og 122), fundið á móti haft: að það muni eigi svo

mjög olla ólestri landbúnaðarins, að færstir bændur sitja hèr á sjálfseign, sem hitt, að jarðirnar eru ekki í raun og veru bygðar landsetum æfilángt; en eins og áður er ávikið (í 2rum þættinum), voru til þess eðlilegar og gyldar orsakir, að landar vorir ekki lètu fyrri þenna þánka uppskáan, þó þeim hefði búið hann í brjósti, og skyldu tilfinníng gat komið Jóni Eiríkssyni til, að vera ekki Eggers í þessu með öllu samdóma. Þó eg þannig sèrílagi hafi útlendan rithöfund fyrir mig að bera, fær það ekki veikt trú mína og sannfæríngu þó Jón Eiríksson lèti annan þánka í ljósi 1786, og því síður, sem tíminn þá enn ekki var kominn til að geta orðið sannfærður um hið sama, fyri þann, sem leit á gagn konúngsins og þjóðstiptananna, og tèður rithöfundur (sem einúngis hafði landsins gagn fyrir augum) var upplýstari og landsins þörfum nákunnugur[1]).

[1]) Um þetta ber ekki einúngis það rit hans, sem hèr var nefnt og önnur ritsmíði Íslandi viðvíkjandi, ljóst vitni, heldur og áreiðanlegir dómar enna djúpsærustu og vitrustu landa vorra um rit það: Hannes Biskup Finnsson kallar það "fróðleiks-skrif" og styður sig opt við það meiníngum sínum til sönnunar (meðal annars þeirri: að Ísland sè góðvænlegt land ef vel væri á haldið) um leið og hann hælir rithöfundinum, sem "hálærðum" og "vitrasta manni" (í ritgjörðinni um mannfækkun af hallærum á Íslandi í Fèlagsr. XIV. bls. 138—39, 158, 160, 178—79 o. v.), allteins og Konferenzráð M. sál. Stephensen (í hans *Forsvar for Islands Övrighed*, bls. 63, og víða í *Island i det 18. Aarhundrede)*. Hafi sami Eggers, eins og til er getið (í æfisögu Jóns Eiríkssonar, bls. 60) tekið saman fríhöndlunar tilskipunina frá 13. Júní 1787, þá er hún eins órækur vottur þess, að manninum var fullkunnugt

Annars er útlit og ábúð konúngs- og þjóðjarða þeirra, sem bygðar eru æfiláugt, bezt til sanninda merkis um, að æfifesta sè aunganvegin kröptugasta meðal til viðreisnar landbúnaðinum, og eg má hèr aptur taka mèr Eggers orð (bls. 112) í munn: "leiguliði hefir aldrei (enda þó hann leigi jörðina æfilángt) sömu hvöt til, nè sömu gagnsmuni af, að hugsa um endurbót, eða jafnvel viðurhald ábúðarjarðar sinnar, einsog sá sem veit, að hún, þegar hans missir við, fellur í skaut náúnga hans; þetta er orsökin til klagana þeirra sem jafnan gánga, um niðurnýðslu jarða og eyðileggíngu, gjöri eitthvört óhappið leiguliðunum jörðina arðminni, þó ekki sè meira enn hann mundi fá afstýrt, ef hann sjálfur ætti hana." En í því meiga allir samsinna Jóni Eiríkssyni, að eigineignar útbreiðslu geti ekki orðið framgengt hèr, nema meðölin til þess sèu í landinu,

um ástand landsins; því "með öllu því uppgángsveðri, sem hún inniheldur", er hún sú fróðlegasta af öllum tilskipunum landsins sem eg þekki. Konferenzráð sál. M. Stephensen var án efa einnig kominn á trú Eggers, þegar hann 1806 ritaði Eptirmæli sín, því þar (bls. 630) telur hann það eingaungu sem Kristján Greifi Reventlow lagði til, að útvega búendum eignarrètt á ábýlum þeirra með sölu biskupsstólanna, nóg efni í ódauðlega heiðursminníngu þessa göfugmennis hjá eykonunni Íslandi (sbr. *Chr. D. Reventlows Virksomhed som Kongens Embedsmand og Statens Borger, af A. F. Bergsöe*, Kh. 1837, 2. D., bls. 226). Það er og að sjá af undirbúnings atkvæði (*Præliminærvoto*) Jóns Eiríkssonar, um Skálholts jarða söluna (í æfisögu hans bls. 161), að honum sveið það sárast, ef aðrir enn ábúendurnir, sem öll líkindi voru til, yrðu eigendur að jörðunum.

eða í bændanna höndum, en meðalið er einúngis eitt — peníngar; og er það þess vegna, að eg með Eggers (bls. 284, sbr. bls. 84) álít peníngalán og veðsetníngar ómflýanlega nauðsynlegar til að koma landbúnaðinum og undireins landinu upp aptur.

Eg veit þess dæmi, að hyggnustu og ráðsettustu jarðeigandi menn, sem unna föðurlandinu alls góðs, hafa boðið í og keypt konúngsjarðirnar svo dýru verði, að rètt eptirgjald á 4 seinustu árunum, þó allur kvikfènaður (landskuldareyrir) og smjör (leigur) nú sè svo hafið í verði sem allir vita, hefir varla hýmt í tveim þriðjúngum lagarentu af jarðar verðinu. Þetta og þvíumlíkt get eg eigi annað enn láð löndum mínum, því með þessu eru þeir bæði sjálfum sèr til ógagns, og þeim af landsetunum til ama, sem annars gætu átt kost á að kaupa býli sín, máske þolanlegra verði, ef peníngamennirnir vildu lána þeim peníuga til kaupanna, og sjá í því sinn og annarra hag, í stað þess að brúka þá svona í beggja, já allra (eða föðurlandsins) vanhag. Það er yfirhöfuð viðtekin regla (þar sem konúngsjarða salan nú aptur er komin á) að selja konúngsjarðirnar, ef það sem boðið er í jörðina gefur eins mikin eða meiri laga ávöxt, enn jörðin áður gaf með eptirgjaldinu að öllu samantöldu. Jafnvel þó eg nú ekki sjái færi á, að uppgötva jafnaðar eptirgjald eptir áðurtèðar 70 konúngsjarðir í Gullbríngu og Kjósar sýslum, má samt af hundraðatali þeirra, landslögum og venju[1]) ráða, að

[1]) Eg gjöri ráð fyrir, að hvör 5 jarðar hundruð, með einu kúgyldi, eptir gamalli landsvenju og lögum, gefi

flestar þær eða allar eru seldar meira verði, enn ávexti þeirra eða eptirgjaldi sambýður, og er það öllu fremur fjárhirzlu konúngsins til hagnaðar og ábata enn ríkismönnum vorum til lofs eða dýrðar: að þær, flestar lèlega á sig komnar og niðurnýddar, til samans 1131 hundruð 64 áln. að dýrleika, ásamt kúgyldunum, eru að jöfnuði seldar fyrir næstum 16 Spesíur hundraðið[1]; að 6 konúngsjarðir í

50 álnir í landskuld og leigur, og að 1 spesía sè tekin uppí 20 álnir, eða að 5 Rbd. (ɔ: rentan af 125 Rbd. r. S.) sèu goldnir eptir hvör 5 jarðarhundruð með kúgyldum; ætti þá sèrhvört jarðar hundrað ekki að kosta yfir 25 Rbd., ef lagarentan ætti að koma fram af eptirgjaldinu (sbr. tilskip. 14. Maji 1834, § 1; Amtmanns Riddara Thorsteinsens ritgjörð: *om det islandske Afgiftsvæsen*, bls. 152 og Búnaðarritið 1. B. 1. D., bls. 159—61 og 163).

[1]) Við jafnaðarreikníng þenna er annars athugaverdt: að hundraðatalan er tekin úr jarðabókinni frá 1760, en hún er þar á mörgum jörðum hærri enn nú er reiknað til tíundargreiðslu o. s. frv.; að 5 eyði jarðir, sem sjálfsagt hafa verið seldar næsta litlu verði, fylla einnig hundraða töluna; að enar lèlegustu og verst setnu konúngsjarðir (eins og þær flestar eru í Gullbríngu og Kjósarsýslum og víðar til sjáfar) eru helzt hafðar á boðstólum, nema að því leiti, að kaupendur fyrifram bjóðast að þeim enum betri, og að flestar þessara 70 jarða því eru orðnar dýrari enn 16 Spesíur hundraðið. Uppboð það *(auction)* sem gjört var um nýár 1839 á fyrr nefndum 4 konúngsjörðum (63 hundruðum 40 áln. að dýrleika) er einnig ljós vottur þessa, því þá gáfu menn að jöfnuði nærfellt 21 Spesíu fyrir hundraðið, og önnur jörðin, sem seld var 4. Jan. 1840 (Mölshús á Álptanesi, 8 hundruð 40 áln. að dýrleika, og eingin hnossgætisjörð) með 1 kúgyldi, hljóp í 610 Rbd. eða rúmar 38 Spes. fyrir hundraðið; og ætla eg að fleirum enn konúngi einum muni geta skilist, að það sè

Árness sýslu með kúgyldum og 134 hundruð samtals að dýrleika, eru seldar hèrumbil á 17½ Spesíu hundraðið, og að konúngurinn nú, af andvirði þessara jarða (4,652 Rbd. 22 sk.) hefir liðuga 186 Rbd. í árs rentu, þar sem hann áður, eptir 5 seinustu reikníngskapar áranna meðal upphæð, einúngis hafði 84 Rbd. á ári eptir þær, og mun líku gegna með konúngsjarðirnar í Skaptafellssýslu. Þó er Thorchillii barnaskóla jarðagóz einna bezt selt, því af þeim 11 jörðum og jarðar pörtum, sem skóli þessi átti í Borgarfjarðar, Skagafjarðar, Gullbríngu og Rangárvalla-sýslum, eru 10 með tilheyrandi kúgyldum (nema 1 sem var í eyði) seldar síðan 1836, samtals 128 hundruð að dýrleika fyrir 4914 Rbd., það er — næstum 19¼ Spesíu hvört hundrað; hefir skóli þessi grædt við það liðuga 101½ Rbd. á ári, því lagavöxtur penínganna er 196 Rbd. 56 sk. r. S., en árs ágóðinn af jörðunum samtals að eins 95 Rbd., eptir 5 ára jafnaðar reikníngi rètt á undan. Að vísu er við allar þessar jarðir aðgætandi, að sjöttúngur eptirgjaldsins áður ekki fèll í landsdrottins sjóð, heldur í umboðsmannsins (Administrators), sem embættis- eða umboðslaun, og að ráðstöfun og sala eptirgjaldsins af þessháttar jörðum ekki fer ávallt sem skyldi, og verður stundum öðrum arðmeiri enn landsdrottni sjálfum; en með hvörugu móti verður þó eptirgjaldið hækkað svo, að það í annarra höndum geti náð peníngarentunni, eptir sem nú á stendur, því síður sem kaupandi, eins og síðar skal sýnt, kostar

ekki sjónarvilla tóm, að þannig muni betur selt enn óselt (fyrir aðra enn ábúandan) þegar kaupverðinu verður komið á lagarentu.

meiru enn kaupverðinn einn til jarðakaupanna eða eignanna í bráð og lengd, og hann hvörki fær mannslán nè hríshesta, sem konúngi er goldið af jörðum hans í Gullbríngu og Kjósar sýslum. Það kynni nú að sýnast eptir þessu, sem einúngis seljanda væri hagur í, að jarðirnar kæmu í hendur leiguliðum með aðstoð veðsetnínganna, þareð rentugjald kaupverðsins þannig nemur meiru enn eptirgjald (konúngs) jarðanna; en þessu svara eg (einsog síðar skal á vikið): að jarðarræktin mun, ekki einúngis geta gefið lánardrottni, heldur og skuldunautinum (eigandanum) þann ávöxt af jörðinni, að hann að minnsta kosti ekki eigi óhægra með að svara rentum kaupverðsins, enn eptirgjaldinu áður, enda þó það væri nokkru eða tölnverdt minna.

Eptir að vèr þannig, eins og nú var færi á, höfum kynnt oss peníngabrúkun vora yfirhöfuð á fyrri og seinni tímum, yfirlitið eptirdæmi það og uppörfanir til veðsetnínganna, sem þjóðjarða salan og sölu skilmálarnir á svo margan hátt gefa, og kríngumstæður þær, sem yfirhöfuð virðast að ráða öðrum enn ábúendunum sjálfum frá að verja peníngum til jarðakaupa, er að því komið, að vèr nokkru nákvæmar vegum

## V. ENAR LÍKLEGUSTU ÁSTÆÐUR OG RÖKSEMDIR TIL TREGÐU ÍSLENDÍNGA Á AÐ SETJA PENÍNGA SÍNA Á RENTU, EÐA VERJA ÞEIM TIL ANNARS ENN JARÐAKAUPA:

Þeir eru allfærstir, sem gjöra sèr eða öðrum nokkra grein fyrir þessu, eða nokkuð hugsa um,

að brúka peníngana öðruvísi enn allt af hefir verið siður í landi voru og þeir hafa vanist: "svona gjörðu forfeður vorir, afar og lángafar, og þenna sið höfum vèr ennþá daglega fyrir augum", segja þeir. Það er því kallað brall og brjál, að breyta af gömlum landssið og aðhyllast útlendan varníng; en það væri óskandi, að röksemd þessi sýndi sig í verkinu þar sem hún á betur við: að vèr ekki girntumst svo mjög útlendan varníng í orðsins eiginlegri þýðíngu, útlenzk klæði, allrahanda óþarfa glíngur og svokölluð sælgæti, er kaupmennirnir, sem von er, aldrei gleyma að bera á borð fyrir oss, ámeðan vèr gaungum á ætið, þó ekki sè það annað enn banvænt agn fyrir búnaðar- og lifnaðarháttu vora, er vèr vegna þess afrækjum jarðar ávexti lands vors, afla- og atvinnuvegi, en seljum matvæli vor, — ullu, skinnavörur og annað er vèr gætum hagnýtt oss til fæðis, fata og annars hagræðis, — fyrir vín og brennivín, kaffe, tegras, sikur, tóbak, útlenzk klæði, húfur *(kasket)*, stígvèl og skó m. fl., svo að útlenzkt snið og keimur sè að öllu frá hvirfli til ilja[1]) og svo að enir útlendu

[1]) Þannig er það til dæmis, einkum í og í nánd við verzlunar staðina og sèrílagi í Reikjavík, orðið "hæst móðins," að hvör stelpan, sem til þess sèr nokkra útvegu, sumar sem vetur beri útlenzk svokölluð sjöl *(Schawler)* á herðunum eða yfir höfðinu, sem kosta 2, 4, 6 og 8 Rbd. silfurs. Af varníngi þessum flytja kaupmenn, sem þekkja smekk heimskíngjanna og nýúngagirni, árlega ný og ný "munstur", sjálfsagt öllu girnilegri og betri enn þau en undanförnu árin (!?), og það fer að ætlun þeirra að allt gengur út! Sama er að segja um karlmanna búníngin, sbr. "Búnaðar ritið", 1. B. 1. D., bls. 121.

græði og dafni, ekki einúngis af vörum þeim og glíngri, sem þeir færa oss, heldur og af öllum vorum innlenda varníngi, ámeðan vèr sveltum og kölum við útlenda fæðu, skjól- og haldlaus föt, en fósturjörð vor stynur undir þessari vanrækt sona sinna! — Svo hefir stjórninni blædt þetta háttalag Íslendínga í augu, að konúngur, og það ámeðan hann var eigandi íslenzku höndlunarinnar, með úrskurði frá 8. Apríl 1782, segir oss á hendur "rèttláta reiði sína fyrir þá sök, að alþýðan á Íslandi svipti landið og selji í kaupstaðina nauðsynleg matvæli sín"; og skipar "yfirvöldum landsins og embættismönnum, ekki einúngis að leiða enar hættulegu afleiðíngar af slíkri óforsjálni almúganum fyrir sjónir með bezta móti, heldur og með allri alvörugefni að sjá um að á þessu framvegis verði ráðin bót." Í sama anda heitir konúngur í opnu brèfi frá 19. Apríl 1786 § 3, "að sjá það með einkar velþóknun við innbúa Íslands, ef þeir af fremsta megni með allri ástundun og forsjálni noti bjargræðismeðöl þau, sem landið sjálft gefur kost á, og taki aptur upp lifnaðarháttu forfeðra þeirra, þar útlendar matvörur þá muni verða þeim óþarfari, og þeir sjálfir færir um að efla velgengni sjálfra sín, og hæfari til að njóta betra hlutskiptis og hagsælda, að konúngsins vilja og ósk." Að konúngsboð þessi sèu úr gyldi gengin, eptir að fríhöndlunin komst á dettur varla nokkrum í hug, nema *Kylm* og hans líkum, (sbr. "*Forsvar for Islands fornærmede Øvrighed,*" bls. 73—75). Lètum vèr oss þetta skiljast, og vildum vèr eptir því taka stakka skipti, breyta að

gamalli landsvenju og sið forfeðranna í því sem á ríður, en taka það eptir útlendum sem orðið gæti til eflíngar bjargræðisvegunum, án þess að vera uppá þá komnir meir enn þörf og nauðsyn krefur, það mætti kalla skynsama, landi og lýð heillasama fastheldni við gamlan þjóðar vana og lands sið. Hvörnig getur það verið nokkur afsökun fyrir siðaða og upplýsta þjóð, ef hún breytir ekki einsog skynsemin kennir henni að hollast og arðsamast sè, "að það sè ekki landsvenja"? — Þvílík fastheldni við gamla siði eða venju er blind og öllum góðum fyrirtækjum til hnekkis og spillíngar, ef menn ekki eru færir um að sigra vanan, og má þar um segja eins og bóndinn segir við Atla (í 10. Kap.): "að það sè illa farið að menn viti þvílík dæmi, fyrst þau hneigsla þá, og að hin eptirkomandi öld því verði arfgeng til allrar heimsku, sem upp verði tekin og verði að vana." Venjan getur nú þaraðauki aungan afsakað, sem hlustaði eptir, þegar tilskipun frá 24. Apríl 1833 var honum birt á þíngi og Sýslumaðurinn fyrir þíngheiminum þýddi orð og innihald þessarar löggjafar. Eg vil því leitast við að færa til aðrar röksemdir móti veðsetníngunum, og sjá hvað þær vega, og ímynda eg mèr þá, að enar helztu megi vera þessar:

1. Veðsetníngar geta ekki ílenzt hèr, nema menn æski peníngaláns mót veði og lagavöxtum, og er peníngamönnunum ekki um að kenna, þó þær tíðkist ekki, meðan rentu staðin vantar.

2. Jarðirnar eru einhvör hin vissasta og varanlegasta eign, þær hvörki eyðast nè gánga undan við notkunina, heldur einmidt hennar vegna gefa

bæði leigulíða og landsdrottni þann ávöxt sem sèrhvörjum ber, í þeim aurum sem báðum eru hagkvæmastir.

3. Þær eru föst eign í raun og veru, sem eigandinn aldrei missir, þó eignarskjalið glatist. Hann getur alla tíð af afsalsbrèfa bókinni sannað eignarrètt sinn, og þessum fær einginn svipt hann, hvað sem á geugur. Veðhafanda þarámóti stoðar þetta ekki, því hann fær ekki veðrèttar síns aðnotið, nema veðskuldabrèfið sè óglatað, jafnvel þó því sè þínglýst.

4. Veðsetníngar leiða eptir sig vantraust og tortryggni manna á milli, svo að þegar skuldbindíngar einhvörs eru orðnar öllum kunnar frá þínglýsíngunni, verður honum synjað um lið og lán, og hann neyðist máske þessvegna til að selja eign sína, sèr og lánardrottni til skaða, fyrir verðleysu; enda er ekki heldur veðsetnínga þörf, þar sem vandaðir menn eiga í hlut, og hvörr treystir annars ráðvendni.

5. Þær eru vegur til peninga okurs, sem híngað til hefir verið óþekt í landi voru.

6. Þeir sem eiga jarðir geta sèð sèr og sínum fyrir ábýlum, hvönær sem á liggur, þar sem aðrir máske ekki sjá nein úrræði til þess, þó þeir hafi gnægð peninga.

7. Hinir, sem ekki eiga fyrir jarðarverðinu, og verða að taka lán hjá öðrum til að geta eignast eða ræktað ábúðarjarðir sínar, og leggja þær um leið í veð fyrir láninu, skuldbinda sig og eign sína með því lánardrottni, svo að vandsèð er hvört þeir

eru eigendur nema að nafninu einu, og þá hvörsu leingi þeim helzt á þessari veðbundnu eign sinni, sem enda bætir á þá tíundar útsvari ámeðan þeir loða á henni.

8. Þeir sem iðuglega setja penínga á rentu og láta þínglýsa veðskuldabrèfum sínum, vekja með því öfund annarra og óvild á móti sèr, sem þeir annars gætu hjá komist. Loksins hefi eg heyrt því hreift

9. Að samheldni og sparsemi muni ekki veðskuldabrèfa eigninni eins samfara og jarðakaupunum eða jarðaeigninni.

En röksemdir þessar eru varla eins öflugar og þær í fyrstu kunna að virðast, og munu svör liggja til þeirra þannig:

Til 1. Eg heyri því barið við, að péningamönnum vorum sè nauðugur einn kostur, að kaupa jarðir, ef þeir eigi að hafa nokkur not fjár síns — af því rentu staðin vanti, og játa eg það nú sem áður, að þeim er ekki einum með öllu um að kenna að veðsetníngar eigi komast hèr á. Forn landsvenja, vanþekkíng og umhugsunarleysið veldur því, að svo fáir sem einginn taka peníngalán, til annars enn sèr til lífsbjargar, eða um stundar sakir, til að geta losað sig við eitthvört jarðarverðið. Það kemur færstum til hugar að irkja betur eða til hlýtar ábúðar jarðir sínar með peníngastyrk annarra, því það hafa þeir aldrei sèð fyrir sèr, og vita hvörki nè íhuga, að hvörju gagni það kynni verða þeim og öðrum. Þetta er nú yfirsjón þeirra, sem afrækja bjargræðisvegu sína, er þeir með peníngastyrk annarra gætu við hjálpað; en eigi þetta að

afsaka peníngamennina fyrir álasi því, að þeim þó fyrst og fremst sè að kenna um peníngabrúkun vora, eins og hún er, verða þeir að láta ásjá, að þeir sjálfir færi sèr auðin svo í nyt, að hans sjáist menjar þar sem mest um varðar, að jarðirkjan og bjargræðisvegirnir taki nokkrum framförum hjá sjálfum þeim; því ámeðan efnamönnunum liggur þetta í lèttu rúmi og þeir eigi brúka peníngana, þó nóga hafi þeir þá, á þann veg, sem bjargræðisvegur sjálfra þeirra útheimtir og bendir til, er ekki von, að þeim snauðari geti orðið að vegi að taka peníngalán til þessa hjá öðrum, þegar þeir sjá slíkt eptirdæmi fyrir sèr hjá þeim, sem eru ens mesta umkomnir og alls ráð hafa til nytsamra og heilladrjúgra fyritækja. Og þó Íslendíngum aunganvegin standi svo margir og margfaldir vegir opnir til bjargræðis og atvinnu, ávinníngs og auðlegðar, sem flestum öðrum þjóðum, er þetta samt aungum til afbötunar, sem ekki gjörir allar þær tilraunir til eflíngar og viðhjálpar landsins fáu bjargræðisvegum, sem náttúran sjálf og skynsamleg eptirtekt bendir til. Hvörr sem ver peníngum sínum til þessa, hefir varið þeim manna bezt, því þar af hlýtur hann sjálfur að uppskera arð og ágóða öllum rentum farsælli, en meðbræður hans gott eptirdæmi og föðurlandið ómetanlegar heillir og heiður. En — það er opt öðru nær, og þess eru ofmörg dæmin, að bændur hèr á landi vanrækja ábýlis jarðirsjálfra sín, tún, engiar, byggíngar, fènað og yfirhöfuð vinnu utan húss og innan, ámeðan þeir eru að safna peníngum, annaðhvört í þánkaleysi eða til að kaupa fyrir jarðir, gleymandi

að túnin vantar girðíngar, sléttun og áburð, en engjarnar vatnaveitingar og vörzlu; að íbúðar- og útihúsin eru fallin, eða bygð eins og moldargren, sem hvörki menn nè skepnur geta snúið sèr við í, en allt hrynur niður þegar minnst varir af fúa og sagga, sem þar hjá eyðileggur alla þá hluti sem kofinn geymir og sýkir menn og skepnur[1]); að ullarvinna, matreiðsla og önnur verk innan húss og utan aungum framförum taka o. s. frv. Þeir sem safna peníngum á þessa lund verða í

[1]) Hið konúnglega Generaltollkammer gjörði þegar 1776 þá fyrirskipun til þeirra Stiptamtmanns Thódals og (þáveranda) Amtmanns Stephensens, í brèfi frá 2 Marts, til fullkomnunar fjárrækt vorri og ullar gæðum: að fjárhús fyrir 20 fjár skyldi að minnsta kosti vera 10 áln. á lengd, 6 á breidd, með 2¼ álna háfum veggjum að innan, og þeim mun lengra að sömu tiltölu sem það er ætlað handa fleiru fè (20 áln. fyrir 40 fjár o. s. frv.), að einn eða tveir strompar sèu á mænirnum, og þar að auki lítill opinn gluggur efst á hurðu en annarr á hinum gaflinum; 1 Rd. sekt til hreppsins fátækra sjóðs er lögð við, fyrir hvörn sem byggir minni fjárhús enn þannig er tiltekið, en þar hjá skyldi rífa þau fjárhús sem ólöglega væru bygð, eða öðruvísi enn fyrir var lagt, og endurbyggja þau síðan á fyrirskipaðan hátt. Færsta bændur vora mun nú ráma í að þvílík tilskipun nokkurntíma hafi verið til, enda munu fátækra sjóðirnir ekki græða stórt við yfirtroðslu hennar, þó ennþá sè hún í gyldi og oss ekki ætti að þykja mikið fyrir að taka þvílíkum heilráðum stjórnarráðanna, þar vèr ekki sjálfir höfum vit fyrir oss; það var því og næsta vel á minnst í byggíngarbrèfum Johnssons Etazráðs handa konúngs landsetum á Norðurlandi: "að þeir, meðal annarra gyldandi laga, skyldu halda sèr fyrrtèð brèf um fjárhúsa byggíngu og sauðfjárrækt eptirrèttanlegt."

rann og veru ætíð fátækir, hvörsu miklu sem þeir fá safnað, og hvörsu margar jarðir sem þeir kaupa, þeir eru fátækir í sjálfri auðlegðinni, fátækir í því sem mest á ríður, í nytsömum og uppbyggilegum verkum. Það er næsta lítils verdt og almenníngi þarflítið að kaupa jarðir, eða að auðgast, ef eigandanum ekki er hugleikið um annað enn eptirgjaldið, eða ef arðsins hvörgi gætir. Að vísu er það þarfaverkunum stundum í vegi, að verkamennirnir ekki fást. Veldur því, meðal annars, bæði húsagaleysið og sjálfbirgíngsskapur vinnuhjúanna, þareð vinnumönnum jafnvel þykir niðurlægíng í öðrum eins (hroða)verkum og túna sléttun eða garða hleðslu; einnig sá fásinnu vani, ekki einúngis kotúnganna við kaupstaðina, heldur og sveita mannanna (að ógleymdum lausamönnunum), að leggjast í "púlsmennsku" hjá kaupmönnum á vorin, þegar hægast og hentugast er aðgjörða við alla jarðarrækt og garða hleðslu; og hefi eg heyrt þess sönn dæmi, að menn, sem falaðir hafa verið til sveitavinnu þessarar fyrir 5 fiska á landsvísu um dagin, auk bezta fæðis, heldur hafa kosið á að gefa sig í kaupstaðar vinnu fyrir 40 eða 48 sk. daglaun, og — 1 eða 2 brennivíns staup með þurrum brauðbita í uppbót, og mun það helzt vera þessi veizla sem þeir gángast fyrir.

En auk þess sem opt má lá ríkismönnunum yfirhöfuð, að þeir ekki hirða um að bjargræðis- og atvinnu-vegir sjálfra þeirra nái framförum, þó þeim sè það innan handar, og að þeir með slíku eptirdæmi letji ena umkomuminni til nytsamra fyrirtækja og góðra verka, er þeim og annarsvegar

um að kenna að peníngar eru hèr einúngis hafðir til jarðakaupa. Þess er áður getið, að þeir leyni aðra penínga eign sinni, eða verði sem menn kalla ríkir svo einginn viti, fyrr enn farið er að skygnast um eignr þeirra eptir þá dauða. Það er eingin von til, að þeir sem svona fara að ráði sínu — og þannig er og verður stefnan yfirhöfuð, ámeðan haldið er við gamla vanan og menn verja einúngis peníngum sínum til jarðakaupa — sèu beðnir peníngaláns; en hvörjum geta þeir þá kennt um að ekki fái þeir rentustað fyrir peníngunum, nema sjálfum sèr? það er náttúrlegt að einginn biðji þá liðs, ef einginn veit að þeir muni geta lið veitt, eða þeir jafnvel synja þess (sem líka einatt ber við hjá þeim sem fylgja gamla vananum, að læra sem fyrst að berja sèr) til að geta safnað jarðarverðinu í náðum, eða í friði skemt sèr við "þær kringlóttu", og er hörmúng að vita þannig farið með velfeingin auð, að einginn fái hans að notið fyrir einberrar óvenju og hleypidóma sakir. Hvað getur verið að því þó hvörr viti fjárhagi annars eða peníngafaung, sem menn eru vel að komnir? — Ámeðan ekki er kostur á að hafa lagavöxt penínga sinna með öðru móti, enn að setja þá á rentu, eða peníngaverzlun vor ekki fær aðra rás, getur ekki annað verið betur ráðið, enn að róa hèr að öllum árum, og mætti peníngamönnunum sjálfum vera mest annt um slíkt. Bæði eldri og nýari lög Dana benda mönnum (sèrílagi ómyndugra fjárhaldsmönnum) til — bæði penínga eigendunum sjálfum til gagns, og þeim til hægri verka sem penínga þarfnast til að kaupa sèr ábýli fyrir, eða til annarra nytsamlegra athafna og aðburða —

að bjóða peninga til láns á fjölmennustu mannfundum, á þíngum, við **kirkjur** og í frèttablöðum (D. L. 3—17—28, sbr. tilskip. 21. Decbr. 1831, I., § 16, opið brèf 9. Marz 1792, konúngsbrèf 7. Febr. 1794 § 19, tilskip. 5. Maí 1830 § 20, og opið brèf 26. Júlí 1831) ef þeim ekki verður með öðru móti komið út á rentu. Það er hvörgi hægra enn á **manntalsþíngunum** að fullvissa sig um með þessum hætti hvört nokkurr sè láns þurfandi eður ekki, því þar eru svo margir saman komnir, að bæði má þvílíkt uppboð verða þjóðkunnugt innan sýslu og naumast til ónýtis, þar sem allir sýslubændurnir koma saman, hvörr á sinn þíngstað, og mundi nokkra jafnan vanhaga um peninga, en hafa nóg veð fyrir. Eins eru fjallskilarèttir vorar allhentugur staður til að falast eptir eða bjóða fram peníngalán; að eg ekki tali um uppboð peninganna á kirkju stöðunum, í tímaritum og á aðra vegu er öllum stendur í sjálfsvaldi. Einginn veit ófreistað, og er það reynandi fyrir báða, þann sem ljá vill og hinn er lán vill taka, hvört þess er nokkurr kostur, en allir sjá, að enum nauðstadda er vorkun, þó hann ekki á svo opinberan hátt **beiðist** peníngaláns, enda þó slíkt opt megi vel heppnast, og þurfi ekki að fæla peníngamenina, sè nóg veð undireins boðið fyrir peníngunum; en hvörki er þetta venja annarstaðar — þó við kunni að bera, að láns sè æskt í frèttablöðunum af **ónafngreindum** manni, er þá fyrst gefur nafn sitt uppskátt lánardrottni sínum þegar þessi gefur sig fram — nè heldur eptir kríngumstæðunum hèr að vænta, allrasízt ámeðan aungum af peníngamönn-

unnm sjálfum verður þessi tilraun til að koma peníngum á rentu að vegi; það eru því og þeirra sjálfsvíti, að þeir aungan rentustað hafa eða fá, er þeir ekki leita hans. Heldur ekki fá þeir borið fyrir, að þá vanti rentustað fyrir peníngana, nema loku sè skotið fyrir, að brúkunarleysi þeirra eða vanbrúkun verði afstýrt með öðru móti, t. a. m. með kaupum á þjóðskuldabrèfum, án þess að litið sè til atvinnuveganna sjálfra eða jarðarræktarinnar, hvartil peníngunum er bezt, en samt sjaldnast, varið hèr á landi.

Til 2. Að sönnu eru jarðirnar óhult og áreiðanleg eign. Eptir að tilskip. 17. Apr. 1833 § 2 og 3 lagði á hlutaðeigenda vald að ákveða, hvört en selda óðalsjörð skyldi vera brigðum undanskilin eður ekki, er heldur ekki við að búast, að brigðirnar framvegis trubli eða raski eignarrèttinum til muna. En hvörsu opt takmarkast ekki eigi að síður eignar umráð manna yfir jörðum þeirra? höfum vèr ekki sífeld dæmi uppá landaþrætur, sem að spakra manna dómi enda eru framförum landbúnaðarins að tálma[1])? Eru þess ekki nóg dæmi, að ágeingur nábúi noti sèr meinleysi landsetans, sèrhlífni eða kostgæfnis- og dáðleysi að nota land sitt? og gángist það mjög lengi við, mun verða torveldt að koma öðru á, eða kippa í liðin aptur, og það þó hin venjulega 20 ára hefðar brúkun ekki gæfi eignar rètt. Þetta ber við, og getur allt farið svo fram að landsdrottinn, sem máske býr lángar leiðir fjærri, komist ekki að því fyrr enn ofseint er að-

[1]) Sjá *Eggers Schilderung* bls. 109, og *lærde Efterretninger* 1786, bls. 421.

gjörða, og eptir að hann er búinn að missa rèttarvernd þá eða sönnunar meðöl, sem hann átti áður kost á. Þannig eru mörg ítök undir komin í engjum annarra, beitilandi, skógum og rekum, laxveiði fyrir annarra landi, o. s. frv., og var það því á góðum rökum bygt, að Etazráð Johnsson, meðal annars sèrílagi skoraði á, "að konúngs landsetar (norðanlands) með kostgæfni skyldu halda undir jarðirnar öllu sem þeim rèttilega tilheyrði, til fjalls, láglendis eður fjöru, með kappi banna alla óheimila íneyzlu jarðareigna, en jafnframt tilkynna umboðsmanninum hvað fram færi, uppá það að þessi gæti gjört jarðarinnar rètt gyldandi að lögum." Landsetanum er opt lítt um þetta lúngað, einkum búist hann ekki við að sitja jörðina lengi, eða njóta landsnytja hennar. Allt lendir á landsdrottni. Hann hlýtur að verja eign sína, hefja og sækja mál eignarrètti sínum til verndar, sem á endanum opt kosta hann meira enn ítakið eða deiluefnið var verdt, þó það að öðru leiti vinnist; en missi hann þess, þá hefir hann ekki einúngis að ónýtu varið til þess ærnum peníngum, heldur einnig liðið slíkan skaða á jarðarverðinu, sem ítakinu nemur eða þeim rèttindum sem undan gengu; þannig getur eigandinn sjálfsvítalaust liðið skaða á eign sinni, þó ekki gángi hún algjörlega undan, enda getur hún þaraðauki eyðilagst bæði af umbrotum náttúrunnar og fyrir illa ábúð og vanhirðíngu ábúandans, að eg ekki enn fremur tilgreini margvíslegan skaða og kostnað, sem rís af útbyggíngum, úttektum og útbyggínga

málum[1]). Öllu þessu komast þeir hjá, sem ekki kaupa fleiri jarðir enn ábúðarjörð sína, en setja peníngana á rentu hjá öðrum sjálfseignarbændum, eða þeim sem með penínganna hjálp geta orðið það. Þessir hafa bæði tækifæri og vilja til að verja eign sína mót annarra ágángi, svo lánardrottinn hefir fullvissu um að veðinu að svo miklu leiti ekki fari aptur; hann er og sjálfur utanvið allar landaþrætur, enda líka hefir hann aðgáng að öðrum eignum skuldunautarins, hrökkvi ekki veðið til (D. L. 5—7—9 og 17), sem varla þarf að óttast, sè það í nokkru lagi frá upphafi, þó einhvörr skikinn eða lítilfjörleg eignarnot gángi undan. Þaraðauki eru þau mál, sem risið geta útaf löglegum veðsetníngum eða veðmálabrèfum, svo vafalaus, og allar sannanir fyrir lánardrottin svo greiðar aðgaungu, að varla eru dæmi til að þau hafi fallið á hann, nema hann hafi beitt svikum og rángsleitni við skuldunaut sinn.

Að vísu getur landsdrottinn gjört sèr von um jafnmikið árlegt afgjald af jörðunni, sem almenn venja að fornu og samníngar milli hans og landseta ákveða (sbr. N. L. 3—14—15, tilskip. 15. Maí 1705 § 6 og nýnefnt rit bls. 153); en bæði getur út af því brugðið, gángi annaðhvört jörðin tölnverdt af sèr við biltíngar náttúrunnar t. a. m. við ágáng sjáfar eða vatns, skriður og sandfok — (sem hæglega geta gjöreydt jörðunni, án þess nokkurs endurgjalds sè von, hvörsu ríkur sem leiguliðinn vera kynni, sè ekki í tíma við gjört, hvað sjaldnast

[1]) Sbr. rit Prófasts Sèra Tómasar í Búnaðarritinu, 1. B. 1. D. "um jarðabygging, meðferð og úttektir."

ber við og sízt er að vænta af leiguliðanum) eða leiguliðinn gjörir einhvörja sèrlega jarðarbót, sem hann að lögum og sannsýni ætti að fá umbunaða af landsdrottni með uppgjöf eða afslætti í eptirgjaldinu, (sbr. N. L. 3—14—28, 30 og 32, einnig Thorsteinson *om det islandske Afgiftsvæsen* bls. 145—46), líka er vandsèð, hvört það sè yfirhöfuð landsdrottni og landseta haganlegra að eptirgjaldið sè í fríðu eða landaurum, enn í peníngum, eptir föstum mælikvarða jarðarverðsins [1]) t. a. m. líkt og renta sú er peníngarnir árlega gefa lánardrottni. Sè landskuldarfè og landaurar í háfu peníngaverði, getur það orðið landseta að skaða, að hann geldur eptir jörðina í landaurum, en landeiganda aptur á mót í góðu árunum eða þegar peníngaverðið hækkar. Það er því mest komið undir árferðinu og kríngumstæðunum, hvört landaura eptirgjaldið sè landsdrottni eða leiguliða hollara enn fast ákveðið peníngagjald, og má þó enn fremur ráða bót á happi og óhappi hvörs um sig í þessu tilliti, ef eptirgjaldið er borgað (í fríðu eða) í peníngum, eptir hvörs árs gángverði á landaurum eða eptir kapítulstaxta, eins og nú víðast hvar viðgengst á þjóðjörð-

[1]) Að öðru leiti getur færstum búendum, sem sitja nýkeyptar jarðir nú sem stendur, og meðan þær seljast því geipi verði sem nú við gengst, orðið hagur í svo vöxnu eptirgjaldi, og er það sjálfsagt, að verðhæð jarðarinnar aungan rètt gefur húsbóndanum til að hækka eptir því eptirgjaldið við landseta, þó þeir einnig kynnu til að vera, sem leyfa sèr þenna gróðrarveg og reyna þannig til að fá lagavöxt fjár síns; sbr. greint rit bls. 162.

um landsins, samkvæmt tilskip. 16. Júlí 1817. En hvörigur þarf að óttast, allrasízt í harðærunum, að góðar og vel verkaðar landvörur ekki gángi út í kaupstöðum (eða annarstaðar) fyrir peninga; ekki þarf heldur skuldunautur framar að óttast enn leiguliði, þegar harðast er á um landaura og þeir ekki hafa peninga ráð, að lánardrottinn sjái sèr meiri hag við peníngana enn landaurana óselda, enda þó honum gjaldist þeir eptir kapítulstaxta; og er því sú ástæðan gegn veðsetníngunum, að skuldunautarnir ekki eigi peninga fyrir árs rentu lánsins, á því veikari rökum bygð, sem hann og lánardrottinn eiga allan lagarètt á, að ákveða rentuna í landaurum eptir kapítulstaxta á ári hvörju, eða eptir gángverði þeirra á hvörjum tíma, líkt og í bezta tilgángi var ákvarðað í Skálholts jarða söluskilmálum, laungu áður enn kapítulstaxtar urðu til; peninga örbirgð manna á milli, eða hjá bændum sèrílagi, getur heldur ekki orðið en sama með nokkurnvegin peninga verzlun, eða eins eptir og áður enn veðsetníngarnar komast á, því þá hljóta fleiri að fá peníngaráð, þegar þjóðpeníngar landsins, leigujarða verðið, vaxtarlausir og ómyndugra peníngarnir koma á kreik og fara að verka til almennings heilla, við framfarir jarðirkjunnar, undireins og bændur verða eigendur býla sinna með aðstoð veðsetnínganna. En þó fleiri þannig njóti góðs af annarra peninga fangum, er það svo lángt frá, að ríkismennirnir missi við það nokkurs í, að þeir þvertámóti græða þeim mun meira við peníngana enn jarðaeignina, sem ársrentan nemur meiru enn lögákveðið og venjulegt

afgjald jarðanna, ámeðan þær standa í svo háfu verði sem nú er.

Til 3. Það er líkt fyrir lánar- og landsdrottni, að veðrètturinn ekki er fullkomlega fenginn með veðskuldabrèfinu einu, heldur enn eignarrètturinn með afsalsbrèfinu eintómu. Rètturinn (ɔ: mót þriðja manni) er fyrst til að öllu leiti eptir að búið er að þínglýsa þeim og rita þau í afsals- og veðmálabókina, og úr því, hvört heldur hið þínglýsta frumskjal sjálft vantar eður ekki. Sá er eini munurinn, að veðrèttinum ekki verður beitt, nema hið rètta veðskuldabrèf sè við haft, og það þessvegna, að það, með rètti þeim sem það gefur, getur gengið í kaupum og sölum manna á milli, án þess að nokkurs sè getið um það á þíngum, og farið þannig endalaust frá manni til manns, enn þótt skuldunauturinn eða veðrètturinn sè hinn sami og óumbreyttur. Þetta á sèr ekki stað við eignarrèttin, hann verður ekki fluttur frá einum til annars, nema með nýu afsalsbrèfi, sem einnig verður að þínglýsa, eigi það að geta gyldt mót þriðja manni. Bera kann það við um veðmálabrèf, að lánardrottinn sè svo samvizkulaus, að heimta skuld sína hjá skuldunautinum, þótt hann hafi selt eða framsalað (transporterað) öðrum skuldabrèfið, o. s. frv. Það var því nauðsynlegt — bæði til að vernda skuldunaut eða útgefanda skuldabrèfsins fyrir að krafið væri skuldar að honum optar enn einusinni, og líka þriðja mann, sem kynni að hafa fengið það að veði[1]) eða á

[1]) Það er alvenja, þar sem veðsetníngar tíðkast á annað borð, að veðbréf og önnur skuldabréf eru veðsett

annan hátt afsalað sèr til eignar af enum fyrsta og rètta lánardrottni, sem og til að efla óhulta verzlun og viðskipti manna á milli — að tilskip. 9. Febr. 1798 gjörði þá ákvörðun: "að það skyldi vera lánardrottins skylda, að fá skuldunauti sínum aptur handskript hans kvitteraða, þegar skuldinni að öllu er lokið; auk þess eigi hann, í skuldunautar eða umboðsmanns hans nærveru, að rita það, sem skuldunautur kynni að borga af skuldinni, á sjálft skuldabrèfið, og gefa að auki kvittun um það sèrílagi; að skuldunautur annars ekki þurfi að svara skuldinni, eða (ámeðan) rentu af þeim hluta hennar sem hann frambauð á rèttum gjalddaga; einnig að kvittanir fyrir skuldum eða skulda parti, sem ekki er kvitterað fyrir á sjálfu skuldabrèfinu, gyldi einúngis mót útgefanda kvittananna, en ekki mót öðrum (þriðja manni), sem með veðsetníngu, framsali *(Transport)* eða eptir einhvörri annarri löglegri heimilun kynni að vera orðinn brèfsins rèttur handhalds eigandi, þó að undanteknum ársrentum skuldarinnar, sem lausar kvittanir einnig eiga að gylda fyrir mót öllum seinni eigendum skuldabrèfsins." Sama orsök er til þess, að skuldabrèfinu ekki verður aflýst, nè það afmáð í veðmálabókinni, nema það sjálft með áteiknuðum kvittunum komi fram fyrir rèttinn, ásamt skjölum þeim (transportum) er sanna mættu afsal þess frá fyrsta til seinasta eiganda eða lánardrottins. En misfarist það eða glatist óvörum, er skuldinni samt aunganvegin tapað, og

eins og hvörr annarr hlutur sem verð hefir; kemur þetta einkum til gagns og nota þegar menn hafa bráða en ekki lángvinna þörf á peníngaláni.

vera má að skuldunauturinn sè svo sannfærður um ráðvendni lánardrottins síns, að hann ekki víli fyrir sèr eigi að síður mótmælalaust að gjalda honum skuld sína, þareð hann líka veit, að einginn annarr fær haft gagn af skuldahrèfinu að heimildarlausu. Skuldunauturinn hefir þá ekki heldur neinn annan vanhag af glötun veðskuldabrèfsins, enn að hann ekki fær það afmáð í veðmálabókinni; vilji hann þarámóti krefja rèttar síns, er einginn önnur úrræði fyrir lánardrottin, enn að fá konúngsleyfi til að stefna þeim sem kynnu að hafa brèfið í hendi, til að koma fram með það innan ákveðins tíma, venjulega 1 árs og 6 vikna frá því að stefnan er seinast birt, á þann hátt sem leyfisbrèfið tiltekur, eður og með þeim hætti, sem tilskip. frá 7. Febr. 1823 (sem nú mætti sýnast að geta gyldt hèr í viðlögum, að því leiti hún getur átt sèr hèr stað) fyrirskipar. Gefi sig nú einginn fram með skuldabrèfið til ens ákveðna tíma, nè sanni eignarrètt sinn til þess, dæmir rètturinn það ónýtt (*mortificeret*), og verður það síðan afmáð í veðmálabókinni, en dómurinn gefur þeim, sem hann öðlast, allan hinn sama rètt og veðskuldabrèfið sjálft áður enn það týndist. Þannig er skuldinni óhætt, enda þó brèfið glatist, brenni eða komi í þjófa eða ræníngja hendur. En hvörsu opt ber ekki við, að peníngar — sem einginn getur helgað sèr — fara á þessa lund, ámeðan verið er að safna þeim til jarðakaupanna, eða þeir liggja arðlausir fyrir? Að sönnu er það nokkurr kostnaður fyrir lánardrottin, að ná fullum rètti sínum eptir skuldabrèfinu með tèðu móti, en þó sjaldnast eða aldrei svo mikill,

að hann jafnist við þann kostnað sem opt rís af landaþrætum fyrir jarðeigendurna, enda eru þvílík skuldamál ætíð auðunnin og öllu vafaminni enn landaþrætu málin.

Það er að öðru leiti eingin meiri vera í jarðaeigninni enn í jarðaverðinu. Vèr sáum þvertámóti nýskeð, að lánardrottinn ekki einúngis hefir aðgáng að veðfè sínu, heldur og að öðrum eignum skuldunautarins, ef það er farið forgörðum eða hrökkur ekki fyrir skuldinni.

Íslendíngar hafa líka haft færi á að taka eptir, að ófriður, hallæri og peníngabiltíngar geta komið breytíngu á jarðakaup og jarðaverð, (þó þeir ekki hafi orðið fyrir að missa sjöttúng fasteigna sinna, einsog Danir við peníngabreytínguna árið 1813, sbr. tilskip. 20 Marz 1815 § 1) enda þó hvörki jarðeigendur nè peníngamenn þurfi nú framar að óttast, að peníngar vorir gángi úr gyldi, allrasízt síðan vèr fengum reiðu silfur eitt til gíngverðs á Íslandi (tilskip. 30. Marz 1836), því það hlýtur jafnan að halda því gyldi sem það hefir í sjálfu sèr. Bánkaseðlarnir fengu aptur á móti sitt verð með orðum eintómum og að láni, og urðu að falla úr gyldi eptir því sem þeir fjölguðu yfir megn útgefandans, eða svo mjög, að hið verulega verð, silfrið, varð oflítið til að leysa þá inn eptir nafnverði þeirra. En það er lángt frá að veðskuldabrèfin sèu af slíku tægi; það stendur í einkis valdi að brúka þau í penínga stað (sem *Repræsentativer)*, því menn verða að selja þau sem aðra vöru og skjallega heimila öðrum þau, ef þau eiga að koma öðrum að haldi enn ennm rètta lánardrottni; enda

getur lánardrottinn sjálfur og sèrhvörr eigandi veðskuldabrèfsins ætíð fullvissað sig um verð og ásigkomulag veðfjárins, þar sem það var öldúngis ómögulegt í tilliti til brèfpeníuganna (Bánkaseðlanna), allrahelzt á Íslandi, og því að eins urðu þeir svo mörgum að tjóni.

Til 4. Því verður ekki neitað, að þínglýsíngin, þar sem hún hefir tíðkast, er sprottin af undirferli manna og brögðum. — það sýndi sig eins í þessu sem öðru, að þeir eru ekki eins góðir og þeir eiga að vera. — það bar víð, eins og áður er á vikið, að þeir tóku að láni víðar enn á einum stað, og veðsettu sumir fasteignina fleirum enn einum, sviknst um að borga, en lètu lánardrottnana rífast um veðfèð, sem ekki nærri hrökk til að gjalda hvörjum sitt. En það bar og við, að kaupendur fasteignanna voru sviknir á sömu leið, og að deilur milli tveggja kaupenda, eður kaupanda og seljanda, eður einnig annarshvörs þessara og þriðja manns, eins gátu risið út af jarðakaupunum og veðsetníngunum; enda má það líka, einsog Stampe gat til, sèrílagi hafa verið þessa vegna, og til að koma í veg fyrir slíkan óskunda og misklíðir, að forfeður vorir tóku upp sjálfkrafa að láta þínglýsa kaupbrèfunum (*Arnesens isl. Retterg.* bls. 461) þó ekkert væri um það lögboðið hèr á landi, eins og heldur einginn mun geta gjört ráð fyrir meiri ráðvendni eða trúnaði millum kaupanda og seljanda, enn ámilli lánardrottins og skuldunautar. Löggjafarinn áleit það einnig nýlega skyldu sína, að ákvarða hið sama um þínglýsíngar hvörutveggju, veðskuldabrèfanna og jarðakaupabrèfanna, jafnvel áður enn hin

fyrri vorn komin hèr vernlega á gáng. Eins og því eingin tortryggni gat búið undir löggjöfinni sjálfri, eins er það og lángt frá, að nokkurt vantraust þurfi að koma þeim til hugar, sem færir sèr löggjöfina í nyt, til að vernda rètt sinn og ná honum, enda höfum vèr áður sèð, að undirferli eður óráðvendni er lángt frá eingaungu að gjöra þínglýsínguna nauðsynlega, heldur meðfram einmidt "hin forna einfeldni og ráðvendni." Lögin hljóta, að því leiti í þeirra valdi stendur, að gefa mönnum meðöl í hendur til að forða sèr rèttar tjóni, hvaðan sem rísa kann, og hvörr sá, sem af þeim vill góðs njóta, hlýtur að brúka þessi meðöl. Traust það, sem Íslendíngar að vísu hafa og yfirhöfuð geta haft hvörr til annars um orðheldni og ráðvendni, er heldur aunganvegin nóg til að geta fengið svo talsverdt peníngalán um óákveðinn eða lángan tíma, sem kaupandi eða jarðeigandi kynni að þurfa, til að eignast, viðhalda eða til hlýtar að endurbæta jörð sína. Minni peníngalán, annaðhvört uppá orð skuldunautar og dánumennsku, eða á móti veði í handseldu lausafè hans, og einúngis um hríð, hljóta að viðgángast kunníngja á milli, eins hvört jarða veðsetníngar (sjálfhaldsveð) tíðkast meðfram eður ekki. En það er peníngamönnunum ómögulegt að þekkja hvörs eins innra mann, eða dugnað og búnaðarháttu hvörs eins, sem vera kynni láns þurfandi, og er þá ekki annars kostur, enn að taka það veð fyrir apturgjaldi lánsins, sem sèrhvörr hefir að bjóða, eða þá að synja ennm þurfanda lánsins og verði hann svo af jarðarkaupinu, megi gefa frá sèr alla jarðarbót og láta hús, garða, tún og engjar

hrynja niður og falla í vanrækt, eða þá selja eign sína, að minnsta kostl um stund, þ. e. "leggja á hana mála," eða afsala lánardrottni sínum hana til brúkunar eptir Lbrb. kap. 9 og 10, þángað til hann, þegar bezt vegnar og gæfan er með, fær sjálfur aflað peníngauna. Allir sjá hve óhæfur þessi máti er, í samanburði við reglulegar veðsetníngar, til þess að mönnum geti komið hann að verulegu liði; hvörsu mjög sèrílagi málasalan, eða afsala jarðarinnar til brúkunar, hindrar rækt hennar; hve auðveldlega þetta vekur þrætumál og ásælni manna ámilli; hvílíkan baga eigandinn líður, sem má sjá af ábýlisjörð sinni og festa aðra jörð með afarkostum, og hvörsu hætt er við, að hann missi öldúngis eign sína, geti hann ekki innleyst hana aptur í eindaga, (sbr. Lbrh. kap. 10 og 11).

Það ber að sönnu við, að hinar veðsettu fasteignir eru seldar undan skuldunautunum til endurborgunar skuldinni, þegar í eindaga kemur og þeir ekki fá lokið rentu eða innstæðu; en bæði eru þesskáttar fasteigna sölur orðnar mjög sjaldgæfar í Danmörku, (hvar veðsetníngar hvervetna daglega tíðkast) síðan peuínga efnin komust þar í betra og stöðugra horf og fasteignirnar í jafnara og varanlegra verð, og líka eru þvílík einstök óhöpp (álíka og úthyggíngarnar, þegar landsetar ekki standa í skilum, sem varla mun ósjaldnar að bera fyrir þeim, enn fyrir skuldunautunum) óaðgreinanleg frá frelsi manna í daglegum viðskiptum. Þeir sem taka vilja veð í fasteignum eða í öðrum hlutum verða að sjá sig um, hvörjum þeir lána, og verðleggja veðið, viðlíka og þeir sem kaupa vilja. Það væri ofríki, eins af

löggjafaranum og öðrum, að taka fram fyrir hendurnar á myndugum manni, ámeðan hann ekki hefst neitt óleyfilegt að. Enda er þvílík sala veðfjárins lánardrottni aungu sæmdaminni, enn peníngamanninum er jarðarsala ens láns þurfanda, sem sá neyddist til af því peníngalán var ekki að fá mót jarðarveði. Sá sem hefir einusinni sýnt, að honum verður ekkert úr peníngum, ætti heldur ekki, ef vel væri, bóndi að vera þaðan af, en hinn óreyndi efnismaður nýtur aptur á móti lángtum minni sannsýni hjá sínum efnuðu bræðrum, ef þeir neyða hann til, annaðhvört að verða af áhýlis og eignarjörðu vegna peuínga skorts, eða að selja hana, af því hann vantaði efni til að geta endurbætt hana eða ræktað nægilega, því vera mætti, að hann hefði betri tök á að hagnýta sèr hlutina og tímann, og ávinna sèr með því skilatraust *(Credit)* það, sem hinn maklega misti er eyddi bæði tíma og peníngum til ónýtis. Sá sem ekki þarf að taka lán nema svo sem fyrir tveim þriðjúngum af verði eignar sinnar, getur hvörki gjört sèr nè öðrum skaða með láninu — sè hann annarsvegar ekki letíngi nè óráðs- eða eyðslumaður, enda er þá landhreinsun að missa hans; en náttúrlegt er, að lánardrottinn líka taki þetta til greina, svo að lánið verði ekki stærra enn hinn þarf nauðsynlega, og jörðin, að áliti hans, gefur fullkomið og óhult veð fyrir. Hvört nú veð það sem honum býðst fyrir peníngunum er áður skuld- eða veðbundið, fær hann hvörgi með vissu að vita nema af veðmálabókinni, og fengi hann ekki þetta að vita, mundi einmidt það, þó ekkert annað væri í vegi, hamla láninu, ef hinn láns þurfandi ekki að

öllu leiti er honum fullkunnugur, sem ráðvandur efna- eða atorku-maður. Og þó nú í veðmálabókinni komi upp að jörðin sè áður veðsett, er samt aungu vogað, ef nóg veð fæst eigi að síður, annaðhvört í þessari sömu jörðu, eða annarri eign fyrir nýu láni (sem þörf kann að verða á margvíslega, og aunganvegin í hvört skipti af örbirgð eða eyðslusemi). Í Danmörku eru næstum eins mörg dæmi til annars og þriðja, eins og fyrsta forgángs rèttar *(Prioritet)* í veðmæltu fè. Óvissa og vantraust í peníuga viðskiptum getur því verið enn náttúrlegri og skaðvænni þar sem veðsetníngar ekki viðgángast, enn þar sem þær tíðkast.

Opinberar veðsetníngar mega einnig heita einka vel lagaðar til að koma í veg fyri skaðlega eyðslusemi, svo að sá, sem áður tókst að smálána hjá ymsum, án þess einn vissi af öðrum, þángað til hann aungum gat borgað og hvörgi lán fengið, máske af ótta fyrir almennu álasi, láti sèr aptra frá, að seðja óhófsemi sína með annarra skaða, þegar hann sèr, að allt auglýsist á þíngi, hvar á móti hinn nýtur iðni sinnar og sparsemi hjá öllum mönnum, sem sýnt hefir, að hann leggur rækt við þær báðar. En eyðslusemi og óhóf er landi voru því óhentugra sem það af náttúrunni er ávaxtarminna og hrjóstugra, enn flest önnur. Til að gefa mönnum ánægjanlega vitneskju um efni þeirra sem menn trúa fyrir peníngum sínum, og stjórninni um peníngabrúkunina og efna ástand borgaranna, einnig yfirhöfuð til að vernda rètt þegnanna sín á milli og koma í veg fyrir óþarfa eyðslusemi, er í

Kaupmannahöfn ekki einúngis álítið nauðsynlegt, að þínglýsa öllum þeim skjölum sem hèr þarf að þínglýsa eptir tilskipun frá 24. April 1833, heldur einnig að kunngjöra á prenti, hvörjum skjölum þar sè þínglýst á umliðnum mánuði hvörjum [kans. prám. frá 4. Maí 1793]. En geti þínglýsíng eða opinberar veðsetníngar spornað við óþarfa eyðslusemi, (og um það hefi eg hèr sjálfs kansellíisins ráðstöfun og skýlausustu meiníngu fyrir mèr) hvörr getur þá verið í efa um, að þær miklu fremur sèu lagaðar til að styðja enn veikja láns eða skila traust manna á milli? Eyðslusemi kemur fram í rángri brúkun peninganna, en þó allramest í rángri brúkun tímans, og því að eins er iðni sannköllnð "móðir gæfunnar," að hinn iðni aldrei brúkar tíman til ónýtis eða óþarfa; þannig verður tíminn dýrmætastur allra hluta, og það hið mesta óhóf að eyða honum til einkis eður óþarfa, þareð "enginn hittir horfna tíð." Það eru einkum — eins og Franklín kennir í ráðum hans handa frumbýlíngum — 2 orð, sem á ríður til að öðlast skilatraust náúngans og til að græða: iðni og sparsemi, samfara ráðvendni; hinum iðna og sparsama tekst vonum framar að losa sig við skuldirnar, og það er hans siður að standa í skilum, eða gjalda þegar gjalda skal, og skortir hann sjaldnast til þess mátt nè vilja, en — "skuldviss maður á ráð á hvörs manns pýngju", segir meðal annars næsta heppilega í ráðum hans, í þeim tveim ypparlegu æfisögum Franklíns og Óberlíns prests, sem vèr nú þegar eigum á vandaðri Íslenzku, og allir því geta

lesið og sannarlega ættu að lesa frá upphafi til enda[1]).

Til 5. Það er sjálfsagt, að peníngaokur einkum á þar heima hvar veðsetníngar jafnaðarlega tíðkast; en til þess gefa þær í sjálfu sèr aungan-vegin tilefni, heldur en tíðari og margbreyttari peníngabrúkun. Hèr meðal vor getur jafnvel brydt á okri, og til þess hefir ein veðmálabókin sýnt mèr dæmi, (þar átti raunar útlendur maður hlut að), þó ekki sèu peníngaviðskiptin hèr margbreyttari enn enn eru þau, og það er enda lángtum líklegra, að löstur þessi viðgángist þar sem almenníngur ekkert veit um peníngaviðskiptin eða lánin, enn þar sem þau með þínglýsíngunum koma fyrir allra eyru og augu; því okurkarlar eru óvanir að taka marga til vitnis um peníngaviðskipti sín. Þeir sjá sem optast um, að taka margfaldt veð í einhvörjum góðum lausum aurum, sem þeir geyma þángað til peníngarnir eru þeim aptur goldnir, með ágóða þeim og rentu sem þeir áskilja, eða þeir halda pantinum sem sinni eign, sè ekki skuldinni lokið í ákveðin gjalddaga. Af þessari peníngaverzlun hefir margur fátækur

[1]) Æfisögur þessar eru að sínu leiti eins þarflegar sèrhvörjum hússföður og æfisaga Jóns Eiríkssonar er hvörjum námfúsum og upplýstum Íslendingi. Hvörr sem les þær, íhugar þau hugsvinns ráð og spakmæli, tekur þeim heilræðum, sèrílagi til iðni og sparsemi, sem þar eru kend, og lærir þar af, eða þó helzt af eigin reynslu, hve ótrúlega miklu með því verður áorkað til heilla löndum og lýðum, hann mun varla geta efast um, að þínglýsíng veðskuldabrèfanna eða opinberar veðsetníngar sèu næsta ómissandi, ef þær, sem nú var sýnt, gætu stuðlað til framfara iðni og sparsemi.

stúdent í Kaupmannahöfn að segja. Hún ferr fram án allrar þínglýsíngar og allra votta. Eg vil ekki gjöra ráð fyrir, að nokkurr landa minna færi sèr þenna gróðaveg í nyt; en því getur einginn neitað, að spiltri og ágjarni náttúru er lángtum hættara við að iðka hann leynt enn ljóst, eða síður með opinberum (þ. e. þínglýstum) veðsetníngum enn án þeirra. Sá máti, sem hlýtur að viðgángast þar sem þær ekki hafa stað, annaðhvört að selja (opt fyrir lítið verð) eða til brúkunar afsala eign sína, til að geta fengið peníngalán sem nokkru nemi lengur enn um stuttan tíma, er og litlu betri fyrir skuldunautin enn okur. Straff það, sem eptir tílskip. frá 14. Maí 1754 § 6, sbr. tilskip. frá 24. Jan. 1838 § 1, líggur við okri — (en okur er það, að taka á móti skuldabrèfi fyrir meiri peníngum enn skuldunauturinn í raun og veru tekur til láns, eða að taka annað eða meira eptir lánið, hvörju nafni sem heitir[1]), enn ena lögheimíluðu rentu) nefnil. uppnám höfuðstólsins, helfíng til fjárhirzlu konúngs og helfíng til þess sem glæpunum uppljóstar (sakaráberа, *Angiver)* — er þaraðauki — ásamt með sama lögboðs ákvörðun í § 7, um að skuldunauturinn hafi rètt til, þegar að skuldaheimtu dögunum kemur, án nokkurrar sönnunar, að krefja lánardrottin sinn, er hann ásakar um okur, til fríunar eiðs, — svo mikilvægt, að einginn nema staklega bíræfinn og guðlaus

[1]) Til þessa telst þó aunganvegin borgunin fyrir þínglýsíngu skuldabrèfsins eða aflýsíngu við rèttin, sem skuldunauturinn líka er vanur að borga, annaðhvört lánardrottni, sem lætur því þínglýsa, eða rèttar þjóninum, þegar skuldinni er lokið og skuldunauturinn lætur því aptur aflýsa.

mammons þjón lætur ágirndina lokka sig til þess andstyggilega athæfis að okra með peninga; og þó þess eigi að síður sèu einstök dæmi, er hvörki veðsetníngunum nè löggjöfinni um það að kenna, heldur einúngis mannlegum brestum og siðaspillíngu, sem löggjöfin eða erindsreki hennar opt fær refsað en aldrei upprætt. Að öðru leiti er það aungu torveldara fyrir landsdrottin enn lánardrottin, að sækjast eptir óleyfilegum ávinníngi og ábata af eignum sínum. Þvertámóti, sýnist jafnvel minni vissa fyrir rèttarverud landsetanna ámóti ágengni hússbænda þeirra, enn skuldunautarinn þannig hefir gegn ágirnd peníngamannsins eða lánardrottins síns. Getur það þá verið þessvegna, að sú einasta peníngabrúkun vor ámeðal lendir í jarðakaupum, og að Íslendíngar heldur vilja eiga jarðirnar sjálfar, enn veð í þeim? Mèr kemur ekki til hugar, að bera löndum mínum þetta á brýn, en varla gætir ætíð mikillar misknnsemi, nærgætni eða sanngirni í viðskiptum landsdrottins við landseta hans, og ekki mun trútt um, að margir, sem nú um stundir eru að kaupa konúngsjarðirnar, leitist við að færa upp eptirgjaldið við landsetana og heimta að þeim gömlu kvaðirnar, ef þeim með þessu móti mætti geta tekist að ná lagavöxtum peníngana (Búnaðarr. 1. B. 1. D. bls. 162) — þó hvörttveggja sè þeim það (undir sektir) bannað, bæði í uppboðs skilmálunum og í löggjöfinni (tilskip. 15. Maí 1705 § 1) — máske í skjóli Jónsbókar Llb. kap. 1, sem leyfði landsdrottni að skora á um eptirgjaldið, einsog hann getur orðið ásáttur við leiguliða, og væri því meiri þörf á að fylla uppí þetta skálka skjól með nýrri

löggjöf, er tækl af öll tvímæll, sem þaðan er — ekki einúngis jarða þessara leiguliðum, heldur og öllu landinu — þess vissara tjón búið, sem landsins fáu ríkismenn einlægt eru að safna að sèr jörðum, og þeim með því verður hægra fyrir að kúga landsetana og undireins að nýða jarðirnar, ámeðan landsetarnir ekki njóta verndarmeðals þess ámóti ágángi þeirra, sem náttúrlegri peníngabrúkun og veðsetníngar veita. Opt verða leiguliðar að gefa landsdrottni töluverða festupeninga, til að fá jarðirnar til byggíngar, máske ekki nema um fárra ára tíma[1]); þar á ofan er það sumstaðar venja, að landsdrottinn ekki einúngis (samkvæmt tilskip. 15. Maí 1705 § 1, sbr. N. L. 3—14—10 og 15) tekur rètta og venjulega — opt líka uppsetta — landskuld og leigur, og að auki önnur venjuleg gjöld og kvaðir af leiguliðanum, heldur þar að auki lætur hann árlega, eða þegar honum ræður svo við að horfa, "taka jörðina heima", sem kallað er, þ. e. gjalda sèr þóknun nokkra í peníngum eða landaurum (svo sem 2—4 spesíur, einn eða tvo sauði o. s. frv.), til þess leiguliði megi njóta ábúðarinnar lengur enn til næstu fardaga; og til þess að hafa frjálsar hendur til þessa, er jörðin frá upphafi bygð annaðhvört eptir munnlegum skilmál-

[1]) Að festur sèrílagi tíðkist á Norðurlandi ræð eg af byggíngarbrèfum þeim, sem Etazráð Johnsson samdi fyrir konúngs landsetana þar, er þau gjöra ráð fyrir, að "Administrator kvitteri fyrir .. Rbd. í festu fyrir jörðinni"; en þó máske konúngsbrèf frá 9. Septbr. 1791 § 8 (sem sýnir, að þetta viðgekst hèr og hvar á Hóla gózinu), ásamt öðru gefi hèrtil nokkra ástæðu fyrir téðar jarðir, þá hefir það þó varla annurstaðar nokkra laga átyllu.

um, eða — ef byggíngarbrèf er við haft — á huldu, með einhvörjum orðatiltækjum, sem gefa til kynna, að landsdrottinn hafi í sjálfs valdi að svipta leiguliðan býlinu "þegar þeim ei leingur semur" eða hinum ræður svo við að horfa[1]), þvert á móti akvörðuninni í tilskip. 15. Maí 1705 (§ 6, sbr. § 2): að ekki megi hrekja bóndan frá jörðunni, ámeðan hann situr hana löglega, og stendur í öllum skilum, eins og að fornu vera á. Sè ekki þetta að okra með peníuga, þá er það að okra með jarðir, og vantar ekkert nema hótanir okurlaganna til að vera fullt eins andstyggilegt og peníngaokur. Af landsdrottins hálfu er það aungu lofsverðara að græða uppá þennan óleyfilega mátan enn hinn, og hinn þannig undirokaði landseti líður ekki einúngis eins mikin skaða og sá af okurkarlinum kúgaði skuldunautur, heldur ennþá meiri, tilfinnanlegri og óbætanlegri. Því betur sem honum vegnar á jördunni, þess meiri verður þessi árlega aukakvöð, og honum er nauðungur einn kostur, að greiða hana, eða að verða af býlinu, án þess að vegur sè til fyrir hann eins og skuldunautin að taka skaðabætur hjá sjálfum sèr, enda fara ekki þvílíkir samníngar annarra ámilli enn landsdrottins og landseta, svo að þenna hlýtur að bresta öll sönnunnar meðöl fyrir áburði sínum,

[1]) Þessi siður kvað einkum eiga heima hjá jarðeigendum norðanlands og yfirhöfuð vera orðinn ulgengur víðast hvar í landinu (nema á konúngsjörðunum, hvar lífsfesta er við höfð) sèrílagi síðan jarðaverðið fór að hækka, svo að lagavöxtur peníuganna ekki gat fengist af jörðunum með öðru — eða leyfilegu — móti.

ef landsdrottinn, sem við er að búast, synjar hans, með því það er ekki heldur lenzka hèr, (þrátt fyrir boð tilskip. 15. Maí 1705 § 2, sbr. N. L. 3—14—25) að rita alla bygggíngar skilmálana í byggíngarbrèfið, ef það annars frá upphafi er til[1]), eða sèrílagi hve mikil festa sè gefin, eigi heldur (eptir boðum sömu tilskipunar § 3) skriflega að kvittera fyrir eptirgjaldið, og allra sízt að þínglýsa byggíngar brèfinu; svo það er næsta örðugt þegar þannig á stendur, að veita landsetanum lið móti ágengni landsdrottins. Það er eingin furða, þó þeir sem hjá geta komist ekki vilji gánga undir þetta ok, enda bjóðast jarðeigendum þeim, sem fara þessu og þvíumlíku fram við landseta sína, sjaldnast nema amlóðar og dugnaðarlausir leiguliðar; en hvörja verkun þetta ásamt megi hafa á jarðarræktina, hlýtur að vera fleirum í augum uppi, enn þörf sè frá að skíra. Eg hefi heyrt borið fyrir, að tilskip. frá 15. Maí 1705 gyldi ekki nema um konúngs-

[1]) Menn bera jafnvel ennþá fyrir sig, að byggíngarbrèfs ekki þurfi við, eptir Llb. kap. 1 og kaupab. kap. 23, enda munu þau og víðast hvar anuaðhvört vanta eða ei vera samin að boðum tilskip. 15. Maí 1705 § 2, nema á konúngs- eða þjóðjörðunum. Það er eitt með fleiru Johnssyni Etazráði að þakka, að hann lèt prenta þau opt áminnstu íhugunar- og eptirbreytnisverðu byggíngarbrèf (*Blanquetter)* handa leiguliðum konúngs á Norðurlandi, eins og Herra Stiptamtmanni v. Bardenfleth, að hann nú og hefir látið prenta — að mestu leiti — önnur eins byggíngarbrèf fyrir klaustra eða konúngsjarða landsetana í Skaptafells sýslu (í Gullbríngu, Kjósar og Vestmanneyn sýslum eru konúngsjarðirnar bygðar með nokkuð frábrugðnum kjörum).

og þjóðjarðir; en svo að landar mínir sjái að þeir fara villir vega í þessu, og að þeir fái tækifæri til að kynna sèr þessa afræktu rèttarbót yfirhöfuð, læt eg hana hèr birtast þeim, að því leiti þessu efni viðvíkur, um leið og eg, lesendunum til enn meiri trúarstyrkíngar, leyfi mèr að benda til þess, sem Amtmaður og Riddari Thorsteinson hefir ritað "um leiguliða, jarðabókar gjöld" m. m. í opt nefndri ritgjörð hans. Af fyrirsögninni má ráða, að tilskipunin miðar til að afstýra ymsum ósiðum á Íslandi. Tilskipunin er þannig:

"Vèr Friðrik hinn fjórði o. s. frv. Gjörum kunnugt: að þareð vèr ógjarna höfum orðið þess áskynja, að vorum kæru og trúu Íslands búum sè misboðið með álögum, bæði af hússbændum þeirra og öðrum sem hafa jarðir vorar að lèni, þá höfum vèr af konúnglegri einka náð, og til að veita tèðum þegnum vorum lið og vernd laga og rèttar, allranáðugast látið gjöra um þetta eptirfylgjandi tilskipun, öllum hlutaðeigendum til ávísunar og eptirbreytni: 1., er hèrmeð alvarlega bannað öllum hússbændum, og þeim sem hafa kynnu umboð yfir nokkru af fasteignum vorum eða jörðum, að leggja á bændur þeirra neinar nýar álögur, framyfir það sem á jörðunum hefir legið frá alda öðli; skulu þeir sem slíkt gjöra sekir við konúng um þriðjúng af því sem hinar nýu álögur verða metnar. 2., skulu allir hússbændur skyldir að gefa bændum sínum byggíngarbrèf; skulu þar tilgreindir allir þeir skilmálar sem þeir verða ásáttir um

við bóndau, og er bóndi ekki skyldur að gjalda eða gjöra neitt það, sem ekki er tiltekið í byggíngarbrèfinu; 3. allir hússbændur skulu gefa bændum sínum skilmerkilegt skrifað kvittunarbrèf fyrir eptirgjaldi ábúðarjarða þeirra, í hvört sinni sem þeir gjalda nokkuð eptir þær[1]). Þeir sem sýna undandrátt í þessu eða mótþróa, skulu hafa fyrirgjört því sem þeir kynnu að eiga eptirstandandi hjá bóndanum; 4. einginn hússbóndi má hèðan af dirfast að taka leigu af dauðum gripum, fremur enn lögin leyfa[2]); svo að skilmálar þeir sem stríða gegn þessu og bóndinn kynni að vera þvíngaður til með fortölum eða myndugleika, skulu að fullu og öllu ógyldir, og skulu hússbændur sjálfir skuldbundnir til að bæta upp kvígildis kýrnar, þegar þær eldast um of, eða deya af einhvörjum þeim tilfellum, sem lögin ekki bjóða leiguliða að ábirgjast[3]); 5. einginn bóndi

---

[1]) Samkvæmt þessa er nú skorað á í byggíngarbréfum þeirra Stiptamtmanns v. Bardenfleths og Etazráðs Johnssonar, "að leiguliði skuli, í hvört sinni sem hann geldur nokkuð af leigum eða landskuld, láta kvittunarbók sína (sem honum er fengin með byggíngarbréfinu) fylgja með, til þess kvittanin verði bókuð þar, og fær hann ella aunga kvittun fyrir því er hann borgar."

[2]) þ. e. nema leiguliði sjálfur af ásettu ráði drepi leigufè. Kaupab. kap. 16.

[3]) Eptir Kaupab. Kap. 16 á leiguliði ekki að ábirgjast leigufè "við bráðasótt og lúngnasótt, kelfing eður lambburði, aldri eður lystur reið, og þó að alla ábirgð skilji þeim á hendur er leigir, þá skal það eigi haldast", (sbr. N. L. 5–8–10); og er þessi ákvörðun Jónsbókar vorrar enn gyldandi um ábirgð á leigufè hèr á landi, eins og

skal skyldur að flytja leigur lengri veg heim til hússbóndans enn 2 dagleiðir; 6. einginn hússbóndi, hvörki þeir sem yfir vora fasteign eru settir, andlegrar eða veraldlegrar stèttar, má burtrýma nokkrum bónda frá jörðu, sem hann eitt sinni hefir bygt honum, ámeðan bóndinn situr hana löglega, og geldur eptir hana það sem frá alda öðli hefir goldið verið og með rèttu á að gjalda."

Af orðatiltækjum tilskipunarinnar er þannig ekki annað að sjá, enn að hún nái til allra landsdrottna, bæði yfirhöfuð og sèrílagi hin seinasta (6ta) grein hennar, sem rèttur landsetans, til að njóta æfiláungrar ábúðar, er bygður á, og er því minni ástæða til að binda tilskipun þessa, eða 6tu grein hennar, við þjóðjarðirnar einar, sem tilskipanirnar frá 8. Maí 1591 og 21. Apr. 1619 voru búnar að fyrirskipa, að þær skyldi byggja landseta og ekkju hans um lífstíð heggja þeirra, með þeim kjörum sem frá alda öðli hafi gyldt millum landsdrottins og landseta; og um leið getur það jafnvel ennfremur verið efunarmál, hvört boðorð þetta eptir orðum seinastnefndrar tilskipunar ekki yfirgrípur allar bænda eignir, er þar kveður svo að orði; "Vèr Kristján 4. — kunngjörum, að vèr náðugast höfum leyft þegnum vorum og innbúum, svo og eptirlifandi ekkjum þeirra á vorn landi Íslandi, eins og líka bændunum, þjónum (ɔ: leiguliðum) þeirra, sem af þeim hafa tekið jarðir til festu, að

henni líka af konúnginum þrávallt er fylgt þegar bráðasótt, jarðeldar eða annað eyðileggja innstaðu jarða hans, (sbr. Thorsteinsons þráttuefndu ritgjörð, bls. 151—56).

þeir ætíð hèðanífrá, og þángað til vèr fyrirskipum um það á annan veg, megi njóta, brúka og hindrunarlaust æfilángt halda því sem þeir eitt sinni hafa fest, fyrir það afgjald og rèttindi sem af því eiga að greiðast, og sem þeir hafa undirgengist, þegar þeir tókn við jörðunum, og ámeðan þeir sitja þær löglega og halda byggíngum þeirra við" — síðan er fyrst ákvarðað, eins og þegar er áminnst, að landskuldirnar ekki skuli hækka eða lækka á konúngsjörðunum yfir eða undir það sem af þeim hefir verið svarað frá alda öðli. Að tilskipunin frá 1705 líka áður hefir verið álitin gyldandi um alla fasteign og alla jarðeigendur hèr á landi, sýnir loksins uppástúnga Magnúsar Amtmanns Gíslasonar um: "að það yrði í tilskipun bannað leiguliðum lands þessa, að flytja frá jörðum þeim, sem þeir einusinni hafa fest, án nægra orsaka, eins og það með tilskipun 15. Maí 1705 er fyrirboðið jarðeigendum, að burtrýma nokkrum frá þeim jörðum, sem þeir einusinni hafa leigt, ámeðan leiguliðarnir sitja þær að lögum, hvörri uppástúngu Amtmannsins með konúngsbrèfi frá 18. Apríl 1761 var vísað til aðgjörða þeirra manna, sem um þær mundir var á hendur falið að semja nýa lögbók handa Íslendíngum.

Til 6. Sè boðum tilskipunarinnar frá 15. Maí 1705 hlýdt, verður landsdrottni sjaldnast auðið að ná undir sig eða sína frá landsetanum eignarjörð sinni til ábúðar, því til þess hefir, eptir tilskip. frá 22. Júli 1791, einúngis sá landsdrottinn nokkurn rètt, sem sjálfur er jarðnæðislaus (*Boeslidsmand*, búslitamaður) og þar hjá sjálfur hefir bygt land_

setanum jörðina. Það er því og með tilskipun þessari aftekið sem Llb. 28 Kap. ákvarðar, að leiguliði skuli skyldur að víkja frá jörðinni í næstu fardögum eptir að eigandi eða umboðsmaður hans dó, nema erfíngja og leiguliða öðruvísi um semji; því erfíngi hefir jafnvel ekki eptir nýnefndri tilskipun (sbr. tilskip. 16. Jan. 1780) téðan rètt mót leiguliðanum, þótt hinn fyrri eigandi jarðarinnar áður hefði haft hann; enda á dugnaður og atorka aunganvegin ætíð heima hjá peníngamanninum, svo að bæði landinn og honum opt kemur eins vel ef ekki betur, að búa að peníngunum, eður leggja sig eptir einhvörju öðru enn sveitabúskap og jarðarrækt. Auk þess er ástandi margra svo varið, að þeim hentar ekki að festa sig svo niður á einum stað, að ekki sè aptur hægt við að skilja; en það kemur hvörki landsdrottni sjálfum nè jörðum hans vel, að þær vanti umsjón hans og ráðstöfun, sem hann þó ekki fær við komið, sè hann ekki í nánd við þær, eða sè hann á lausu lopti og þurfi að flytja frá einum stað til annars, nema með því móti að fela öðrum það á hendur, og hlýtur hann þá að borga þeim ómakið, og getur þó aldrei trúað þeim eins vel og sjálfum sèr. Hefði hann í eignar stað veð í jörðunni, gæti hann þarámóti, ef honum svo litist, sagt peníngum sínum lausum og tekið þá með sèr um leið og hann flytur, enda líka ætíð í veðbrèfinu áskorað, að skuldunauturinn borgi hina ákveðnu rentu á heimili hans (lánardrottins) hvar sem það kynni að vera í landinu. Það er nefnil. ekkert, sem getur hamlað þvílíkum samníngi, og þó að leiguliðar, samkvæmt tilskip. 15. Maí 1705

§ 5 geti skorast undan að flytja leigur, og líklega landskuldir[1]) yfir 2 dagleiðir til lánardrottins, er samt eingin laga ástæða nè orsök til, að hlífa skuldunautinum við að borga rentu eða höfuðstól, hvar sem vera skal í landinu, allrasízt síðan póstgaungurnar gjörðu honum þetta hægra; eins og líka daglega ber við, að póstarnir færa peninga suður í Reykjavík frá öllum útkjálkum landsins; og eru þó enn fleiri vegir til, enn þessi einl, t. a. m. framsala skuldabrèfanna, ávísanir *(Anviisninger)* frá lánardrottni eða skuldunaut, uppá borgun þess er borga skal, til annars eða af öðrum enn sjálfum þeim, þar sem þeir búa eða í nágrenni þeirra. Það er og svo lángt frá að veðsetníngar geti staðið nokkrum í vegi til að fá ábýli, að þær miklu framar eru bezta meðal til þess hvar sem þær eru komnar á, og menn gefa jarðir falar fyrir peninga. Eg hefi í nokkur undanfarin ár haft fyrir augum jarða verzlunina í þeim heruðum Jótlands, hvar allir búa á sjálfs eign, og hefi ennþá aldrei vitað þess dæmi, að menn þar væru í vandræðum með að fá sèr býli, og það fer ekki hjá því, að hèr yrði aungu óhægra um ábýlisjarðir, þó allir bændur vorir sjálfir ættu þær, (hvörr um sig) — og til þess eiga veð-

---

[1]) Þannig mun og Stiptamtmaður v. Bardenfleth hafa skilið leigniliðaskyldu þessa, er hana í byggíngarbrèfunum fyrir konúngs jarðir sem ábúendur í Skaptafells sýslu ákveður, að landskuld sem leigur skuli annaðhvört borgast heima hjá umboðsmanni (sem býr innan sýslu) eða á þeim stað sem þessi tiltekur, innan sýslunnar takmarka, sbr. N. L. 3—14—17, og Amtmanns Thorsteinsons ritgjörð bls. 149.

setníngarnar að stuðla — enn sem stendur. Menn deya hèr og eldast eins og í öðrum löndum, hætta búskap, og flytja til annarra sveita margra orsaka vegna, sem eins eiga heima hèr og annarstaðar; svo það mætti undrum sæta, ef sá sem keypt getur fengi sèr ekki ábúðarjörð keypta, þegar bænda eignirnar fyrst fara að fjölga og skiptast jafnar milli landsbúanna, þó því ekki verði neitað, að það hljóti opt að vera erfidt, sem nú er komið, vegna ákvörðunarinnar í tilskip. frá 22. Júlí 1791; en um það er ekki veðsetníngunum að kenna, heldur einmidt jarðasafni einstöku manna, þ. e. ríkismanna eða jarðeigenda, sem með því að kaupa jarðir þær, sem þeir ekki þurfa sjálfir til ábúðar, í raun og veru svipta sig fullum eignarráðum, en það gjörir sá aungan-vegin, sem einúngis veðsetur ábúðarjörð sína, því hann getur eins eptir sem áður selt hana, hvörjum sem kaupa vill.

Til 7. Því er meðal annars barið við, að bændum sè til lítils að bjóða í jörð, eigi þeir ekki fyrir jarðarverðinu, og er það að vísu svo, ef einginn vill styrkja þá með láni, enda verður líka ríkismönnunum þetta að góðu, því þá veitir þeim hægra að ná í jarðirnar fyrir lítið verð, og heppnast það einnig stundum, ef það ber við, að þeir lána öðrum peninga til lífs nauðsynja, þ. e. til að eta þá upp, því þá gánga þeir optast nær að því vísu, að ná í jörð skulduanautarins, eigi hann nokkra, þegar hann eingin önnur úrræði hefir til að borga skuldina; en eins hættuleg afleiðing peningabrúkunar vorrar sem þetta hvörttveggja er, svo er hitt og hörmulegur misskilníngur, sem

mörgum bónda aptrar frá að kaupa það sem honum mest á ríður, ábýli sjálfs hans: að skuldunauturinn ekki eigi, eða ekki sè eignar sinnar ráðandi eins eptir sem áður enn hann veðsetti hana, eða kom í peninga skuld (hvörnig sem skuldinni kynni að vera varið); og það því skaðvænni sem hann getur eins orðið öllum heillavænlegum fyrirtækjum að tálma og sem hann er almennari í landi voru. Það er sjálfsagt, að menn skuldbinda sig lánardrottni sínum til að endurborga honum láníð (og rentur ef áskorað er) á tilteknum tíma, en lengra nær ekki heldur skuldbindíngin, hvört heldur veðfè er sett fyrir skuldinni eða ekki. Hvörr sá sem í skilum stendur við lánardrottin sinn, hefir ekkert að óttast, og hefir eins fullkomin umráð eignar sinnar, hvört hún er veðsett eða ekki. Lánardrottinn fær aldrei heimtað meira enn láníð (og rentuna), og hefir ekki fyrr, enn þegar það er ekki goldið í eindaga, rètt til að þvínga skuldunaut sinn til að borga það með veðinu eða öðrum eigum hans; en það er einkenni allra löglegra tvíbundinna[1]) samnínga að hvörr semjandanna öðlast rètt til að þvínga annan til að uppfylla samnínginn eða skyldu sína; og er hvörigur öðrum únauðugur að heldur. Þannig getur skuldunauturinn ekki einúngis irkt og ræktað ena veðsettu jörð að eigin skapi;. heldur og lèð, leigt, selt og veðsett hana (með öðrum forgángs rètti) öðrum manni, án þess lánardrottni eða neinum þurfi að tjáni að verða,

[1]) Tvíbundnir *(tosidede)* kallast þeir samníngar sem skuldbinda báða þá sem samið hafa, eins og er um lánardrottin og skuldunaut.

eða svik sèu í frammi höfð. Vilji lánardrottinn hindra þvílík eignarráð skuldunautar síns, er þessum eigi að síður innanhandar, annaðhvört að beita lögum og rètti, og eiga undir hvört hinn segir peníngunum lausum, sem hann þá sjálfsagt er í ábirgð fyrir, eða að segja þeim lausum sjálfur til útborgunar, og verða þá öllu minni vandræði að fá nýtt lán (þar sem peníngaverzlunin er í lagi) mót óhultu veði, enn nú um stundir að fá ábýlisjörð með góðum kjörum fyrir þann, sem bygt er út af landsdrottni. Að vísu er skuldunauturinn þeim mun fátækari, sem hann er öðrum skuldugur, enda má hann sjá af svo miklu sem veðskuldinni nemur í jarðarverðinu, vilji hann selja hana, hvört heldur lánið gengur yfir á kaupanda (sem þá gefur út nýtt veðskuldabrèf fyrir því), eða eigandi (seljandi) borgar það sjálfur af kaupverðinu, en þetta raskar að aungu enum verulega eignarrètti skuldunautarins. Og er um þetta sama að segja, hvört heldur sá sem skuld á að gjalda er skuldugur seljanda eða öðrum útífrá; því með afsalsbrèfinu *(Skjöde)* afsalar seljandi sèr og selur kaupanda í hönd, ásamt jörðinni sjálfri, öll eignar umráð yfir henni að lögum, hvört heldur hann sjálfur tekur hana að veði eður ekki. Það er enda sèrlegur kostur við konúngsjarðakaupin, að tveir þriðjúngar jarðarverðsins eru öllum eigendum (kaupendum) eins auðfengnir að láni, eða að láni þessu ekki er sagt lausu við eigenda skipti, vilji einúngis kaupandi gefa út nýtt veðskuldabrèf fyrir því; og er þá svo fjærri að konúngs skuldunautar þessir bindi sig eða eign sína afarkostum, að veðsetníngin einmidt lèttir

þeim arðsöm eignar umráð og sölu enna keyptu jarða. Og þessa verkun hefir sèrhvört — einkanlega þó þjóðpenínga — lán mót veði í fasteignum; því þó nokkrir sjái penínga sína heldur í þessa enn hins höndum, verður þeim þó aldrei vandræði úr að fá lán sem nóg veð hafa fyrir að bjóða, þar sem peníngalán tíðkast á annað borð. En því minna sem borga þarf seljanda útí hönd af jarðarverðinu, því hægra er að koma henni út og fá hana vel borgaða, þareð fleiri þá verða og geta orðið um boðið. Danskir bændur þykjast hólpnir, geti þeir notið láns við til að verða eigendur ábýla sinna, og efast einginn í Danmörku um að þeir sèu það, hvörsu veðbundin sem eignin er; einginn sá sem yfirvegar beggja rèttar ástand, getur heldur álitið, að búendur vorir, sem kæmust uppá að verða sjálfseignar bændur með þessu móti, yrðu eins ánauðugir lánardrottnunum, og leiguliðar nú víðast hvar eru landsdrottnum þeirra. Ekki er heldur svo sem að skuldunauturinn sè bundinn við alla skuldina, ámeðan hann getur ekki goldið hana að fullu; honum er (eins og lánardrottni), samkvæmt skuldabrefinu, innan handar að segja því lausu af henni til útborgunar með köflum, sem hann hvað af hvörju fær losað sig við, eða fær án verið, eptir því sem hann ábatast við jarðarræktina eða atvinnuveg sinn. Takist svo til, að skuldunauturinn ekki geti staðið í skilum, er það annaðhvört einberu óhappi eða óframsýni hans, yfirsjón eða ódugnaði að kenna. Í fyrra tilfellinu má hann, eins og hvörr annarr, sem fyrir óhappi verður að hendíngu eintómri eða óblíðu náttúrunnar, öruggur treysta forsjóninni,

vægð lánardrottins síns og aðstoð meðbræðra sinna; en sè honum sjálfum um að kenna að hann fær ekkert goldið, er það enda vel farið að honum helzt ekki á jörðunni, og að hún kemst í betri hendur; en hvört sem er, er samt eigandinn (skuldunauturinn) ekki verr staddur, þar sem allir búa á sjálfs eign og veðsetníngar gángast við, þó hann hljóti að selja eign sína til að borga með skuldirnar, enn hinn bóndinn, sem um lángan aldur hefir setið leignjörð, megi hann, sem opt ber við, standa upp af henni, eptir að hann er búinn að kosta til hennar öllum sveita sínum, erfiði og efnum, og hún því er orðin honum sá unaðarsælasti samastaður.

Eg ber ekki ámóti, að jarðartíundin legði leiguliðum, sem ábýli sín kaupa (með eða án lánspenínga styrks), nýa byrði á herðar, ef tíund þessi væri greidd sem skyldi, þareð hún að lögum (kristinrètti Árna Biskups 14. Kap. og tilskip. 10. Apríl 1619) ennþá er eigenda en ekki leiguliða byrði; en það má apturámóti sèrílagi hvetja leiguliðana til að kaupa ábýli þeirra, með sèrhvörju mögulegu móti, að þeir, að gömlum sið og venju, víðast hvar tíunda ábúðarjarðir sínar, án nokkurs endurgjalds frá landsdrottni[1]); og það því

[1]) Sjá þráttnefnda ritgjörð Amtmanns Riddara Thorsteinsons bls. 53—55 og *Coll. Tid.* 1834 bls. 577—81, hvar af meðfram er auðsært, að tíundarbyrðin í raun og veru hèreptir sem híngað til liggur — ekki einúngis á jarðar — heldur og á leigufjár eigandanum, enda þó tíundinni, eptir tilskip. 11. Maí 1831 § 2, sè lokið af leiguliða, á þeim stað hvar leigufè er, þegar á að telja það fram til tíundar.

heldur, sem þeir að sömu lögum ekki eru skyldir að gjalda tíund, nema "af fè sínu skuldlausu í landi eður lausum eyri." Standi þeir því í skuld fyrir öllu eða nokkru af jarðarverðinu, gengur það tíundarfrítt sem skuldinni nemur; þessu skilst mèr fyrirskip. 17. Júlí 1782 § 1 sè því síður mótstæðileg, sem hún gjörir ráð fyrir, að peníngar sèu tíundaðir, en getur ekki ætlast til, að sömu peníngarnir eða peníngaverðið sè tíundað af tveimur, þ. e. bæði af lánardrottni eða enum rètta eiganda (sem tíundina ætti að bera) og skuldunautinum (ɔ: í þeim hluta jarðarverðsins, sem lánspeníngum annarra nemur); enda virðist mèr aungu líklegra eða hættulegra, að menn skrökvi uppá sig skuldum, enn að þeir dragi tíundarfèð undan, þareð viðlagður sálnhjálpareiður og lagastraff (fyrirskip. 17. Júlí 1782 § 3, og opið brèf frá 1. Sept. 1786) eru jafnöflug meðöl á móti hvörutveggju; en þaraðauki eru veðmálabækurnar, með öðru fleiru, veðskuldunum til upplýsingar[1]); að öðru leiti er ekkert náttúrlegra, enn að bóndinn greiði tíund af eignar- og ábýlisjörð sinni (að því leiti hún að lögum og söluskilmálum er tíund bundin) sem hann hefir mest notin og gagnið af, og það gjörir hann með enn ljúfara geði, hafi hann áður uppbótarlaust goldið hana af annarra eign, sem leiguliði.

Til 8. Hvört það nú er af ótta fyrir öfund annarra og óvild, eða fyrir þjófum og ránsmönnum, að ráðvandir dánumenn á stundum geyma peninga

[1]) Sbr. ritgjörð Thorsteinsons bls. 46—47 og 58, og rit Haldórs Sýslumanns Einarssonar: *Om Tiendeydelsen i Island*, bls. 163.

sína, eins og ófrjálsa muni, í fylsnum eða grafna í jörðu, læt eg ósagt; en hitt er víst, að þetta ráð, til að komast hjá öfund meðbræðra sinna, er hvörki þeim nè hlutaðeigendum sjálfum betra eða heilladrýgra enn öfundin. Sjálfur hefir peníngamaðurinn eingin not af auði sínum, ámeðan hann liggur grafinn í jörðu eða notalaus, og meðbræðrum sínum eða mannlegu fèlagi, sem hann á auðin eða peníngana að þakka, sýnir hann vanþakklætl og vanrækt, ef hann, þegar ú liggur, lætur þá missa við svo allskostar velkjörinna meðala til heillavænlegra fyrirtækja, sem peníngarnir eru, og það þótt hann einmidt megi sjá sèr skaða búin af þvílíku brúkunarleysi þeirra. Peníngamaðurinn hefir því vissulega fyrst gefið öðrum maklegt og fullkomið öfundar efni, ef hann lætur þannig penínga sína liggja brúkunarlausa. Enda á öfund sjaldnast heima nema hjá miður rètt þenkjandi mönnum, og má það þá vera ráðvöndum manni, sem einúngis á gjafara alls góðs, atorku sjálfs sín og velbrúkuðum handafla auðin að þakka, lítils varðandi, hvört heimskir og illviljaðir menn öfunda hann af honum eða ekki. Að öðru leiti er og vandsèð, hvörnig jarðeigendur skyldu fremur geta komist hjá öfund annarra manna enn eigendur veðskuldabrèfanna (veðeigendur); því væri nokkurr öfundsverður af velfengnum auði, þá ættu jarðeigendurnir að vera það þeim mun fremur, sem menn hèr enn sem komið er heldur girnast fasteignir enn veðskuldabrèfin.

Til 9. Væri það á nokkrum fæti bygt, að jarðeigendunum sè lagnari sparsemi og samheldni, enn þeim sem aungar jarðir eiga, eða eiga allan

auð sinn í peníngum, þá er það miklu verr farið, að hèr eru svo margir bændur, sem ekki eru jarðeigendur (ekki sitja á sjálfseign) enn þó að þeir fáu sem jarðir eiga afgángs (umfram ábýli sjálfra þeirra) seldu þær, en lánuðu hinum andvirðið og gjörðu þá (ena fleiri) með því jarðeigendur, þó sjálfir þeir (enir færri) yrðu ráðleysis- og eyðslubelgir. En eg þarf ekki að taka röksemd þessa frá þeim sem móti mæla veðsetníngunum. Eg vildi einúngis sannfæra þá um, að það er ekki jarðaeigninni að þakka, að jarðeigendurnir sýnast þeim sparsamari og samheldnari enn aðrir: Fyrst er það, að einginn hèr hefir af öðrum auði að segja enn jarðaeigninni og peníngum þeim, sem legið hafa arðlausir út um landið, svo það er þess vegna í sjálfu sèr atyllulaust, að eigendum veðskuldabrèfanna sè hættara við óhófi, ráð- og reglulevsi, enn jarðeigendunum, þareð hèr vantar alla reynslu annarsvegar, til að staðhæft verði uppá þetta. Eg ímynda mèr þar á móti, að reglusemi og sparsemi — þó peníngabrúkun vor í rann og vern leiði til hvörugs — eins hèr og annarstaðar sem optast sèu auðnum samfara, í hvörju helzt sem hann kynni að standa. Jarðaeignin er með öðrum orðum öllu heldur afleiðíng af, enn meðal til, reglusemi og sparsemi. Hið gagnstæða: reglulevsi og eyðslusemi eða óhóf er ekki lengur að gjöra ríkismenn eða jarðeigendur örsnauða, enn reglusemi, iðni og sparsemi að gjöra öreiga að jarðeigendum eða ríkismönnum, sèu þeir að eins nógu ráðvandir til að ávinna sèr hylli og traust hinna efnugri; og að dygðir þessar fái áorkað því,

er oss nú sem bezt leidt fyrir sjónir í ennm fyrr greindu Tveim æfisögum. Það voru þessar 3 dygðir, sem Franklín setti efstar a dygðalista sinn, það voru þær sem hann og Óberlín einkum lögðu allt kapp á að innræta löndum sínum, með spurningum og heilræðum, er áunnu svo mikið gott hjá fèlögum og löndum þeirra, með þeim aldrei of opt lesna "auðnuvegi" eus fyrrnefnda, og á allar aðrar lundir; og varð þeim báðum að því sem Franklín tjáði sig fullvissan nm, "að iðni og reglusemi leggja beinastan veg til velgengni og virðínga; að sparneytni veitir stöðuga heilsu og eykur þrek líkamans; að iðni og sparsemi gefa snemma ríkuglega atvinnu og efni, láta manni auðnast að ná þeirri þekkíngu, sem getur gjört mann að nytsömum fèlagslimi þjóðar sinnar og alls mannkyns; og að einlægni og ráðvendni útvegi sèrhvörjum traust meðbræðra sinna" ("æfisögur" bls. 31, 41 o. v.). Það er að vona, að fleiri enn Franklín hafi orðið þess áskynja hjá sjálfum sèr eða öðrum, "að ein dygðin beini veg til annarar" ("æfisögur" bls. 39), eða að reglumenn t. a. m. bráðum hafi komist uppá iðni og sparsemi, og að ein dygðin með annarri þannig hafi hjálpast að til að auðga þá, hvört heldur með jörðum eða á annan veg, þó byrjað hafi þeir með litlum eða aungum efnum; en þegar manni er orðið hið góða eða dygðirnar að vana, kemur það fram sem Franklín einnig sagði: að bæði verður hægra að halda þeim við og að fjölga þeim ("æfisögur" bls. 38—39), og er það þá meir enn náttúrlegt, að sá sem einusinni hefir vanið sig á sam-

heldni, reglusemi, iðni eða sparsemi ekki leggi dygðir þessar af, þegar þær eru búnar að auðga hann, eins og það er næsta auðskilið, hvörnig og hvörsvegna samheldni og sparsemi verður samfara jarðaeigninni — þeim eina gróða vegi að kalla sem ennþá er til í landinu — ef svo er.

Það er mèr óskiljanlegt, að hið venjulega landaura eptirgjald jarðanna heldur hvetji til samheldni og sparsemi enn peníngagjald. Eigi að safna til nýrra jarðakaupa af eptirgjaldinu — og til þess er því hèr varið af ríkismönnunum — þá er auðsèð, að hvörki verður það snúnínga- nè kostnaðar-laust (láti ekki landsdrottinn leiguliða hafa fyrir því frekar enn skylda hans er til eptir tilskip. 15. Maí 1705 § 5), þareð jarðir þó sjaldnast munu seldar eða keyptar fyrir landaura; þessvegna verður að flytja þá til kaupstaðarins. Verði þeim ekki komið þar út nema móti vörum (sem opt ber við og mun við bera, ámeðan framfarir vorar ekki eru meiri enn enn eru þær, og vèr ekki betur reynum fyrir oss, hvörsu lángt vèr komumst, án þess að vera uppá aðra komnir), er ekki annars kostur, enn að reyna að koma þeim út við landsmenn sjálfa, eða máske gripa til þess neyðar úrræðis, að láta bjóða þá upp til sölu, eins og konúngsjarða afgjaldið, því færstir landaurar verða geymdir óskemdir, eins og peníngarnir, þángað til fleiri verða til að falast eptir þeim. En vilji menn eigi að siður heldur kjósa þetta gagt fram og aptur með landaurana, sem mèr ekki getur skilist annað enn eptirgjaldið öllu fremur hljóti að rírna við enn vaxa, er þeim, eins og áður er á vikið, innan handar, að taka vöxt

fjár síns í landaurum, eins eptir veðskuldabrèfin og eptir jarðirnar. Eigi eg annars að vitna til reynslunnar í þessu efni, þá staðfestir hún það aunganvegin í Danmörku, að peníngamenn ekki sèu þar eins samheldnir eða sparsamir og jarðeigendur vorir. Eg má þvertámóti fullyrða, að ríkismennirnir þar sèu lángtum sparsamari og samheldnari enn hèr; því auk þess, að dygðir þessar, eins þar og annarstaðar, eiga sèr einkum stað hjá efnamönnunum, af þeirri náttúrlegu orsök, sem þegar var getið, tel eg það styðja sparsemina næsta mjög (án tillits til kostnaðar þess, sem meðferð og sala landauranna hèr leiðir af sèr fyrir efnamennina, og sem ríkismenn Dana að öllu leiti komast hjá með veðskuldabrèfa eigninni), að þurfa ekki að safna nema svo sem 50 eða hæst hundrað Rbd. (sem ávallt veitir hægt að koma á laga rentu, þar sem peníngalán og veðsetníngar eru í gengi) til að fá laga ávöxt fjár síns, á móti mörgum 100 Rbd., sem menn hèr hljóta að safna til, uns nóg er orðið til að kaupa jörð, þá nokkur er föl. Eg trúi ekki öðru, enn að þetta skipulag vort og landsvani hamli mörgum frá að safna að sèr peníngum eða að spara þá, þó þeir annars hefðu huga á því, ef greiðara væri hèr aðgaungu til að græða á þeim; að margur einn leiguliðinn hiki eða gefist upp við að safna saman peníngum fyrir leigujörð sína, einmidt af því að hann á svo lángt í land með það, og getur þar að auki ekki gjört sèr von um styrk annarra, ámeðan peníngabrúkun vorri hagar þannig, og að margur vinnumaðurinn og vinnukonan gefi frá sèr að halda saman vinnukaupi sínu, og eyði því til óþarfa skarts og

kaupstaðar glíngurs, af því einginn vegur er fyrir vinnufólk hèr á landi að hafa ávöxt vinnukaupsins eins og annarstaðar er siður til, áður enn það fer að eiga með sig sjálft, sem seint eða aldrei verður með þessu háttalagi.

Það er og öllum í augum uppi, að freistnin er öllu meiri, til að eyða eða brúka peníngana til óþarfa, þar sem þeir liggja alltaf fyrir, eða því lengur sem verður að geyma þá brúkunarlausa, enn þar sem þeim, jafnóðum og þeirra er aflað, er varið til gagns og nota. Eptir því sem lengur stendur á að safna til jarðakaupanna, enn til veðskuldabrèfanna, og eptir því sem hægra er að taka til þeirra penínga, sem geymdir liggja, þángað til þeim loksins verður komið í jörð, enn til hinna, sem varið er til veðskuldabrèfanna, eptir því virðist mèr, samkvæmt hlutarins eðli, vera hættara við eyðslu peníganna og ósamheldni með voru háttalagi, enn þar sem peníngalán og veðsetníngar viðgángast, og það eins fyrir jarðeigendurna og hina sem aungar jarðir eiga. Og eigi sparsemi vor og samheldni, eins og nú er hún, að metast í samjöfnuði við aðrar siðaðar þjóðir, hvar öll önnur peníngabrúkun er við höfð, þá ætla eg að vèr verðum færstra eptirbátar í misbrúkun efnanna eða eyðslusemi yfirhöfuð. Því trúir einginn, hve miklu hèr er eydt til óнýtis, vegna vanþekkíngar og óráðs í búnaðarháttum utan húss og innan, fremur enn annarstaðar og sèrílagi í Danmörku, og væri það nóg efni í heila bók, fyrir þann sem með kynni að fara. Öll þau meðöl, sem minkað geta erfiði og fyrirhöfn, eða aukið vinnu magnið og fullnægt lífs nauðsynjum manna, eru

undir eins hin mestu og beztu sparnaðarmeðöl, og er öðrum þjóðum því ætíð mest umhugað að afla sèr þeirra, og þau eru það sem oss svo mjög vanhagar um. Með allrahanda tíma- og verkdrýgjandi áhöldum og aðferð leikur efnamönnunum í Danmörku fyrst og fremst hugur á að undirbúa og irkja jörðina, svo að hún gefi þeim sem ríkastan ávöxt. Vèr þarámóti látum peníngana liggja í náðum og jörðina með óumhirdta, af því vèr hvörki þekkjum nè notum áhöld þau og aðferð, sem bezt eru lögnð til að fá sem ríkuglegastan ávöxt jarðarræktarinnar, en gjörum oss í lund, að vèr græðum á peníngunum, ámeðan vèr með þessu háttalagi margfaldlega eyðum þeim ávexti, sem þeir, rèttilega brúkaðir, gætu gefið oss. Vèr verðum að fá korn að, og aðra lífsbjörg, fyrir geypi verð, sem vèr annars gætum hjá komist, en sem líf vort nú ríður á, af því vèr reiðum oss uppá aðra, en leitum ekki lags til að hjálpast við það, sem jörðin og sjáfar útvegurinn með hyggilegri rækt gætu látið í tè. Þetta er nú sú eyðslusemi vor, sem að vísu minnst ber á, en þó mest er í varið, og er hún peníngabrúkun vorri, að eg ætla, fyrst og fremst að kenna. Eins skilst mèr sem hið sama ólag í peníngabrúkun vorri gángi apturförum vorum og vanþekkíngu í búnaðarháttum samsíða til að efla og auka hið eiginlega óhóf, sem er innifalið í ofneyzlu alls munaðar varnaðar, og eg sè ekki betur, enn að sú ástæða sem eg nýlega færði fyrir því af hlutarins eðli, staðfestist af reynslunni; óhóf þetta og eyðslusemi kemur hjá oss singanngu fram í ofneyzlu matar og drykkjar, í óþarfa skarti og útlendum klæðaburði, og fer það dagvax-

andi, einsog enar útlendu mat- og drykkjuvörur, sem vèr á fyrri öld annaðhvört ekki þektum, ekki þurftum við, eða *tókum hjá sjálfum oss*, en nú eru orðnar sannkallaðar nauðsynja vörur. Af útlendum matvörum nægði oss 1630 einar 5,046 tunnur; 1743 ekki minna enn tvöfaldt, 10,148 tunnur; 1779 ekki minna enn 14,855, og 1806 áttum vèr nóg með að komast af með 18,554 tunnur matar. En ekki eru neyzlu framfarir vorar minni í tilliti til drykkjuvaranna, kaffes, sykurs og annars sælgætis. Tóbak, brennivín og aðrar drykkjuvörur færðust oss fyrst að kalla á 17 öld, kaffebaunir og sykur fyrst 1772, en eptir 1700 lifðum vèr ekki af 1000 brennivíns tunnum árlega, 1779 ekki af 257 skp. tóbaks, 3,320 ℔ kaffes, og 8,644 ℔ sykurs, enda vantaði lítið á, að drykkjuvarnaðar-, kaffe, tóbaks- og sykur-salan í Grindavík, á Bátsöndum, í Keflavík, Hafnarfirði og í Hólminum jafnaðist við matvöru- og nauðsynja-kaupin yfirhöfuð á árunum 1777—1781; því á þessum 5 ára tíma var af fyrr nefndum 4 munaðarvörum selt fyrir 52,533 Rd., en af nauðsynjavörunum fyrir 80,136 Rd.; og var fólki þó 1806 farið að fallast svo miklum mun betur á tóbak, kaffe og sykur enn 1779, að þá þurftum vèr 238 skp. tóbaks, 8,608 ℔ af kaffebaunum og 15,500 ℔ sykurs, auk 8000 ℔ af sýrópi — alltsaman handa 4000 manns færri enn árið 1779; og er þá víst ekki ofmikið ílagt af Konferenzráði sál. M. Stephensen 1808, að drykkjuvörur þá árlega hafi kostað landið 46,000 Rd., (það er hèrumbil 1 Rd. fyrir hvörn mann) kaffe 5000 Rd., sykur og sýróp 10,000 Rd. og tóbak 19,000 Rd.; tilsamans, auk alls óþarfa kramvarnings

80,000 Rd. árlega. Sjá Eggers *Schilderung*, bls. 446—48 og M. Stephensens *Island i det 18. Aarhundrede*, bls. 434—40.

Það væri ómaksins verdt, að sjá hvar þessu eyðileggjanda óhófi nú er komið hjá oss, og að gjöra samjöfnun ámilli eyðslusemi meðal Dana og vor að tiltölu og eptir fólksmegni, hvað tèðar 4 munaðarvöru tegundir snertir; en á því hefi eg því miður eingin fanng, enda munu oss nú vanta til þess nauðsynleg áhöld. Samt þori eg, bæði af þessum átyllum, árferðinu og kaupverzluninni síðan 1806, (undirrins og af eptirtekt minni í Danmörku og hèr á landi) að gjöra þá ályktun, að oss nú hvörki nægi það af þessum eða öðrum munaðar vörum, heldurenn af útlendum matvörum, sem oss nægði þá, einsog að bændur Dana yfirhöfnð ekki eyði öllu meiru í drykkjuvörum eða sèrílagi í brennivíni, tóbaki, kaffe eða sykri, enn enir íslenzku, þó þeir hafi allt þetta með hægra og ódýrara móti enn Íslendíngar, enda sjálfir afli brennivíns og tóbaks, og þó þeir almennt hafi fleiri penínga handa ámilli enn vèr; þarámóti spara þeir öllu síður enn vèr hvað annað, er telja má meðal varanlegri lífs unaðsemda, vandaðra bygginga, verkfæra, húsgagns og klæða. En þó að til þessa sè varið meiru fè, enn einber þörf sèrhvörs og nauðsyn útheimtir, er það lángtfrá alltíð eyðslusemi, og aldrei önnur eins og sú, sem kemur fram í ofneyzlu matar og drykkjar. Öllum þeim hlutum sem vèr sækjumst eptir, af því oss finnast þeir gómsætir, er með öllu eydt og sóað, undireins og þeim er rent niður. Hina þarámóti, sem eru oss til gleði eða unaðsemdar

ásýndum, má nota lengi, ef ekki til sannarlegs gagns, þá samt til gamans og skemtunar, gleði og ánægju; Og þetta er í sjálfu sèr peníngu virði. En það er ekki einúngis þessa vegna, að peníngum er lángtum betur varið til þessara unaðsemdanna enn hinna: Sá sem lætur meira eptir sjónarlaungun sinni — að eg svo að orði komist — enn smekk, bindur sig í því einhvörri reglu, sem fljótt nær til allra hans gjörða. Sè hann t. a. m. gefinn fyrir skart í fatnaði, hlífir hann sèr sem optast við slarki og áflogum, og er í öllu hreinlegri og þriflegri fatanna vegna; eins er það hús optastnær fágað og þrifalegt, sem annaðhvört er skrautlega bygt, eða hefir álitlegar hirzlur og húsgögn að geyma, o. s. frv. Það er með þessu aunganvegin meint, að vèr þurfum að fara í kaupstaðina eptir álitlegum fatnaði — að minnsta kosti hefi eg fyrir mitt leiti átt gersemis treyu úr vaðmáli — heldur enn dönsku bændurnir, sem sjálfir vinna sèr í alla vega lit vesti, treyur og frakka. Sá sem þannig kostar nokkru til þess, sem yfirhöfuð má heita þokkalegt, verður ekki einúngis vandur að aðbúnaði og áhöldum öllum, heldur og að verkum og öllu framferði sínu, og með reglusemi þessari í öllum heimilisbrag verður enda framferðið sjálft, ef ekki ráðvandara, þá samt lögum (eða reglu) samkvæmara. Þessi aðgætni og reglusemi er þeim optastnær með öllu fráleit, sem meira er hneigður til sællífis enn til að hafa góðan og álitlegan aðbúnað; óhóf í mat og drykk veit sèr eingin takmörk, það er ekki einúngis eyðileggíng peninga án alls gagns og nota, heldur sóar það kröptum líkama og sálar, og gjörir manninn óhæfan til að

vera sèr eða öðrum til gagns eða nota, óhæfan til alls annars enn að eta og drekka eins og skynlausar skepnur. Höfum drykkjusvallarau fyrir augum, og sjáum hvört ekki kemur allt þetta heim. Því siðaðri sem þjóðin eða maðurinn er, þess hættara er honum við að verja meiru enn þörf og nauðsyn krefur til ens þokkalega, því ósiðaðri, þess meiru til ens gómsæta. Eg drekk tómt vatn með miklu meiri ánægju í þrifalegum bóndabæ, þar sem eg hefi þokkalegan stól að sitja á við laglegt borð, og álitleg húsgögn í kríngum mig, enn eg drekk kaffe, vín eða púns þar sem halda má fyrir nasir sèr af illum daun og óþrifnaði, því þetta er til merkis undireins um hvörttveggja, eyðslusemi, og regluleysi bóndans, en hitt um þrifnað og reglusemi ef ekki líka um sparsemi hans. Og hvað skal segja um brúðkaupin og erfisdrykkjurnar hèrna meðal vor? kemur þar ekki fram, það sem Franklín segir í auðnuveginum: "hinn heimski heldur veizlu, en hinn vitri lætur bjóða sèr"? kostar ekki frumbýlíngurinn einatt mestu af bústofninum til brúðkaups veizlunnar? og getur það þókt öðruvísi enn heimskulegt háttalag, að lifa í glaumi og setjast við át og drykkjur, þegar náúngi manns er naumast kominn í jörðina? eg fyrir mitt leiti er alls annars hugar, þegar eg kem heim frá greptrun þess er eg elska, enn að eg geti fellt mig við slíkar veizlur.

Þannig hefi eg nú yfirvegað þau atriðin, sem einna helzt eru talin til málsbóta, og sýnast kynnu að mæla fram með peníngabrúkun vorri og hamla veðsetníngum eða brúkun peníngauna af öðrum enn sjálfum eiganda þeirra; og ætla eg nú af hugleið-

íngum þessum í augnm uppi, að það sè rang ímyndan, að óþörf jarðaeign yfirhöfuð sè landsdrottni, landseta, eða landi og lýð eins hagkvæm eða arðsöm og eign veðskuldabrèfanna.

Peníngar eru sèrhvörjum verkamanni ómissanlegir: þeir eru það hjálparmeðalið, sem einginn, er kosta vill erfiði og fyrirhöfn til nytsamlegra fyrirtækja, fær án verið (*nervus rerum gerendarum*). Án peninga liðsinnis getur einginn lagað, hjálpað við eða fjölgað bjargræðis vegum vorum, til sjáfar nè sveita: og er þá öllum auðráðið, hve áríðandi landinu og innbúnm þess rètt brúkun peníinganna er, og hlýtur að vera, þó ekki verði með öllu sèð, hvörjum og hve miklum framförum bjargræðisveganna hún geti hèr til leiðar komið. En sèrílagi getur einginn efi verið á því, að (jarða) veðsetníngar eru það einasta og kröptugasta meðal til að efla og fjölga sjálfseignum bænda, sem þó einginn með rökum fær synjað, að hljóti að vera allra þjoðheílla og velgeugnis uppspretta og grundvöllur, eins hèr sem annarstaðar. Ímyndan sú, sem sumir hafa, að jarðirnar á endanum lendi hjá enum fáu ríku eða efnuðu ættkvíslum landsins, í hvörra eign þær áður voru, þó allar kæmu þær um stund í eign ábúendanna, getur ekki átt sèr lengri aldur enn peníngabrúkun sú, sem hún hefir við að styðjast: því einsog reynzlan sýnir, að einstöku landsetar, án annarra tilstyrks, eru færir um að kaupa jarðir, svo eru jafnvel meiri líkindi til, að veðsetníngar og peníngalán geti stuðlað til sjálfseignar útbreiðslu bænda hèr framar enn annarstaðar, og sèrílagi í Danmörku, þareð margir

auðugir þjóðfjár sjóðir og ómyndugir eiga þar mikin, já mestan hluta penínga þeirra, sem landbúarnir hafa að láni, veðsetta í jörðum þeirra. Hèr þaramóti komast menn af (ámeðan ekki fleiri selja og kaupa eða gjöra jarðarbætur) án liðsinnis þessara penínga. Vèr þyrftum þeirra því ekki einusinni við, til þess að gjöra alla vora bændur að eigin eignar bændum, ef þeir sem lánað geta (: jarðeigendurnir), þegar þeir í þess stað eru orðnir penínga eigendur, vildu gjöra það; því varla get eg gjört ráð fyrir færri penínguum í landi hèr sem stendur, enn sem svari þeim þriðjúngi, sem borga ætti úti hönd, ef þjóðjarðirnar allar væru seldar sem eptir eru óseldar[1]).

Hvörr, sem ann föðurlandinu framfara og heiðurs, getur þá valið að vera að safna að sèr jörðum, í stað þess að lána dugnaðar- og atorkusömum landsetum penínga sína, til að kaupa fyrir ábýlisjarðir þeirra, og það mót lagarentu og óhultu veði í þeim og öðrum munum skuldunautanna? Í öllum siðuðum löndum og sèrílagi í Danaríki hefir það verið landstjórnaranna alvarlegasta ósk, að láta landsbúana fá eignarráð, hvörn yfir sinni ábýlis jörðu, og hafa þeir ekki vitað annað betra nè vissara meðal til þess, enn að gefa þeim sem með

---

[1]) Eptir Skúla Landfógeta Magnússyni (Fèlagsr. IV. bls. 176) mun ennþá vera óhætt að herma, að á öllu landinu finnist 5000 tuttugu hundraða jarðir. Geri maður nú að sjöttúngur þeirra sèu þjóðjarðir og að hvört hundrað kosti 16 Spesíur, eru það samtals hèrum 166,720 Spesía virði, og þriðjúngurinn af því (sem út ætti að borga) 55,573⅓ Spesíur.

þurftu kost á peníngaláni, mót veði í eigu eða hýlum þeirra. Með þessu móti er allur þorri enna dönsku bænda og landsbúa orðnir eigendur ábúðarjarða sinna, og þeir sem til þekkja, hafa sèð óútsegjanlegan ávöxt í framförum akuryrkjunnar og allrar atvinnu, sèð að jarðarrækt og endurbót bjargræðisveganna er sú undirstaðan allrar þjóðar velgengni og þjóðfarsældar, sem aldrei bifast, standi einúngis eigineignar notkunin öllum opin. Og lætur það þá að líkindum, að oss sè næsta áríðandi að komast niður á

## VI. TIL HVÖRRA GAGNSMUNA PENÍNGARNIR GETI ORÐIÐ, SÈ ÞEIM VARIÐ TIL JARÐARRÆKTAR HÈR Á LANDI.

Þó vèr sèum nokkru norðar á hnettinum enn Danir, og fósturjörð vor sè hrjóstugri enn kornlöndin fyrir sunnan oss, er hún samt ekki svo vanþakklát, að láta ekkert ásjá við hyggindi, sparsemi og nýtni, atorku og ástundun búendanna og sèrílagi eigandans, og því má ávallt og hvervetna treysta, sem Ólafur Stiptamtmaður Stephánsson sagði, að "jörðin fer með okkur eins og við með hana, hvört heldur vel eða illa", og ber jafnan ávöxt ræktarinnar, jafnvel í óárum enum mestu, nema áföll vilji til, sem einginn fær að gjört. Það getur því síður leikið efi á, að líf vort og landsgæfa sè undir jarðarræktinni komin, og að oss því umfram allt annað megi vera annt um hana, sem land vort á lengra aðdrátter og minni hjálpar von enn önnur

lönd, þegar neyðina ber að. En það er hvörttveggja, að jarðarræktin aunganvegin ætíð, eða allstaðar fer eptir jarðar- eða lands-gæðum, enda er það líka svo opt sagt og sannað, að land vort að sínu leiti sè eins fært um og eins vel lagað til að fæða oss og klæða, og önnur lönd aðrar þjóðir, ef betur væri á haldið[1]). Þar sem landkostur eða jarðvegur er í ólagi og órækt, má færa hann í lag og rækt, bresti ekki ástundun, framkvæmd og efni til þess: — Þetta er oss hvörgi betur sett fyrir sjónir enn í "tveimur æfisögum," með dæmi Óberlíns prests hjá Steindælum, enda er oss ekki heldur svo allrar atorku varnað, að hennar ekki sjáist hèr neinar menjar; og þess eru eins ljós dæmi á Íslandi og annarstaðar: að það er optastnær framar komið undir mannanna verkum enn náttúrunnar, að jörðin beri þeim ávöxt, þar sem hún annars getur tekið nokkurri rækt. Mönnunum er gefið vald yfir jörðunni og hugvit og efni til að vekja hulið megin hennar til lífs og verkana. Heppnist það ekki, er það sjaldnast jörðunni að kenna, heldur einmidt vanbrúkun eða brúkunarleysi meðalanna, hugvits manna og efna. Menn eiga sèr í frjófsömustu landsplázum opt ekki málúng matar, þó aðrir í mögrustu sveitum hafi alls nægtir; og ber það til þess, að hinir fyrri ætla að jörðin fæði þá fyrirhafnar- og kostnaðarlaust, en enir síðari, sem eru allrar annarrar trúar, leitast

[1]) Sjá meðal annars Eggerts Ólafssonar *Reise* bls. 9, o. v., *Olavii Reise* bls. 3—5, o. v, og ritgjörð Biskups Dr. Hannesar "um mannfækkun af hallærum á Íslandi" Fèlagsr. XIV, einkum § 84.

við að bjarga sèr, eða að hirða um jörðina með atorku þeirri og efnum sem þeim er auðið, og hvar svo er komið hugarfari og viðleitni landsbúanna að efla heill sína, þar er þeim óhætt fyrir sulti og seiru, enda í þeim hygðarlögum, sem mest hafa orðið útundan hjá náttúrunni eða skaparanum.

Það er með svo mörgu móti að menn geta gjört sèr jörðina nytsama, og hin huldu fjörmögu hennar eru svo margbreytt, að færstum er auðið að þekkja þau öll, eða verkanir þeirra, eða meðöl þau og aðferð sem bezt eiga við til að hafa þeirra not; en það vitum vèr allir, að jarðarræktin hjá oss getur komið fram við maturtagarða, tún, engjar, beitiland eða haga, og við skógana. Eg hefi í upphafi hugvekju þessarar og víða hèr að framan bendt til nokkurra ritgjörða, sem segja oss til vegar, hvörnig bezt skuli rækta landsnytjar þessar. Þann arð og ágóða sem tilhlýðileg ræktun þeirra gæti áunnið landi og landsbúum, fæ eg hvörki sèð nè sagt, enda er það ekki tilgángur hugvekju þessarar; einúngis má eg geta túnaræktarinnar, og hvarfla augum yfir, hvörsu ávaxtarsamur sá fjárstofn geti orðið, sem til hennar er varið.

Þó dæmin, enn sem komið er, sèu næsta fá um verulega jarðarrækt meðal vor, má samt þegar kalla reynsluna til vitnis um, að sá sem til túnasléttunar og girðínga hefir kostað erfiði og peníngum, hefir aldrei gjört það til ónýtis. Hann hefir ekki einúngis árlega aflað betri töðu, fyrir miklu meiri penínг, heldur og ræktað og unnið túnin með miklu minni fyrirhöfu, á miklu skemri tíma og með miklu færra

fólki enn áður; og einginn er sá, sem ekki taki undir með Ólafi Stiptamtmanni Stepháussyni, er hann kveður þannig uppúr (í Fèlagsr. VI. bls. 53—54) í harmatölum um þúfurnar: "Hvað mega þúfurnar heldur heita enn pínubekkur karls og konu, er um heyskapartímann, full af kappi og vilja, fá þó aungu duglegu verki af stað komið, þá þúfurnar mæta þeim þúsundum saman? á túna girðíngu, slèttun og hirðíngu ríður því mikið, eigi þau kraptafulla og notagóða töðu af sèr að gefa, en undir því og aungu öðru er komið allt vetrargagn kúa vorra, og nokkuð af sumargagninu ásamt" o. s. frv. Mig skortir bæði þá reynslu og greind, sem útheimtist til ánægjanlega að geta leyst úr þeirri ennþá ósvöruðu spurníngu Húss- og Bústjórnar fèlags vors, á mótinu 5. Júlí 1837: "hvör að sè nytsemi þúfnaslèttunar og túngirðínga, í samanburði við aðra atvinnu vegi?" enda á heldur ekki þvílík úrlausn við hugvekju þessa nè hennar fyrirætlaða ummál; en eg vona að þessari áríðandi spurníngu, áður enn lángt um líður, verði svarað af einhvörjum landa vorum, sem með meiri reynslu og greind í þesskonar efnum hefir betri tök á því, og lætur sèr vera nógu annt um að fræða oss með úrlausn hennar[1]) svo að vèr allir komum

[1]) Til þessa hafa þegar margar góðar ritgjörðir í Fèlagsritunum rudt vegin, svo sem: Jóns Sýslumanns Sveinssonar ens ýngra um vallarrækt; Sigurðar Stúdents Pèturssonar um áburð og mykju; Sèra Markúsar Eyólfssonar um heyannir; Jóns Sýslumanns Jakobssonar um mjólkurnot; Magnúsar Sýslumanns Ketilssonar um innilegu búfjár á sumrum og um heyhlöður;

til sömu viðurkenníngar um þúfnaslèttunarinnar og túngirðínganna mikla not fyrir alda og óborna, bæði í samanburði við aðra atvinnuvegi og sèrílagi, eða í samanburði við meðan túnið var ógirdt og óslèttað. Um þetta seinna hefir að sönnu Jón bóndi Helgason í Garði suður, í ritgjörð "um þúfnaslèttun og túngarðahleðslu" § 1—3 (í Búnaðarr. 1. B. 1. D.) gefið nokkrar athugasemdir, bygðar á reynslu og landslagi ábúðarjarðar hans; en þareð bæði lands- eða jarðar-lagið, frábrugðið háttalag í ræktinni yfirhöfuð og margar aðrar kríngumstæður, gjöra meiri og minni mismun ávinníngsins, hvört heldur í ávexti, tíma eða vinnu, ætla eg ekki hèr sè ofaukið eða oflángt frá efninu, að birta sameiginlegt álit merkismannanna Jóns hreppstjóra Jónssonar á Elliðavatni í Gullbríngu sýslu og Guðmundar bónda Þorvaldssonar á Háfafelli í Borgarfirði, um þetta yfirhöfuð og hvað tún sjálfra þeirra snertir sèrílagi; hafa þeir að bón minni látið mèr það í ljósi báðir í sameiníngu:

Í verka og tíma sparnaði má, eptir lögun þýfis og ásigkomulagi, gjöra ráð fyrir, að 3 eða 6 slátturmenn ekki slái stærra þúfna reit enn 1 maður

Ólafs Lektors Ólafssonar um matartilbúníng af mjólk, fiski og kjöti; enn þó einkum Skúla Landfógeta "Sveitabóndi", með viðbætirum og athugasemdum; Ólafs Stiptamtmanns Stephánssonar rit um gagnsmuni af sauðfè, um not af nautpeníngi, um hesta, um sjáfar afla og vatna veiðar og um jafnvægi bjargræðis veganna á Íslandi; einnig Stephans Konferenzráðs Thórarensens um gagnsmuni heyskapar og kornafla á Íslandi.

á sama tíma þegar búið er að slètta, eða að sami maðurinn ekki gjöri betur, enn að slá þá dagsláttuna í 3–6 daga í þýfi, eptir því sem þýfið er til, sem hann slær á einum degi á slèttunni. Við alla eptirvinnu, svo sem: ljárakstur — þar sem ekki er síbreiða af sjálfu sèr eptir ljáin[1]) — snúníuga, samrakstur, sætíngu og hirðíngar, verður munurinn enn meiri, og èr þar óhætt til að taka 3 til 7 verkamenn, eða 3 til 7 sinnum svo lángan tíma fyrir 1 mann í þýfi (eptir lögun þess) ámóti einum verkmanni á jafnstórri slèttu. Þeir sem haldið hafa kaupafólk um sláttin vita bezt, hve miklu kaupi og fæði til þess er varið, og hve mikils ágóða er von, þegar fækka má sláttumönnum vegna túnaslèttunarinnar, svo sem nú var sýnt. Líku gegnir með aðra túnavinnu (sbr. Jóns Helgasonar ritgjörð § 1 og athugasemdina þar við, og við § 9) og má nærri geta, að aðferðin sjálf og verkfærin[2]) ekki gjöra lítin mun, t. a. m. við túna áburð

[1]) Á Háfafellstúni kveðst Guðmundur víðast hvar slá og breiða á undireins, og spara með því öldúngis rakstrarkonur; þarf einúngis að laga lítið eitt rifgarðana með orfinu, um leið og maður gengur tilbaka fyrir skárana, má svo á eptir, um leið og snúið er síbreiðunni, laga hana enn betur. Með þessu móti geta allir staðið að slættinum ámeðan á honum stendur, svo að allt komist sem fyrst til að njóta þerris, þegar hann er, eða blástrar, í upphäfum múgum (sem bráðum skal betur lýst) á túninu, og er hèr við einúngis athugaverdt, að ekki sè slegið úr og í.

[2]) Að þetta hvörttveggja einnig varði miklu við sjálfan sláttin, gefur öllum að skilja: hvört t. a. m. slegið er með sömu ljáum á slèttu og í þýfi; en þó er hèr framar

og hreinsun, hvárt færikvíar eru brúkaðar (allrahelzt á mosagefnu túni, hvar þær helzt eiga við), og verkfæri sem bezt eiga við slèttlendið, svo sem hjólbörur, einkum hvar hæarforir eru viðhafðar, sem allstaðar ætti að vera, að ráðum Jóns Helgasonar í § 9 (shr. Atla 12. Kap.), og við sláttin, hvört menn brúka lánga og sterka ljái og hansmiklar hrífur, líkt og Danir[1]). Það mætti enn fremur sæta næsta miklum sparnaði, ekki einúngis á viðar- og steinkolum, heldur og á tíma

eingaungu haft tillit til landslagsins eða þúfnanna og lögunar og ásigkomulags slèttunarinnar á hvörjum stað. Að öðru leiti er nú Fjölnis 5 ár, bls. 50, eptirá til sannindamerkis um álit þeirra Jóns og Guðmundar, er þar er haft eptir Eiríki Sýslumanni Sverrissyni (á hvörs greind allir geta reidt sig) að í Mýra sýslu slái 1 maður þann reitin slèttaðan, sem óslèttaðnr þurfi 6 sláttumenn á jafnlaungum tíma; og eptir Sæmundi hreppstjóra Steindórssyni á Auðsholti í Ölvesi (sem byggir á eigin reynd), að hann ætli 1 ámóti 3, og er þetta þá minnst í lagt að allra þessara merkismanna áliti; gjörir þá Jón Helgason yfirhöfuð oflítið úr verka ávinníngi slèttunarinnar, er hann (í § 1) tekur (til dæmis) 2 ámóti 5.

[1]) Án þess að Guðmundur á Háfafelli þekti hirðíngar hrífur Dana, hefir hann af eigin hugmynd búið sèr til aðrar eins, til að brúka við töðu hirðingar á Háfafells túninu. Eru þvílíkar hrífur skaptlángar, hausmiklar og sterkar, og eru, til enn meiri transtleika, með stífum (álmum) frá hausnum svo sem miðjum hvörjumegin gats og uppá skaptið beggja megin, en hausinn má þá vera svo lángur sem vill, þó ekki lengri enn í lengsta lagi faðmur, og eru hrífur þessar að sönnu helzt karlmanna meðfæri, en eins hentugar á hvörju slèttlendinu sem er til að sveifla flekkjunum saman í skyndi.

og verkum, ef menn hèr vildu leita lags með, að leggja liáina á stein, eða brýna þá með eikarspítu sem drepið sè í tjörn, yfirstráð með sandi og síðan smurð með tólg, eins og kennt er í ritgjörð Ólafs Lektors Ólafssonar "um ljáa deingslu á Íslandi" (í Fèlagsr. X., shr. Ólavii ferðabók bls. 580) og tiðkast sá enn síðari deingslumáti hvervetna hjá Dönum. Það er og fyrir satt haft, að heyið þorni helfíngi fyrr á slèttu enn í þýfi, og að það verði hirdt óhrakið og vel verkað, jafnvel í mestu óþerra sumrum, þar sem það í þýfinu hlýtur að liggja undir skemdum. Óskaráð er það haldið, þegar svo ber við, að raka heyinu saman, þó ekki sè það nema svo sem grasþurt, og hafi ekki legið nema svo sem viku tíma og á sjálfum túnvellinum, að lana það, eður að hlaða saman í uppháfa múga, lagaða eins og sykurtopp, 6 eða 8 hestum í hvörn, og sè því svoleiðis jafnhlaðið og efstu faungin söxuð, svo að vatnið renni af löninni; má hvörju viðra sem vill og skal heyið þannig blása og þorna, að það að eins með lítilli glámu verði hirðíngar þurt, nema kollurinn og botninn, sem þá má þurka sèr á parti eða hlaða í nýa lön. Svona hagaði Guðmundur á Háfafelli sèr (eptir dæmum þeirra Sèra Markúsar Eyólfssonar og Ólafs Stiptamtmanns Stephánssonar, sem kennt hafa aðferðina í ritnaum um heyannir og not af nautpeníngi, Fèlagsr. II. bls. 73 og VI. bls. 64, o. v.) óþerris sumarið 1835, þegar allir aðrir enn hans líkar urðu að fella fè sitt óþerranna vegna; og var það bæði að verkið var fljótt unnið, er ekki þurfti annað enn að vöndla heyinu saman með stóru hrifunni og hlaða því á

tèðan hátt, enda var hann líka eins það árið og hin birgur af vel verkuðu heyi, svo alla mátti furða.

Í tilliti til ágóðans má gjöra sèr von um 2 eða 4 kapla af slèttuðum reit, sem ekki gaf nema 1 kapal af sèr áður enn hann var slèttaður, allt eptir sem þýfið er vel eða miður ræktað, grýtt, flögótt o. s. frv. Á Elliðavatni, hvar túnin annars víðast hvar eru greiðfær og lengi hafa verið í góðri rækt, telur Jón hreppstjóri sèr eigi að síður hálfu — eða alltað tveim þriðjúngum — meira heyfall af þeim reitunum í því, sem hann hefir slèttað, enn áður enn hann lèt slètta þá. Það er og eptirtektaverdt, hvað góð rækt yfirhöfuð, túngirðíngar og slèttanir hafa frjófgað túnin á Vatni, að heyfallið af þeim um 25 ár hefir fimmfaldað sig, eður vaxið frá 50 til 250 hesta, og getur ennþá vaxið, þegar allt það er slèttað sem slètta má. Háfafells túnin, sem eru 14 dagsláttur á stærð, gáfu af sèr, áður enn þau fyrir 18 árum síðan komu í eign og rækt Guðmundar bónda, 40 til 70 hesta eptir því sem áraði, eða í meðal ári rúma 50 hesta, en nú, þegar búið er að girða þau og slètta, falla af þeim, eptir því sem í ári lætur, 150 til 200 hestar, eða í meðalári 175 hestar, og er þó athugandi, að eptir svo stuttan tíma geta þau ekki öll verið komin í fullkomna rækt, því túna slèttun og girðíngu á Háfafelli varð eigi aflokið allt í einu, og þurfti því lengri tíma fyrir fáliðaðan mann, sem þau voru stórgrýtt og því að miklu leiti varð að sprengja steinana, en það tók bæði mestan tíman og marga blettl úr túninu, sem steinarnir

urðu að liggja á um gróðrar tíman — að því leiti slèttað var á vorin — uns þeim á næsta vetri varð ekið á klaka til ens rètta legstaðar þeirra í bæar- og húsaveggjum, túngarðinum eða tröðunum; það er því líklegt að túnið allt ekki geti verið fullræktað enn sem komið er, og ámeðan nægan áburð vantar á það allt, enda er túnið áburðarfrekast fyrstu árin eptir að búið er að slètta það, svo ekki veitir af að kappbera á það í næstu 5 ár, ef það á að ná rækt þeirri, gróða og ávexti, sem það getur náð, og er allt að 90 taðhestum ekki haldið ofborið á dagsláttuna fyrstu 2 árin, ámeðan jörðin er sem gljúpust, og tekur bezt við áburðinum[1]); vilji maður því sjá allan ávöxt verka sinna og kostnaðar, sem orðið getur, verður að vanrækja þýfðu reitina ámeðan enir slèttuðu eru að ná þroska, og til þeirra er varið þeim áburðinum sem til er, ef hann annars eigi verður svo notaður og drýgður, að nái á allt túnið að þörfum þess[2]). Þannig má fullyrða, að

[1]) *Johnsson Etazráð skoraði á við leiguliða konúngs á Norðurlandi, að þeir bæru árlega 40 eða 50 taðhlöss á hvörja dagsláttu vallar, og ferr þá nærri, að svo miklu meira megi bera á nýslèttað tún sem Jón og Guðmundur segja.*

[2]) Meðal enna einka nytsömu byggíngarskilmála, sem þeir *Stiptamtmaður v. Barðenfleth og Etazráð Johnsson* hafa sett landsetum konúngs, er sá eina: "*að drýgja áburðin með öllu þènanlegu sem fengist getur, svo sem, þáfnamoldu og veggja, lýngi, laufi, þángi, mnði, rudda, gólfflögu, troðnum húsaskófum, sorpi, ösku, hlaðbleytu og öðrum bæar óþverra, sem allt færist í mykjuhauganna, hvörjum velja skal vand-að stæði, þar sem lögur ekki getur frá runnið*". Um allt þettu gefa ritin um vall-

ávöxtur þúfnaslèttunar og túngirðínga, ef hyggilega er að farið, geti orðið miklu meiri enn Jón Helgason tjáir sig haft hafa; en einsog aðferð og nýtni í túnarækt og vinnu eptir að slèttað er, að miklu leiti skamta ágóðan, svo álíta og þeir, sem mig hafa frædt, óumflýanlega nauðsynlegt, að túnið sè girdt, hvar girða þarf, áður enn það er slèttað, svo gripir ekki gángi á því[1]); eins líka, að menn vandi slèttunina sjálfa, en ekki hroði henni af að hauda hófi — eins og mörgum verður á — ef hún á að koma að varanlegum notum, enda kveðst Guðmundur á Háfafelli sjá mikin mun á útliti og ávexti af því sem hann slèttaði fyrst af túni sínu, og því sem hann eptir hetri æfíngu seinna slèttaði, en þótt hann, áður enn hann byrjaði, væri búinn að sjá handaverk Etazráðs sál. Ísleifs Einarssonar á Brekku á Álptanesi, sem hann og Jón hreppstjóri á Vatni í einu hljóði játa að gefið hafi þeim tilefni og uppörfun til eptirbreytni á Háfafelli og Elliðavatni. Þessi ógleymanlegi vinur lands vors, sem ekki þókti niðurlæging í, en miklu heldur gleði og ánægja, embættisstarfanna á milli, að standa aleinn að túnaslèttuninni á Brekku, fèkk þannig ekki einúngis

---

arrækt, áburð og mykju og um not af nautpeníngi í Fèlagsr. ánægjanlega og nákvæmari ávísun.

[1]) Um þetta ber öllum saman; þannig telur Jón sýslumaður Sveinsson (Fèlagsr. I. bls. 169) "túngarða fyrstu grein og atriði í hvörs manns búskaparreglum", og að vitnisburði Ólafs Stiptamtmanns Stephensens "kemur öll vor hirðusemi um tún til lítils, sèu þau eigi umgirdt með gripheldum görðum" Fèlagsr. VI. bls. 53.

laun verka sinna, að því leiti tún hans, sem ekki gaf honum nema hálft annað kýrfóður eptir 4 sláttumenn þegar hann tók við því, að 15 ára fresti gaf af sèr 6, og seinna — þegar allt var komið í fulla rækt — 8 kýrfóður, eptir 1 sláttumann á jafnlaungum tíma[1]), heldur og hafði þá gleði að sjá aðra eins menn og Jón á Elliðavatni og Guðmund á Háfafelli, sjálfum þeim og föðurlandi sínu til heilla, breyta eptir og færa sèr aðburði hans við túngirðíngar og sléttanir í nyt; er Jón hreppstjóri alræmdur bæði fyrir jarðarrækt sína yfirhöfuð, og aðra framtaksemi, hyggindi og fjölhæfi í hvörju sem er, en Guðmundur er í áhuga og atburðum jarðirkjunni með öllu háður, síðan Etazráðið sál. gaf honum eptirdæmið og vakti þánka hans og áhuga um þá mest áríðandi jarðarbót og landsnot þau og heillir sem þar af leiða.

Báðir þessir merkismenn telja það loksins mikilvægan kost sléttunarinnar, að heyfallið (eins og Jón Helgason hefir minnst á í § 3) verði (eptir ásigkomulagi þýfisins) miklu betra að gæðum af sléttuðu enn þýfðu túni, þar sem lèmýs og mold úr þúfunum blandast í heyið, enda er þúfna heyið líka að öðru leiti miklu kostaminna, megra og lakara til fóðurs enn það sem aflast á velræktaðri sléttu[2]),

[1]) Fyrir þessu hefi eg sögusögn ekkjufrúr Etazráðsins sál.

[2]) Einnig kemur Jóni og Guðmundi saman við Ólaf Stiptamtmann í þessu (Félagsr. VI. bls. 53); og er það að líkindum, að þeir ekki hafi verið ófúsari á að taka heilræðum þessa þjóðmærings og læra af honum hyggindi í

einkum hvar sleglð verður tvisvar, svo að ekkert vaxi yfir sig; og er það til marks um að gras sè fullsprottið til sláttar, að það er ekki komið í fræ, en rótin þó farin að taka gulum lit[1]), og slær Guðmundur á Háfafelli þá túnið, þegar grasið er orðið svona, í fyrsta sinni nokkru fyrir venjulegan sláttutíma, og annað sinn hèrumbil þrem vikum síðar[2]). Þessu kemur hann nú einúngis við þar, sem túnið er bezt ræktað og aldrei skortir nógan áburð; fær hann þá venjulega 20 hesta í fyrra slættinum en 10 í eptirslættinum af dagsláttunni, sem áður að eins gaf 4 þrotalètta töðuhesta[3]). Sæi hann því færi á að jafnbera á allt túnið eins og á þessa reitina, sem hann til reynslu hefir kappborið á, til að sjá hvörr ávöxturinn getur orðið, gæfi þetta 14 dagslátta tún 14 beztu kýrfóður eptir sig[4]) eða hèrumbil 420 töðuhesta árlega; en með því utantúnsslægjur á Háfafelli eru næsta litlar, færir hann ekki einúngis

búskapar efnum yfirhöfuð — er þeim svo næsta kemur ásamt um túnræktina við hans uppbyggilegu rit þar að lútandi — enn túnaslèttunina af Ísleifi Einarssyni.

[1]) Þetta er og að ætlun Ólafs Stiptamtmanns, (samast. bls. 54—55), og ræður hann yfirhöfuð til að byrja fyrr sláttin, "eigi seinna enn þá 10 vikur eru af sumri, með vaxandi túngli, er háin þá sprettur miklu fljótar."

[2]) "Eptir Augúst mánuð liðin notar ekki að slá tún í seinna sinn", að dómi Ólafs Stiptamtmanns (samast.).

[3]) Kemur þetta að sínu leiti heim við það, sem Ólafur Stiptamtmaður fèkk í fyrra og seinna slættinum af túni sinu (samast. bls. 55).

[4]) Atli 9. Kap. tjáir enda mega fá meira enn kýrfóður af eyrisvelli túns.

fram kýr, heldur og lömb og ær á töðunni, og sèr við það hag sinn, því framgenginn gemlíngur, sem fengið hefir 1 töðuhest til fóðurs á vetri, kvað vera á rek við hvörn trævetran sauð, en ærnar mjólka svo undrum sætir; og ber Guðmundi í þessum búnaðarhætti saman við Björn sál. prófast Haldórsson, sem í Atla (Hrappseyar útgáfunni 1780, bls. 130—31 og 140) hefir fært dæmi til, hvörsu arðsamt það sè, að halda fè á góðri gjöf um vetrartíman.

Eg hefi hèr stuttlega drepið á arð túngirðínga og slèttunar, með tilliti til tíma- og verkdrýgindа, ens eiginlega ávaxtar og ávaxtar gæða, ekki af eigin viti nè reynslu, heldur af reynslu og eptir áliti annarra vitrra og hygginna manna, sem öllum er óhætt að trúa. Að setja á töðumagn það — hvört heldur nautpeníng, sauði eða hesta — sem þannig aflast með túnaræktinni, og sèrílagi við slèttun þeirra og girðíngar, gef eg í vald búmannanna, og svo þeir geti metið gagnsmunina af því eða ávöxtin, þurfa þeir einúngis að vita, hvörn árságóða þeir hafa af hvörju um sig, nautum, sauðum eða hestum, sem þeir vilja fóðra á töðunni. Konferenzráð sál. St. Thorarensen telur svo til, í ritgjörð sinni um gagnsmuni heyskapar og kornafla hèr á landi (Fèlagsr. XIV.), að góð mjólkurkýr, sem fái til fóðurs 560 fjórðúnga töðu (þ. e. 28 hesta, að vigt 20 fjórðúnga hvörn, sem mun vera næsta vel i lagt af tómri töðu) árlega mjólki 4800 merkur, sem hann verðleggur á 37 rd. 82 sk. (eptir þáveranda verði á fiski, smjöri og sýru, er gengi til viknfæðis eins vinnumanns, sem hann gjörir að kosti 53 sk. og að sè

jafnvægi 70 marka mjólkur til viku fæðis; verður þá mjólkur potturinn naumast á $1\frac{1}{2}$ sk.) auk kálfsins, sem hann metur á 27 sk., og varð þá kýrgagnið, þannig reiknað árið um kríng, samtals 38 rd. 13 sk., eptir því lága verðlagi, sem á landvörum var (í samanburði við núverandi tíma) árið 1791, er tèð ritgjörð var samin. Atli (bls. 119—120) færir til dæmis: að vel haldin meðalkýr, sem kelfdi seinast í October, mjólki 4016 merkur, gjörir svo úr ársnyt þessari smjör, skyr, osta og sýru, og ætlar til, eins og fornmenn, að smjörið í mjólkinni svari helfíngi, en skyr, ostar og sýra öðrum helfíngi verðs; og sannar með eigin reynslu, að úr 200 mörkum fáist 1 fjórðúngur smjörs, 50 marka rúm af skyri og 150 marka rúm af sýru, og fær þannig undan kúnni árið um kríng, þegar allri mjólkinni er til þess haldið, 20 fjórðúnga smjörs, 4 tunnur skyrs og 11 tunnur sýru, auk kálfsins; eru það nú á dögum nærfellt 20 spesíur fyrir smjörið, jafngyldi 4 rúgtunna (að dómi þeirra Skúla landfógeta og Konferenzráðs Thorarensens, sem telja skyrtunnuna korntunnu ígyldi (Fèlagsr. IV. bls. 191 og XIV. bls. 235—37) og 132 álnir á landsvísu (1 sýrutunna á 12 álnir eptir Búalögum): samtals (auk kálfsins o. s. frv.) framundir 100 rbd. r. s., eptir nú gyldanda almennu verðlagi tèðra vörntegunda. Að sönnu er í Búalögum (Hrappseyar útgáfunni 1775 bls. 28—30) haft eptir Biskupi Dr. Finni Jónssyni: að leigufær stritla mjólki um árið 1216 merkur, 6 marka kýrin 1751 og sú sem kemst í 8 merkur, sem þar er kölluð meðal kýr, ekki meira enn 2334 merkur; en eins og Skúli landfógeti telur það meðalkú, sem gefur

3284 marka ársnyt, um leið og hann færir dæmi til 6960 marka kýrnytjar, og Ólafur Stiptamtmaður (sem að öðru leiti ekki ber á móti Biskupinum) líka tilgreinir mjólkurkýr, sem gefið hafi 3122 merkur í ársnyt — svo var Konferenzráð Thorarensen fastur á því, að þær sem ekki mjólka 4800 merkur árið um kríng, sèu "úrkynja og slæmar eður og illa fóðraðar, nema hvörttveggja sè, og að kýr þær, sem mjólka skyldu 24 merkur á dag eptir burðin og eigi standa geldar um fulla 2 mánuði, þyrftu öldúngis ekki að verða svo fágætar eða sjaldfengnar, eins og orðið er, helzt á Suðurlandinu, hvar kúm er að almennu illa gefið, ef almúga manna sæist ekki svo yfir í misjafnri og rángri meðferð og háttsemi í rækt og uppeldi nautpeníngs, er jafnan ferr í vöxt"[1]. Látum þá svo vera, og setjum reikníngin niður allt að helfíngi við Atla, eða kýrnytina til 2334 marka, eins og Finnur Biskup ætlaðist til, og skilst mèr þá að ekki sè unnið fyrir gíg að heldur, þó nokkru væri kostað til að afla einn kýrfóðrinu meira.

Sè sauðfè fóðrað á töðunni (eða hvörju helzt heyi sem er) kemur flestum saman um, að ársgagnið megi verða ennþá meira enn af kýreldinu: Atli setur eina á á 2 útheys hesta, Magnús sýslumaður Ketilsson og Konferenzráð St. Thorarensen 2 ær og 2 lömb á $5\frac{1}{2}$ heyhesta, 20 fjórðúnga að vigt hvörn hest; nú sannar Ólafur Stiptamtmaður með eigin reynslu, að þegar kúamjólk gefi 20 fjórð. smjörs og 1 skyrtunnu, gefi sauðamjólk jafnmikil 36 fjórð. smjörs og 2 tunnur skyrs, auk annarra

[1]) Sjá Fèlagsr. VI. bls. 72—78 og XIV. bls. 243—46.

gagusmuna af sauðfè framar enn af nautpeníngi, sem hann setur fyrir sjónir í "Töblunni yfir fjárfjölgun og annan ágóða af einu ásauðar kúgyldi um 10 ár;" en Thorarensen gjörir, að ársgagnið af $5\frac{1}{2}$ töðuhestum, sem varið er til fóðurs fyrir 2 ær og 2 lömb, sè 32 merkur smjörs, 10 merkur ullar af ánum og 6 af gemlíngunum, þrjú kvartil af skyri, hálf tunna af sýru og 2 veturgamlir sauðir að hausti; og eiga þá fyrrtèðir 28 töðuhestar (560 fjórð. að vigt, eða kýrfóðrið) ætlaðir til fóðurs fyrir rúmlega 10 ær og 10 lömb, að geta gefið af sèr: rúmlega 8 fjórð. smjörs, 4 fjórð. ullar, $3\frac{3}{4}$ tunnur af skyri, $2\frac{1}{2}$ tunnu af sýru og 10 sauði veturgamla að hausti, og er þó við reiknúng þenna ennfremur athugaverdt, bæði að ekkert tillit er haft til ens rífara ábata af ullinni er hún er unnin í aðrar kaupvörur, og að smjörið undan ánum er tiltekið mikils til oflítið, eptir ætlun og reynslu þeirra Ólafs Stiptamtmanns og sèra B. Haldórssonar, sem telur til, að ærin um 3 mánuði mjólki 2 merkur á dag eður í allt 180 merkur, og 2 ær þá 360 merkur; úr þessari mjólk hefði, eptir reynslu Stiptamtmannsins, átt að koma $64\frac{2}{7}$ merkur af sauðasmjöri (þegar gjört er ráð fyrir með Atla, að 1 fjórð. fáist úr 200 mörkum kúa mjólkur) í stað þeirra 32 marka, sem reiknaðar voru[1]).

Konferenzráð sál. Thorarensen hefir í optnefndu riti sínu (Fèlagsr. XIV. bls. 158), hvar einnig er talið til, að á landinu sèu rúmlega 5000 20hundraða jarðir), sagt: að jafnmargar óræktaðar og ónotaðar

[1]) Sjá Atla, bls. 120, 131 o. v. Fèlagsr. V. bls. 80—82 og XIV. bls. 231—37.

dagsláttur (8100 ferhyrndar álnir hvör) eins og 20 hundraða jarðir eru í landinu, gætu, ef ruddar væru og ræktaðar til grasvaxtar, gefið því 112,734 rd. 36 sk. (eða 22 rd. 52 sk. fyrir hvörja dagsláttu); en hann ætlast ekki til meira grasvaxtar enn eins kýrfóðurs eða 560 fjórð. af 13,250 ferhyrnings álna velli, og 38 rd. 13 sk. ágóða af kýrnytinni, þegar henni er varið til fæðis einsog hún er; en hvílíkur arður mundi þá ekki landinu og sérhvörjum bónda af hvörju kyrfóðrinu sem honum hættist við sléttun og girðíngar nú á dögum, og eptir sem hèr er ráð fyrir gjört? — Þareð allir eru ásáttir um, "að hvärt það hross sem án má vera, sè óþarfasti gripur[1])," gjöri eg hèr ekki ráð fyrir, að heyskapar gagnið komi fram í vaxandi tölu hesta eða arðsemi, og læt mèr nægja i þessu tilliti að benda lesendunum til ritgjörðar Ólafs Stiptamtmanns "um hesta" i Fèlagsr. VIII. Bindini.

Þó hey sè sjaldnast haft í kaupum og sölum, og þessvegna sè náttúrlegast að verðleggja það, eins og hèr er gjört, eptir því gagni, sem skepnur þær er á því lifa gjöra manni, má nú þó líka sjá, hvörr ávinníngur geti orðið að heyafla, ef heyið er selt, sem að öðru leiti mun næsta óráðlegt, eigi völlin ekki að skorta áburð: — Málfaðmur töðu (mælihlass, $3\frac{1}{2}$ al. á hvörn veg, eða kýrfóðrið) er, eptir Búalögum, kúgyldisvirði. Að meta þetta til peninga eptir kapítulstaxta árs hvörs, eða sem það almennt gengur í kaupum og sölum — eg vil ekki miða við heyverðið hèrna í Reykjavík, eða á Suðurnesjum, hvar

[1]) Atli, bls. 142 og Fèlagsr. VIII. bls. 47.

kýrfóðrið kemst í 50 og 60 rbd. r. s. og þar yfir — er hvörjum auðgjört, og mundi þá ekki mikið ávanta, að Etazráð sál. Ísl. Einarsson og Guðmundur á Háfafelli enda á þenna hátt, með eins árs ágóða hefðu unnið upp allt sem þeir hvörr um sig höfðu kostað til túngirðínganna og túnslèttunarinnar á Brekku og Háfafelli, og yrði þó ávinníngurinn hjá Jóni á Vatni, þegar litið er til heyfallsins af túni hans fyrir 25 árum og núna, að líkindum ennþá meiri. En þó eg nú ekki vildi láta verkið borga sig á styttri tíma enn 2 árum, veit eg samt ekki til hvörs þessir menn betur hefðu getað varið sveita sínum og penínguum, enn til svo arðsamra og heilladrjúgra verka, sem með 2 ára ríkuglegum ávexti borgað hafa kostnað og fyrirhöfn, en auðga þaráofan og gleðja þá og þeirra, með 4 og 5 földum ávexti á ári hvörju, ómetanlegum ábata í tíð, verkalaunum og öðrum hagsmunum, og verða þeim ætíð hinn bezti minnisvarði, en eptirkomendunum og landinu hið kostulegasta dæmi og heillavænlegasta meðal til að efla almenníngs velgengni.

Nú hefir einnig sèra Tómas prófastur Sæmundsson, í fróðlegri ritgjörð "um fólksfjölgunina á Íslandi", gefið oss margar góðar hugvekjur (einkum á blaðsíðu 30—51 og 62—71 í 5ta ári Fjölnis) um ræktun haga, beitilands, útslægna og sèrílagi um túnagirðíngar, þúfnaslèttun og áburðar aukningu og þaraf leiðandi ágóða og erfiðislaun, svo öllu fleirum athugasemdum um þetta efni má hèr virðast ofaukið, því framar sem til er að geta, að ritgjörð þessi sè í flestra góðra

búenda höndum, þó ekki væru nú Fèlagsritin orðin það.

Það er sjálfsagt, að kostnaðurinn með túngirðíngu og slèttun er mjög misjafn, bæði eptir garðsefninu og ásigkomulagi þýfisins og verður hann því heldur ekki hèr ákveðinn; en mestan mun gjörir það, hvört bóndinn sjálfur vinnur að verkinu, eða hann leigir til þess aðra, því það er ætíð hægra og kostnaðarminna að vinna að heimaverkum öllum fyrir heimabóndan sjálfan, enn ef hann verður að njóta við liðveizlu annarra, þareð hann og fólk hans opt fær unnið að verkinu köflum saman, og svo að segja í hjáverkum, með litlum eða anngum kostnaði, í stað þess að kostnaðurinn eykst töluverdt, þegar valinkunnir verkamenn eru keyptir að til þess, og er þetta þó miklu ráðlegra, enn að garðinum sè hróað upp eða slèttunni hroðað af í þáukaleysi, af þeim sem hvörutveggju eru óvanir og — ef til vill — hroðvirkir. Guðmundur á Háafelli játar sjálfur, að það hefði verið honum ærinna penínga ígyldi, að kunna eins að slèttun túna þegar hann byrjaði hana og nú kann hann; væri því betur ráðið að þeir sem ekki gætu bygt trútt á hagsýni sjálfra sín og verklag, vildu kynna sèr ena beztu og hyggnustu aðferð við störf þessi, áðurenn þeir byrja þau[1]); en einginn er svo vesæll, að hann geti ekki sýnt

[1]) Til þessa er það næsta áríðandi og vel tilfallið, er Ól. Ólavíus í ferðabók sinni bls. 473 hefir þegar fyrir laungu stúngið uppá: að menn í hvörjum hreppi skyldu láta byggja garðspotta og slètta túngeira til eptirsjónar og eptirbreytni öllum hreppsbúum (prófgarða og prófslèttanir).

lit á þessari þörfu bónda iðn, og einglun sá aumíngi, að hann megni ekki að slètta svo sem gott flekkstæði á ári af eigin ramleik sínum, hafi hann að eins hugfast, að lítið land ræktað gjörir meira gagn enn mikið óræktað, og að hvör stundin, sem hann ver til túnaræktunar, sè honum peníngur og hvört handarvikið fjársjóður, einsog sjá má af nýsögðum dæmum. Verkið launar sig endalaust og ágóðinn af því kemur fram, ekki einúngis í heyaflanum, heldur og með mörgu öðru móti og á ymsa vegu. Þannig segist Guðmundur á Háfafelli hafa sparað mestan hluta kornvöru þeirrar er hann áður hlaut að kaupa í kaupstaðnum til heimilis síns, síðan túnaslèttunin fór að færa honum ávöxt, og hann þessvegna gat farið að hafa stærra bú, svo húið gat framfært heimilið með minna eða án alls tilstyrks annarstaðar frá; þarámóti kvezt hann árlega hafa leitað fjallagrasa, og hafi þau orðið sèr gott og nóg búsílag með gróða jarðarinnar[1]). Sú mun og raunin á verða, að sá sem fengið hefir vit og greind á kostum jarða vorra, og gjörir sèr jörðina svo nytsama sem honum er mögulegt í einu tilliti, nýti sèr kosti hennar í hvörju sem er, og spari það sem spara má, með tilstyrk þeirra, á alla

---

[1]) *Það er ekki óliklegt, að Guðmundur hafi fundið uppörfun* og ávísun til þessa í ritgjörð Skúla landfógeta "um samjöfnun á fjallagrösum og káli, með og móti mjöli, til drýginda í búnaði manna" (Fèlagsr. VI. bls. 172–74) og væri óskandi, að heiðarnar og maturtagarðarnir þannig gætu bætt fleirum á Íslandi söknuð kornakranna, sbr. *Olavii Reise*, bls. 175.

vegu, og má um þvílíka menn með rèttu segja, að þeir sèu föðurlandsins von og sómi[1]); einsog hinsvegar einginn, án hygginda og sparsemi, fær orðið því að liði eða eflt framfarir þess og heiður; og þó að ráðdeild og sparsemi eigi allstaðar við, og hvörgi megi án þeirra vera, ef vel á að fara, til sjós eða sveita, er samt jarðirkjan aðal uppsprettan hèr til allrar atvinnu manna og velmáttar í búi, fótur kvikfjárins og máttarstoð fiskiveiða og kaupverzlunar; hún er sá bjargræðisvegurinn, sem oss liggur mest nauðsyn á að bera umhyggju fyrir og leggja alla alúð á, ef vèr eigum að standa upprèttir stuðníngslaust. Hvar fáum vèr korn í kökur eða graut, ef ófriður kæmi uppá, sem hamlaði siglíngum híngað, og við hvað höfum vèr þá að styðjast nema við landbúnaðinn? Við hvað á kaupverzlunin að styðjast að sínu leiti nema við landgagnið, þegar lítið eða ekkert fiskast? Af hvörju á sjáfarbóndinn að lifa, ef ófriður og fiskileysi fylgjast að, nema af landvörunum, og hvört er yfirhöfuð að flýa í slíkum hörmúngum, nema til sveitabóndans? En hvað á hann að láta af hendi rakna við aðra, nema það sem hann aflar af jörðunni, og hvörnig eiga sveita- eða sjáfarbændurnir að vera við þessu búnir, nema þeir af fremsta megni kappkosti að irkja jörðina, svo að hún eingaungu geti framfært hvört heimili

[1]) Það er heldur ekki um skör fram, að áður greindir 2 heiðursmenn voru sæmdir af konúngi "ærulaunum iðju og hygginda til eflíngar almennra heilla" (þ. e. heiðurspeníngi með þessari áskript), og af landbústjórnar fèlagi Dana með sinum silfurbikarnum hvörr.

og þaraðanki sèu afgángsleyfar til hjálpar nauðstöddum og viðurværis í hörðu og óhappa árunum — og að vèr lærum að lifa án brennivíns, kaffes, sykurs og annars munaðar-varníngs og búðarglíngurs, ef ekki án kornvörunnar líka? Eg óska þarfyrir aunganvegin, að sjáfaraflinn sè afræktur, nè heldur að kaupstaðirnir líði undir lok eða missi nokkurs við; eg held þá þvertámóti landinn ómissandi, til þess það geti náð sjálfs ráðum og fullum þroska, og komist úr ómaga tölu; heldur einúngis: að oss flyttust eintómar verulegar þarfa vörur, að vèr keyptum sem mest af þeim, og að oss aflaðist æ meira og meira af jörðunni og sjónum til að geta borgað þær með, einnig að allir kaupmenn og allir bændur hèldust í hendur til að færa fram landgagnið, "sem viðheldur sjáfar aflanum og ber höndlunina í sínu skauti", eða fæðir hana og nærir. Með vaxandi jarðarrækt vaxa líka enar verulegu nauðsynjar, sem vèr aldrei fáum án verið, t. a. m. timbur, steinkol, járn, allskonar sjáfar veiðarfæri og annað, sem vèr þurfum að sækja til annarra landa, fyrir utan allt annað, sem hin almenna velgengni og þarmeð vaxandi þekkíng og hyggindi minna oss á, svo sem öll áhöld til þiljubáta og farmaskipa er vèr kynnum að hafa í förum, og hvað annað, sem rás tímanna, nýir atvinnuvegir og handiðnir og samtvinnan þeirra, samhöld og samverkan, betri siðir, athafnir og háttalag yfirhöfuð gjörir oss nauðsynlegt og að nýum þarfavörum; og með þessum hætti fær einnig kaupverzlanin ásamt tekið framförum og orðið kaupanda sem seljanda að verulegum vaxanda arði og áhata. En allt

þetta er aptur að mestu leiti, ef ekki eingaungu, undir því komið að jarðirkjan og túnaræktin sèrílagi taki framförum, og sè hún fyrst í lagi, kemur hitt annað af sjálfu sèr, því almenn hagsæld og velgengni, sem jarðarræktinni hvervetna — þar sem hún á við — er samfara, hlýtur að vekja lyst, vilja, áhuga og ræði til nýrra fyrirtækja og nytsamra athafna, þeirra sem nokkurs ávinníngs er von af[1]).

Þó hið góða eptirdæmi ekki ávallt hvetji oss Íslendínga til eptirbreytni sem skyldi, ferr samt ekki hjá því, að fólk yfirhöfuð fari að sjá hag sinn við betri jarðarrækt og meiri atorkusemi við hana, er þeir nú hafa dæmi þessi, sem frá var sagt, fyrir augum, og að sèrílagi þeir sem búa þarað eingaungu, sjálfseignarbændurnir, noti hvört það tækifæri og hvört það meðal, sem stendur þeim til boða til þess. Að sönnu eru áðurtèð dæmi einstök, og að vísu eru þær jarðir færstar á Íslandi, sem bera ábúendunum vitni um sèrlega eða framúrskarandi atorku eða dugnað, en þær fáu sem það gjöra munu þó optar (einsog Brekka, Elliðavatn, Auðsholt og Háfafell) finnast setnar af eigendunum sjálfum enn af leigliða. Skoðum oss um í Gullbríngu sýslu og Mosfells sveitinni og gætum að, hvört vèr yfirhöfuð finnum konúngsjarðirnar

[1]) Sbr. *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 108—109, 147—48, 156 og 398—99; *Olavii Reise*, bls. XVIII., 166, 402 og 663 - 64; Fèlagsr. I. bls. 192—93, VII. bls. 116—20, 123—30 og XII. bls. 1 o. f.; Eptirmælin, bls. 52; *Island i det* 18. *Aarhundrede*, bls 43, og Amtmanns, Riddara Thorsteinsons rit: *om Islands Folkemængde* etc. Kh. 1834.

þar eins vel setnar og sjálfseignar býlin, hvört ógirdt eða vangirdt, ræktarlaus og flögótt tún þar ekki optast nær eiga heima á konúngsjörðunum? Sama eða líku mun gegna annarstaðar, t. d. á Arnarstapa umboðs jörðunum, ef þær væru bornar saman við jarðir þær sem setnar eru af eigendunum sjálfum, og yfirhöfuð allstaðar, hvar leigu- og einkum þjóðjarðir verða teknar til samanburðar við sjálfseignar- og ábúðarjarðir bænda. Þeir sem þektu Skálholts jarðirnar áður enn þær voru seldar, og efna ástandið í Árness- og Rángárvalla-sýslum þá og nú, geta borið um, hvört ekki sè við söluna orðinn munur á hvörutveggju, og hvört sèrílagi þær af jörðum þessum, sem koma í eign ábúendanna, sèu verr eða betur setnar nú enn áður. Að ekki allir sitji leigujarðir sínar illa, eða verr enn þó sjálfir ættu þeir þær, og eigi heldur allir bændur eign sína og ábýli betur enn sumir landsetar leigujarðirnar, er að vísu óneitanlegt, en víðast hvar munu þó dæmin til þess ekki vera fleiri, enn sem svari einstöku undantekníngum frá almennri reglu, og þetta er mannlegri náttúru og allra tíma og þjóða reynslu samkvæmast[1]). — Öll þau verk sem

[1]) Meðal þvílíkra undantekuínga má þess maklega geta, að oss hèr í Reykjavík er gefið eitt hið eptirbreytnisverðasta dæmi um túnræktunina, af manni, sem hefir tún sitt að láni, og það máske ekki nema um stundar sakir, þar sem Herra Stiptamtmaður v. Bardenfleth naumast mátti heita stiginn hèr á land, áður enn hann tók þar við sem formaður hans hætti, og fór að láta girða og slètta Arnarhólstúnið (sem fylgir Stiptamtmannssetrinu, og hefir síðan haldið áfram slèttuninni (en Guðmundur

bíða ófengins ágóða, hljóta að vera verkamanninum, allrahelzt þeim sem litlu hefir að voga eða kosta

á Háfafelli hefir verið fyrirliði) og girðíngunni, með því meiri kostnaði sem björgum og stórgrýti hefir orðið að ryðja upp úr túninu og flytja af því. Þetta verk liggur nú fyrir allra sjónum, sem til Reykjavíkur koma; það liggur eptir útlendan mann, sem undireins er leiguliði, og sem, því miður, varla mun verða hèr svo lengi, að honum auðnist að bera upp arð þann eða peníngs ávöxt verkanna, sem hann á skilið og hann hefir til kostað; enda munu verk þessi vera stofnuð öllu síður í þessum tilgángi, enn af einhverum velvilja gegn landi því, hvörs inabúi og æðsta yfirvald hann er orðinn, og í þeirri von og sannfæríngu, að landið ekki einúngis nyti þeirra að arðinum eða ávextinum til, heldur einkanlega í því skyni, að þau mættu uppörfa innbúanna til eptirbreytni og annarra eins verka, sjálfum þeim og landinu til gagns og nota. Vèr ættum því, sjálfra vor vegna, ekki að synja honum um verkalaun þau, sem öllum góðum og nytsömum mönnum eru dýrmætust allra, að hafa sem mest not af hèrveru hans, ámeðan hún varir. — Það væri hörmúng, ef landið eða jörðin hvörgi nema umhverfis sjálft Stiptamtmannssetrið í Reykjavík gæti borið þess menjar, að Krieger og Bardenfleth eitt sinni voru hèr.

Ennþá eitt næsta lofsverdt dæmi um túnaræktina gefur nú einnig annarr útlendur maður og leiguliði í Reykjavík, Bernhöft bakari; hann tók til í sumar er var að rækta, slètta, færa út og umgirða túnskækil, er kominn var í mestu órækt, og sem hann, mót eptirgjaldi og endurbót, um nokkur ár hefir tekið að leigu af kaupstaðnum. Þessi starfsami maður gengur meðfram sjálfur að verki þessu, sem að vísu kostar hann töluverða peninga og fyrirhöfn, en honum hefir orðið það til mikils lèttis og verkdrýginda, að hann hefir ekið grjótinu í garðin á hjólsleða með einum hesti, og er þetta eitt með fleiru, sem oss ætti að

til verkanna, því óljúfari, sem óvissara er, **hvört og hve lengi hann fær ens óséða ágóða aðnotið**. Eigineignar bændur og jarðeigendur eru hèr í aungum efa eða óvissu einsog leigu-liðarnir; það er því undir þeirra fyrirmyndan, hjálp og aðstoð komið, hvört jarðarræktin nokkurntíma fær tekið framförum, sem nokkru skipti til velgengni lands og lýða. En fari **þeir** líka villir vega og á mis við eigin gagnsemi, er það þeirra að segja til leiðar hvört halda skuli, sem vegvísari eru og fróðari um not erfiðis þess og kostnaðar sem til jarðirkjunnar er varið. Það er þá hinn upplýstari hluti landshúanna og einkum **embættismennirnir**, sem eiga að **fræða og sannfæra** þá ena fáfróðari og trúarveiku, og "hjálpa

leika hugur á að taka upp eptir ennm útleadu (á slèttleadinu, í ísalögum á vetur og hvar því yfirhöfuð verður komið við), og ekki láta oss þykja fyrir að fara að dæmum þeirra í jarðarækt vorri. Hesturinn ekur meiru enn 6 karlmenn orka að aka á hjólsleða þessum, og mundi þó þurfa miklu meira mannafla ef bera ætti steinana í fánginu eða á hestum, eða og velta þeim; og virðist það vera nógur vottur um verkadrýgindin, að Bernhöft næstliðið sumar, í hjáverkum að kalla, fèkk settan fyrir tèðan túnskækil vænan 130 faðma tvíhlaðin grjótgarð, hvartil allt grjótið varð að flytja að erfiðisstaðnum. Það var því ekki heldur um skör fram, að konúngur með tilskip. 26 Febr. 1754 (í lögþíngisb. fyrir það ár) allranáðugast skipnði ianbúum landsins nð útvega sèr vagna og sleða til hægri verka við jarðarræktina, og ekki kyn, þótt hinn djúpsæri Konf. J. Eiríksson hèldi þá ómissandi, ef jarðarrækt nokkurntíma fyrir alvöru ætti að komast hèr á fót. *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 193—95.

landinu upp, ekki með stórgjöfum, heldur" — eptir undirlagi og ráðum Jóns Eiríkssonar Konferenzráðs (í æfisögu hans bls. 45) - "með uppvakníngu: að landið finni sína eigin krapta". Af þekkíngu og sannfæríngu um landsnytjarnar og not þeirra kemur vilji, laungun og ástundan til að færa sèr þær sem bezt í nyt, og það því ötulli, sem sannfæríng þessi er öruggari og á fastara fæti bygð. En hvað stoða hèr orðin tóm, ef eingin verður til að gánga á undan þeim enum fáfróðu með góðu eptirdæmi? höfum vèr ekki nóg og ypparleg búskaparrit, bæði í fèlagsritunum og annarstaðar, í öllum greinum landbúnaðar vors og sjáfar útvegs, og eru að heldur orðnir hèr betri búmenn yfirhöfuð eða betri bændur til sjáfar eða sveita? Hvað hafa sífeldar uppörfanir og ráðstafanir, bæði af stjórnarinnar og embættismannanna hálfu áorkað á þessa leið — enda þó flestum megi vera þær kunnar, bæði frá alþíngi og manntalsþíngunum — hvar eptirdæmið ekki hefir verið í verki með? og er það von, að almúgi trauðt verði sannfærður og seint vakni til eptirþánka, hvört heldur það er um gagn sjálfs sín eða annarra, þar sem hann hefir ekki verkin sjálf og afdrif þeirra fyrir augum. Þá fyrst rekur ekki einúngis ávinníngs vonin, heldur og einnig einskonar forvitni á eptir honum, til að hafa það eptir sem aðrir leika fyrir, og þá fyrst verður honum hrört þarfaverk skiljanlegt og lagið, hafi hann meðfram nokkra tilsögn, uppörfun og aðstoð, og þurfi hann ekki að gefast upp undir kostnaðinum. Aungum er hægra að vinna gagn með góðu eptirdæmi, enn em-

bættismönnum, hvörjum í sinni sveit: búendur í hvörri sýslu eiga jafnan erindi til sýslumannsins og enn optar sóknarmenn til prestsins. Hafi nú embættismenn þessir álit á sèr — ekki einúngis fyrir embættisfærslu þeirra heldur og — fyrir dugnað og framtakssemi í þrekverkum og þarfri bændaiðn — og það fá þeir fljótt, sèu þess sýnilegar menjar — hjálpast virðíng og elska að, til að bændur nýti og hagnýti sèr ráðaneyti þeirra, vegleiðslu og aðferð, í hvörju sem þeir eiga kost á. Um þetta fór Oberlín prestur ("þarfur maður í sveit", í "Tveimur Æfisögum") nærri, er hann tók sèr reku í hönd og var fremstur í flokki Steindæla við brúabyggíngar og vega ruðníng, sýndi þeim hvörnig áburð mætti auka og bæta með innilegu fjár og öðru móti, engjar græða út, vatni veita og yfirhöfuð bæta jarðvegin, einnig efna sèr til betri verkfæra og áhalda allra, sem jarðirkjunni bezt hagaði; og var það með þessari aðferð, að hann ávann það, er hann kostaði kapps um, að gjöra sóknarfólk sitt auðugt og farsælt! — Vildu allir vorir 220 prestar [1]) setja sèr dæmi hans fyrir sjónir til eptirbreytni, og einsog hann láta sannfærast um þá áríðandi kærleiksfullu truarjátníngu: "að það sè ómissandi, til að efla guðs ríki, að endurbæta fyrst líf mannanna hið ytra", og sýna ávöxt játníngar þessarar í verkinu. — Ó! hvílíkt happ stæði þá ekki svo fáum landsbúum af svo mörgum embættismönnum! — Það var varla alvörulaust spaug, þegar Konferenz-

[1]) Prestaköll eru hèr nú 181 og hèrum 40 kapellánar.

ráð Jón Eiríksson 1780 ritaði Dr. Hannesi Biskupi: "að hann á hvörri prestsvígslu og katekísation ætti að prèdika um kvarnirnar" (æfisaga Jóns Eiríkssonar bls. 140). — Hann hafði sýnt og um þær mundir meðal annars sannað: "að það er næstum eingaungu undir embættismönnunum komið, hvört nokkuð verður lagfært um bjargræðisvegina eða að nýu endurbætt og af stað komið" (Olavii ferðabók bls. XXXV, XLVIII, CLXXXVII; smbr. bls. 214); enda ætla eg, að vèr höfum Ísleifi sál. Etazráði Einarssyni öllu meira að þakka fyrir túngirðíngar hans og slèttun á Brekku, enn þó hann hefði ritað heila bók eins stóra og biblíuna um túnarækt, og mundi þó ritgjörð frá hans hendi um hana hafa orðið næsta þarfleg og þakkaverð.

En

## VII. ÞAÐ ER Í MÖRGU ÖÐRU ENN JARÐARRÆKTINNI, AÐ EIGINEIGNAR NOTKANIN ER LANDI OG LANDSBÚUM HEILLADRJÚGARI ENN LEIGUBRÚKUNIN.

Því það er ekki eingaungu vanrækt jarðarinnar, sem er vön að vera leigubrúkuninni samfara, heldur og aðrir fleiri ókostir, sem kúgun og ánauð hefir í för með sèr, svo sem: vankunnátta og óframsýni, leti, ómennska, hugdáð - og framtaksleysi, eyðslusemi og óhóf, húsaga - og stjórnleysi, regluleysi og óráð í búnaðarháttum, óþrifnaður,

örbirgð og þar af leiðandi niðurdrep allrar atvinnu og allra bjargræðisvega yfírhöfuð. Það er margreynt og sannað, að allt þetta einkum og sèrílagi á heima þar sem leigngóz eru, eða þar sem hændurnir (meðfram) vinna öðrum enn sjálfum sèr og sínum. Að sönnu er landsetum vorum hvörgi lögboðið að vinna' landsdrottni þeirra, eins og á festngózum Dana; en bæði er það, að opt bregður útaf, að landsdrottnar fari að lögum í viðskiptum þeirra við landsetana, og að dæmi munu gefast til, að þeir eigi að síður krefja þá um dagsláttu eða dagsverk, manns- og hesta-lán, fóður, hrísbest, og aðrar þvíumlíkar kvaðir; enda líka kemur það í sama stað niður, hvört leigulíði vinnur landsdrottni sínum eður jörðinni, þegar landsdrottinn, í stað þess að láta hann njóta fyrir það tilhliðrunar og ávinníngs, setur upp eptirgjaldið jafnóðum og jörðin tekur nokkrum bótum, eða gjörir leiguliða þá afarkosti, að þessi gefst upp undir leigumálanum og kostnaði þeim, sem hann ver til að rækta jörðina, og má loksins rýma fyrir eigandanum, eða yfirgefa hana vegna leigumálans, án þess að uppskera ávöxt verka sinna. Og þó ekki kveði svo ramt að ágengni hússbóndans, og enda þó jarðirnar sèu bygðar leiguliðanum æfilángt og ekkjum þeirra, verður samt aldrei ætlast til, að landseti irki og endurbæti ábúðarjörð sína, sem væri hún hans eign; því auk þess, að honum er máske ekki hægt að verja til þess svo miklu erfiði og peningum sem skyldi, eins og opt má nærri geta um frumbýlínga og fáliðaða bændur, hafa þeir og mikils til oflitla uppörfun til þess, þegar lands-

drottinn ekki vill sjá það við þá í neinu. Margir eru líka komnir svo til ára, áður enn þeir geta reist bú og fest sèr jörð, að þeir geta ekki gjört sèr eða ekkjunni von um svo mikin ágóða af kostnaðarsamri jarðarbetrun, sem launað geti sèr eða henni kostnaðin, þó þeim hèldist á jörðinni ámeðan þau endast til, hvað þau líka mega eiga undir hættunni og náð landsdrottins, hafi hann sjálfur frá upphafi bygt þeim jörðina (tilskip. 22 Júlí 1791). Njóti landseti nú ekki heldur forkaupsrèttar síns til leigujarðarinnar, ef hún verður föl til kaups, hefir hann næsta litla uppörfun til að gjöra jarðarbætur þær sem útheimta töluverðan kostnað, þar sem leiguliðarnir sem búa á konúngsjörðunum, fá að njóta jarðabótanna sjálfir og ekkjur þeirra, en þaraðauki hafa þeir meðal annars þann leigukost, að þegar annaðhvört harðnar í ári, eða einhvör sèrleg jarðarbót er gjörð, fá þeir enda opt afslátt og uppgjöf á landskuld og leigum[1]) og eru ætíð vissir um, að verða eigendur jarðanna fyrir sama verð og nokkurr annarr býður. Það er hörmúng, að svo fáir sem aungir konúngs landsetar sjá ábúðarkosti þessa við jarðirnar, heldur láta þær gánga af sèr og nýðast niður, jafnvel fremur öðrum leigujörðum, að undanteknum einstökum framúrskarandi dugnaðarmönnum, svo sem Jóni Helgasyni í Garði; enda er nóg orsök til þess, sè vel að gætt, bæði í slakri umsjón jarðanna, og fyrst og fremst í leigu-

---

[1]) Sjá *Olavii Reise* bls. LXXXVI o. v. og optánefnt rit Amtm. Riddara Thorsteinsons, bls. 144—46, 149, 152—53 og 155.

brúkuninni sjálfri og fyrrtèðum ókostum, sem hún hefir í för með sèr.

Jarðirnar hafa til skamms tíma, og sèrílagi áður enn farið var að selja Skálholts jarðirnar 1785, mestpart verið leigujarðir, með því líka að prívat- eða bænda-eignirnar hafa verið niður komnar hjá einstökum eigendum, og þeir því orðið að byggja þær öðrum. Af þessu hefir leidt, að búendurnir, þar sem allur þorri þeirra sat á annarra eign og bjó að líkum kjörum, hafa álitið sig hvörr annars jafníngja og "hvörr dregið dám af sessunauti sínum", en færstir hugsað hærra enn að halda við lífinu, eða vinna sèr og sínum fyrir fæði og klæðum, en láta jörðina gánga sèr til húðar, þareð þeir sáu, að þeir uppskáru ekki af henni allan ávöxtin, og að þeir stundum unnu fyrir gýg, já, eingaungu í annarra þarfir. Þetta "tómlæti, deyfð og framtaksleysi" hefir grafið ennþá víðar um sig, og af því sama háttalag ílendtist allstaðar þar sem orsakirnar voru enar sömu, en leigujarðirnar voru í öllum áttum flestar, var ekki við öðru að búast, enn að þeir fáu, sem jarðir áttu, eða eigineignar bændurnir sjálfir, fylgdu almennum sið og háttalagi hvörs bygðarlags, og er því ekki trútt um, að margir af þeim ennþá slái slöku við jarðarræktina, já, að sumum jarðeigendum ekki þyki minkun í að láta eins landseta sína og aðra eptir sèr heyra: "að þeim standi á sama hvörnig jörðin sè setin, fái þeir að eins eptirgjaldið með skilum"(!). Slíkir jarðeigendur eru átumein landsins, og það því hættulegri, sem þeir þannig kæfa niður lyst og vilja leigliðanna til þvílíkra verka og framtakssemi, sem einmidt miða til

landsdrottnanna eigin nota; og þó er það í rauninni ekki meiri furða hèr enn annarstaðar, hvar festujarðir eru, að gagn landsdrottins eða eptirgjaldið þannig riðar í bága við leiguliða gagnið eða jarðar notin, og að hvörr dregur sinn taum, landsdrottinn og landseti, einsog þeir hafa færi á, án þess að hugsa fyrir öðrum enn sjálfum sèr og sínum, þegar bezt vegnar; og þess er enda ekki von, sè jarðarræktin í ólestri, því af henni á bóndinn að fæða sig og klæða, en sè landgagnið ónógt til þess, æxlast af ræktarleysinu við jörðina — sem geymir fæðis og fata efnið í skauti sínu — "örbirgð"; en "fátæktin tekur burt hug og dug til að vinna; en vinnuleysi og úngdómsins vanaleysi til iðni er skaðlegri enn strángasta dýrtíð", að dómi Biskups Dr. Hannesar, í enu lærdómsríka riti hans "um mannfækkun af hallærum á Íslandi" (Fèlagsr. XIV. bls. 169), og um þetta munu flestir verða honum samdóma, sem taka vilja málið til eptirþánka og yfirvegunar. Nú er aungrar kunnáttu auðið, nema menn hafi huga á því, verji til þess dugnaði og iðjusemi og sýni reglu og ráðdeild; og þannig er vankunnátta yfirhöfuð, og einkum í búskaparefnum, ekki einúngis orsök til, heldur og afleiðíng af efnaleysinu, og hvörutveggju aptur landinu jafnskaðvænir sessunautar leigubrúkunarinnar (sbr. æfisögu Jóns Eiríkssonar, bls. 189). — Jón Eiríksson segir því ekki að orsakalausu (*Deo, Regi, Patriæ*, bls. 286—87): "að fátæktin, svo mikil sem hún annars er hèr á landi, sè þó ekki öldúngis ósigrandi. Hún atvikast einkum af því,

að tækifæri vantar til að geta notið auðlegðar þeirrar, sem náttúran hefir að bjóða, og allraheizt til að geta grædt nokkuð. Gefist fyrst þetta tækifæri, mun fátæktin sjálfkrafa hverfa, þegar fram líða stundir; gróða vonin mun þá án efa kveikja almennan áhuga og lyst til kapps og ástundunar, einsog ómögulegleiki til að geta grædt hefir slökkt hvörttveggja; og það því heldur, sem landið á geymd hjá sèr nóg auðæfi handa landsbúunum og ennþá fleirum, ef þeirra væri rèttilega leitað og með framsýni neytt"; og er þess að framan (bls. 75 skír. gr.) getið, hvörsu Jón Eiríksson sjálfur enn auðsjáanlegar hefir í ljósi látið, að hann fyrst og fremst ætlaðist til þessa af þeirra jarða ábúendum, sem eiga þær sjálfir. Og rennum vèr augum yfir það sem liðið er af þjóðarlífi voru, má einnig það sannfæra oss um, að eg ekki hefi á röngu að standa í þessu.

Flestum er kunnugt, að landirkjunni og búnaðarháttunum hefir farið hèr stórum aptur, og atvinnuvegirnir enda fækkað, síðan landið misti frístjórnina og kom undir konúngsvald; og svo lángt er frá að þetta sè að öllu táp- og framtaksleysi landsbúanna að kenna, að fljótt sá þann mun á búnaðarháttum þeirra og háttalagi yfirhöfuð, eins með tilliti til jardirkjunnar, sem annarra bjargræðisvega og atburða, að auðsèð var, að fólkið var ekki lengur eitt í ráðum eða landið sjálfs síns. Íslendíngar fóru bráðum að gefast upp við flestöll fyrirtæki sem táp og mannskapur var í. Þeir sleptu t. a. m. kaupverzluninni með landsvörurnar, sem þeir þángað til höfðu flutt sjálfir, við aðrar þjóðir.

Þá kom páfaveldið, sem skaut skýlu vanþekkíngar og fávizku fyrir allra augu, til þess enn óhultar að geta aukist og drottnað við annarra efni, er biskupar, ábótar og príórar höfðu mestan hugan á að auka kirkna og klaustra eignir, og með öllu móti svæla undir sig eignir og eignarumráð fólksins; en þetta varð eins affaraíllt þótt páfaríkið hèr tæki enda á miðri 16 öld, pareð dómkirkna og klaustra eignirnar komu undir konúng, og leiguliðarnir urðu eins margir eptir sem áður[1]. — En þó tók yfir, þegar farið var á öndverðri 17du öld að selja verzlunina (og landið) á leigu til verzlunarfèlaganna, og þrælbinda með því sjálfa oss og bjargræðis vegu vora undir ok útlendra verzlunarmanna, hvörjum einúngis var um það hugað, að auðga sjálfa sig með sveita vorum og útörmun. Þessi ánauð, um næstum 200 ár — ofaná niðurdrepandi 500 ára páfa - eða Biskupa - veldi[2], eða frá 1602 til 1786[3]) þá höndlunin hèr var gefin laus öllum þegnum Danmerkur ríkis — reið svo á slig hina fornu dáðrekki vora og þjóðarkjark, að

---

[1]) Sbr. *Deo*, *Regi*, *Patriæ*, bls. 73—79; *Arnesens ísl. Retterg.* bls. 426—27, 528—29 og 556—57; Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 1036—38 og *Eggers Schilderung*, bls. 218—22.

[2]) Eg tel frá 1057, þá Ísleifur Biskup fyrst settist að í Skálholti, og til 1557, þá siðaskiptin urðu.

[3]) Þau fáu árin af þessum, sem kaupverzlan var fyrir konúngs reikníng, var hún að vísu landinu að meira liði, enda þó mikið vantaði á, að hún að heldur þá yrði því það hún átti að vera. Smbr. *Deo*, *Regi*, *Patriæ*, bls. 79 o. v. og *Eggers Schilderung*, bls. 243, og 271 o. v.

vèr varla ennþá erum farnir að rakna við aptur eptir heilan mannsaldur (síðan 1786). En af þessu rís aptur allt það ólag, sem það hið almenna letibragð, deyfð og framtaksleysi í aðalbjargræðisveginum (ɔ: jarðarræktinni) fæðir og nærir, ámeðan leigubrúkunin, eða undirrót ens illa, sem viðheldur þessum ánauðar anda og ólagi, heldst hèr við einsog áður. — Landið framfærði áður enn það komst í ófrelsis ástand þetta, (og að sumra ætlun allt þángað til stóra bóla 1707—8 hreif fólk burt hópum saman) yfir 100,000 manns; það var sèr sjálft það sem vera þurfti, og bjargaðist við kosti sjálfs sín; menn leituðu, fundu og hagnýttu þá sem þeir bezt máttu, til heimilis þarfa og framfærslu; menn ólu t. a. m. almennt svín og geitur ef ekki gæsir[1]), er eingin nú þekkir hèr nema að nafninu tómu; bjuggu til osta[2]) og annað fleira til fæðis, fatnaðar og lífsnauðsynja yfirhöfuð, sem allt gleymdist og afræktist eptir sem landbúnaðinum fór hnignandi; menn þektu hvörki brennivín, tóbak, kaffe, sikur nè tegras, eða aðrar munaðarvörur og búðarglíngur, sem nú kostar landið annað eins, ef ekki meira, enn þarfa vörurnar; þeir stunduðu sela - lax - og silúnga - veiði í vötnum öllu fremur enn nú[3]),

[1]) Sjá Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 55. og ritgjörð um geitfè í "Ármanni á alþingi" 2 árg.; *Jónsbók*, þar sem talað er um geitur og svín, og Fjölnis 5ta ár, bls. 9—10.

[2]) Sjá sömu ferðabók, bls. 826 og *Olavii Reise*, bls. 633—34.

[3]) Sjá *Olavii Reise*, CXXVIII, 235 o. v. og Fjölnis 5ta ár, bls. 9—10.

og lögðu allt kapp og alúð á landirkjuna og öll þau meðöl er henni gátu fram fleytt; bygðu garða, ekki einúngis til vörzlu túnunum, heldur og til grasauka útí högum; hèldu um þetta og um landamerkin lögákvæðin þíng og stefnur á vissum árstímum (*Arnesens isl. Retterg.* bls. 329 og 408—9), já, afstýrðu skriðum og sand-ágángi með girðíngum ("skriðugörðum") er aungum eða mjög fáum nú kemur til hugar (ferðabók Eggerts Ólafssonar bls. 628); lögðu greiðfærari og hagaulegri vegu enn nú eru dæmi til (*Arnesens isl. Retterg.* bls. 453) og unnu sèr og landinu gagn með reglusemi, ráðdeild og framtakssemi (sbr. Fjölnis 5ta ár bls. 18—19). Sèrílagi kom ráðdeild þessi fram í stundun bjargræðisveganna: Sveitabændurnir vildu ekki missa sig að heiman frá landvinnunni, fjár- og jarðarræktinni, ætluðu og, að þeir aldrei svo gætu bjargað sèr bæði á sjó og landi, að ekki yrði annarrhvörr bjargræðisvegurinn lítt sóktur, eða báðir afræktir, og ágóðinn hálfur eða einginn af þeim báðum eða öðrum þeirra, einkum sjáfarútveginum, þar einginn fær skamtað sèr gæftir, nè heldur fisk, sè hann ekki fyrir; það þókti líka töf, fyrirhöfn og kostnaður ofmikill, að flytja fiskin úr verinu, þó nokkuð hlutaðist og hluturinn gæti komist óskemdur heim. Það voru því einúngis sjáfarbændurnir og lausir og liðugir einhleypir menn, sem leituðu fiskjar á sjónum[1]); og það sýndi sig, þegar þetta háttalag forfeðranna tók enda, og sveitabændurnir

[1]) sjá Eggerts Ólafssonar *Reise*. bls. 505—506 og Félagsr. VII. bls. 1—6.

fóru að sækja sjóin, að þeir urðu fyrir þeim ólag og vanhöldum, sem hinir óttuðust, og gjörði þá fráhverfa þessum bjargræðisvegi. Jarðarræktin fór að verða aptur undan: garðarnir hrundu og tún og engjar komust í vanrækt, grasið mínkaði, allur kvikfènaður fækkaði og fólkið með að því skapi, svo að ekki var nema litúrinn og leifarnar eptir af neinu[1]). Kammersekretèri Olavius (hvörjum Jón Eiríksson er samdóma) afmálar þetta ólag í notkun bjargræðisveganna, sem forfeðurnir svo viturlega sneyddu hjá, með vel völdum og sönnum litum, er hann (í ferðabók sinni bls. 214 og 325—26) tekur meðal annars þannig til orða: "En hvað stoðar að brýna not jarðarræktarinnar á Íslandi fyrir mönnum, þar allir sem vetlíng geta valdið fljúga að sjónum, til að góna á fiskiprisana, og láta jörðina ámeðan gæta sjálfrar sín, þángaðtil loksins afleiðíngarnar láta þá kenna á dáraskap þeirra í niðurbeygjandi örbirgð." — "Mèr virðist sveitabóndi eiga sveitabóndi að vera og sjáfarbóndi sjáfarbóndi, eða með öðrum orðum: að sá bóndi sem á lengra til sjáfarins að heiman enn svo, að hann kvöld og morgna, sumar og vetur hæglega nái til og frá báti sínum, og geti því ætíð stjórnað á heimili sínu, eigi ekki að róa út, þareð hann aldrei getur haft stöðug not af bjargræði þessu; einsog hins vegar að sjáfarbóndinn, vilji hann haga sèr að eðli bjarg-

[1]) Sjá *Deo, Regi, Patriæ*, bls. 27—29, 267—69; Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 335, 348—49, 506—508, 692—93, 737—739 og 1036—38; *Olavii Reise*, bls. 55, 166—68, 212—14, 324—26 og 654—61 og Fèlagsr. VII. bls. 141—160.

ræðis síns, öldúngis ekki eigi að gefa sig við landbúnaði, nema ef hann í hæsta lagi vill halda eina kú eða þarumbil, en búa við sjáfarströndina og að öðru leiti kaupa allt hvað hann með þarf af sveita bóndanum fyrir sjáfarafla sinn. Vèr þurfum einúngis að taka eptir hvílíkum tíma sveitabóndinn eyðir, er hann leitar fiskjar 4, 5 og fleiri mílur frá heimili sínu, til verferðalaganna[1]) og í hvörri óvissu hann er, að aflokinni ferðinni, um fiskigæftir og fiskilegur, sem og hvílíkt tjón og töf það er í landbúnaðinum, þegar ferðir þessar, sem opt ekki eru gjörðar á minna enn 14 eða fleirum dögum, verða til einkis. Sjáfarbóndinn þarámóti, sem notað fær sèrhvört það færi sem gefst til fiski-veiðanna, á hvörgi nærri þannig undir högg að sækja. Óregla þessi í báðum þessum bjargræðisvegum ætla eg hafi gjört mestan skaða á Íslandi á seinni tímum, og að óhagkvæmar fiskileitir, meðal annars, einkum hafi sligað landbúnað voru, án þess þó að hafa svarað fyrirhöfn á rek við landvinnuna, hefði hún verið tilbærilega stunduð. Þetta málefni er enda mikils umvarðandi fyrir fiskiveiðarnar sjálfar; því þegar landbúnaðurinn — sem nú næsta má óttast — er þannig af sèr genginn, að landvörur eru ekki framar afgángs til að halda þeim við, er ómögulegt að þær geti staðist."

Þetta ætti hvörr sveitabóndi að taka til alvarlegs eptirþánka, áður enn hann um haust, vetur og vor ræður af, að senda vinnumenn sína eða

[1]) Smbr. reikníng Skúla landfógeta yfir verferðakostnaðin í "Sveitabóndanum" Félagsr. IV. bls. 158—73.

fara sjálfur, stundum með mestalla eða beztu bærarbjörgina, til fiskiróðra lángar leiðir frá heimili sínu, í stað þess að brúka haust- og vor-tíman til túnasléttunar og garðahleðslu, til að skera fram engjar eða mýrar, eða veita vatni á þær, einsog forfeður vorir, og hinn (vetrar-) tíman til að vinna ullu, einsog Jótar, eða gjöra annað heimilis gagn, til hvörs nóg tækifæri bjóðast, þar sem landirkjan er komin á veg. Ólafur sál. Stiptamtmaður Stephensen, sem þó var sjáfarútveginum næsta meðmæltur (sjá Fèlagsr. VII. bls. 169—72) viðurkennir eigi að siður, að forfeðurnir í þessu hafi farið öllu betur að ráði sínu enn vèr (samastaðar, bls. 124—30 og 141—51), því hann sè þó stopulli enn landgagnið og uppá það kominn, enda gat hann ekki (árið 1784) sett meðal vertíðar hlut, frá kyndilmessu til krossmessu, hærra enn á 10 rd. eptir landstaxtanum, og á 15 rd. eptir höndlunartaxtanum (Fèlagsr. V. bls. 75); og væri það ólag, ef vinnumaðurinn ekki gæti gjört húsbónda sínum þetta gagn heima um svo lángan tíma, þó ferðakostnaður og annarr vertíðar kostnaður væru frá taldir. — Það er með þessu aungan vegin sagt, að sjáfaraflinn sè lítils virði: eg ætla þvertámóti, að hann sè landinu ómissandi, sè hann einúngis stundaður af þeim, sem hann hagar, og í því tilliti hafa sjáfarbændur öll önnur og betri kjör enn sveitabóndinn; eg held það því og sannarlegt gleði efni, að sjáfar útvegurinn á seinni árunum hèr sunnanlands hefir tekið svo töluverðum framförum, að einstöku sjáfarbændur eru farnir að ráðast í að kaupa og gjöra út þiljubáta til fiskiveiða, að dæmi Knúdtzons stórkaup-

manns, sem landið má fyrir það þakkir kunna, að hann fyrstur manna tók þetta upp hèr á Suðurlandi. — Það er í augum uppi, að þær einar sömu bjargræðisreglur geta ekki átt eins við öll heruð eða sveitir landsins; bjargræði Vestfirðínga er að mestu komið uppá sjáfaraflan, Suðurlandsins aptur ekki eins, en þó meir enn Norðlendínga og Austfirðínga; að þessu verða menn að gefa gætur og hafa vakandi auga á, ef vel á að fara og ef vèr eigum að ná í fótspor forfeðranna í jarðirkjunni, og það því heldur, sem hvör óreglan, sèrílagi í þeim bjargræðis útveginum (þ. e. jarðarræktinni) sem líf og vellíðan landsbúa ríður á, leiðir til annarar, ekki einúngis í landbúnaði öllum, heldur og í gjörvöllum landssiðum og athöfnum; það má enda fullyrða, að óregla og vansmíði jarðarræktarinnar hafi eingaungu ollað apturförnunum í búnaðarháttum og athöfnum yfirhöfuð, þar sem skæðustu landplágur, sem að vísu eiga mikin þátt í apturförum landsins yfirhöfuð (svo sem fjárpestin og eldgosin, sem aldrei snertu Vestfirðíngafjórðúng) ekki komu [1]). Á þvílíkum stöðum verður því varla heldur nein önnur orsök fundin til hnignunar jarðarræktarinnar og landbúnaðarins, enn einmidt ánauð fólksins og þaraf risið dáð- og framtaksleysi. Skoðum vèr nú þetta nákvæmar, og tökum til dæmis húsagan hjá oss núna, og áður enn pápiskan fór að narra jarðirnar hópum saman frá eigendunum til syndanna fyrirgefníngar, þá sjáum vèr, að hann varð hèr jafngamall reglusemi forfeðranna í jarðirkjunni, og að hann með eignarrètti

[1]) Sjá *Olavii Reise*, bls. 659—61.

bændanna til ábýla þeirra, eða frelsi þeirra til notarèttarins er horfinn úr landinu, og orðinu allur annarr og ófullkomnari enn áður [1]). Það er, að frásögn Sigurðar heitins Björussonar (?) í Búnaðarritinu 1 B. 1 D. bls. 99—110, orðið kunnugt, að lögin ömnuðust við lausa- eða húðarsetu- mönnum og lögðu ærnar sektir við, allt þángaðtil fólkið hætti að eiga þátt í löggjöfinni, eða að stjórna sèr sjálft og það varð audlegrar stèttar mönnum ánauðugt, einnig að hússtjórnin og húsaginn yfirhöfuð var í góðu lagi þángaðtil, en að hvörttveggja úr því fór hnignandi, og ekkert gat sporuað við, að húsaginn færi í ólestri og sífelt vesnandi síðan á 15 öld, þá Biskupar voru búnir að rýa flesta að eignarjörðum þeirra; og þóað stjórnin eptir siðaskiptin, einkum með fjölda af alþíngis samþyktum, (*Arnesens isl. Retterg.* bls. 457), á alla vegu streyttist við að hrinda honum í lag aptur, kom það fyrir ekki; en það bar til þess, að regluse..i forfeðranna í bjargræðis- og búskapar-efnum, sem áður hèlt húsaganum við, nú var horfin. Lausamenn flyktust nú að sjónum, því þar fundu þeir helzt hæli, og einkum hjá leiguliðunum í Gullbríngu og Kjósar sýslum og undir Jökli, hvar bændurnir þurftu þeirra við til skipa áróðurs, þareð þeir nú höfðu allan hugan á sjónum og allt þannig studdlaði til, að svipta landið vinnufólki. — Það mun og vera líku að gegna hèr og í Danmörku, að lausamenn hèr sem optast sitja í skjóli leiguliðanna, einsog innisetumenn (*Indsiddere*) í skjóli festubænd-

[1]) Sbr. *Deo*, *Regi*, *Patriæ*, bls. 53—64 og Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 36—37.

anna þar; að minnsta kosti finna menn, að þeir ætíð hafa verið hèr flestir þar sem leigujarðir voru flestar, og einkum við sjáfar síðuna, af nýsagðri orsök[1]).

Eg veit því ekkert betra ráð við húsagaleysi voru, fjölgun lausamanna og tómthúsfólks og þaraf leiðandi vinnuhjúa eklu, sjálfhirgingsskap og óhlýðni, enn að allir (eða þá sem flestir) búendur fái eignarrètt yfir áhýlum þeirra; en þángaðtil það verður vil eg ráða sem flestum til að kynna sèr ritgjörð nýnefnds höfundar "um hússtjórnina á Íslandi", og færa sèr hana og heilræði hennar í nyt. Það er að öðru leiti ekki með þessu sagt, að lausamönnum og tómthússfólki eingaungu sè að kenna um ólestur húsagans hèr á landi: húsbændur eiga og þarí annan þátt, auk þess að þeir hylma yfir lausamennina; þeir gánga ekki ætíð sjálfir á undan hjúum sínum með góðu eptirdæmi, og hjúin sjá, einkum hjá leiguliðunum, þess margföld dæmi, að þeir svíkja og prettast við húsbændur sína eða við landsdrottin, um eptirgjald, landskuldir og leigur, sem opt er goldið af lakasta endanum, með einhvörjum gallagrip og gráða; að eg ekki tali um sviksamlega og ræktarlausa meðferð jarðarinnar, skóga eyðileggíngar, o. s. fr., sem hjúin hafa dáglega fyrir augum, og er þá von, að húsbændurnir sjálfir sæti ótrúmennsku, sjálfhirgíngsskap og svörulyrðum af vinnu-

[1]) Sjá Eggerts Ólafssonar *Reise*, bls. 335—36, 970—71; *Olavii Reise*, bls. 211 og 271; Félagsr. IV. bls. 171—72, 174—75, og VII, bls. 130—35 og 141—51.

hjúunum, er þeir hafa þvílík dæmi fyrir þeim. Af viðlíkri orsök er það, að Danir, þó húsaginu hjá þeim sè í öllu öðru lagi, sízt kjósa sèr vinnuhjú frá festugózunum, en slægjast helzt eptir þeim þaðan, hvar bændur eiga sjálfir ábýli sín. Hèr þarámóti er ekki þannig um vinnufólk að velja, því ólestur í uppeldi og húsaga er hvervetna enn sami, af því færstum verður að vegi að breyta útaf flestra (landsetanna) sið og almennri landsvenju, svo allt fær þannig keim hvað af öðru í öllum hlutum. Hvörnig sem á er litið, verður því allt þetta verkun af sömu orsök, og frá hvörri hlið sem skoðað er, veldur þó leigubrúkunin, og af henni leiðandi van-rækt jarðanna frá upphafi, eins hússtjórnarleysinu yfirhöfuð, sem þess ennm verstu verkfærum, lausamönnum og tómthúsfólki; og sè því svona varið, að hússtjórn vor, einsog hún nú er, sè bein afleiðíng leigujarðabrúkunarinnar, gefur þeim, sem lesa nýnefnt rit um hana (hússtjórnina), bezt að skilja, hvört aðrir þeir þjóðbrestir sem um var getið, og allir munu vera húsagaleysinu samfara, ekki muni að miklu leiti vera sprottnir af sömu rót.

Ef vel á að fara og betur enn fer má þá einhvör bót á þessu verða, en það er ómögulegt og hlutarins eðli gagnstædt að nokkurntíma geti orðið til hlýtar, nema ríkis- eða peníngamenn vorir taki sinnaskipti, leggi þá peníngabrúkun af sem þeir tíðka nú, og fari að hænast að veðskulda brèfunum, en selji ábúendunum allar þær jarðir, sem þeir fá án verið og umfram eru ábúðarjarðir þeirra[1]), sèu líka leiguliðunum allstaðar til liðs og

[1]) Svona viðgengst það í Danmörku (þar sem ekki

hjálpar með peníngastyrk, þar sem þessir þurfa hans við til að geta eignast ábýli sín, en sjálfseignar hændunum og sèrhvörjum öðrum til að rækta bújarðir þeirra og færa búnaðarhættina yfirhöfuð, innan húss og utan, í betra horf.

Eg trúi ekki öðru, enn að þeir sjái við þetta eigin hag sinn, ámeðan jarðirnar eru í svo háfu verði sem nú eru þær, en undireins vissan heilla ávöxt þvílíkrar peninga-hrúkunar fyrir land og lýð; og hvönær eða hvörnig getur þá peníngunum verið betur varið? En tvöfaldan heiður og þökk meðbræðra sinna eiga þeir menn skilið, sem með glöðu geði nota hvört tækifærið, til að liðsinna atorku- og táp- bændum vorum með auði sínum, án þess þeir fyrirfram grandskoði og leggi niður, hvört þeir sjálfir sèu vel í haldnir, eða græði sem færi er á. — Vilji maður ráða eða hvetja bændurna til betri jarðarræktar, er ætíð viðkvæðið: að þá vanti efni eða peninga; en vakni fyrst alvarleg laungun og vilji til að hjálpa þeim, munu þeir einnig fljótt sýna lyst og vilja til að vinna, og leggja allt kapp á að rækta jörðina, svo að hún gefi þeim nægilegan ávöxt, og því fremur er mèr það næsta vandsèð, að peninga láni, sem fasteignar veð er fyrir, ekki sè eins óhætt hjá bændum vorum

eru festngóz hernðum og ömtum saman), að einginn á nema bújörð sína, en færstir veðskuldalaust, og þar sem þannig á stendur, er velmegun manna almennust; en eigi nú síður nokkrir (sannkallaðir) ríkismenn, (sem veðskuldir enna efnaminni eða veðskuldabrèfin eiga), er aungu síður enn peninga menn eða jarðeigendur hjá oss hafa vit á að hagnýta sèr auðinn.

og fasteigninni sjálfri, enda þó láuið ekki nái jarðarverðinu, eða með öðrum orðum: að þeim sama manni sem trúað er fyrir allri eigninni, ekki sè trúandi fyrir parti úr henni, eða úr verði hennar, jafnvel þó partinum (veðfènu) sè eins vel borgið að lögum og því enn heila (eigninni). Þeir eru, því miður, ofmargir bændur, sem eingiun ætti fyrir býli að trúa; en hvörnig sem því er varið, er þó hvörjum þeim, sem veð hefir að hjóða eða jörðu á, öllu fremur trúandi fyrir peníngaláni, enn fyrir annarra jörðu, bæði af því að öll líkindi eru til, að hann rækti betur sjálfs síns eign enn annarra, og þareð landsdrottinn á því meira á hættu enn lánardrottinn, sem veðfèð optastnær er meira virði enn láninu nemur, og jörðin því trauðlega getur orðið svo niðurnýdd, að hún verði ekki lánsins virði.

Satt er það, að margir leiguliðar eru hèr öreigar að kalla, og eiga ekki fyrir nauðsynlegustu búshlutum, og enn síður fyrir jörðu eða jarðarparti, hvað lítill sem er, eða hvörsu lítið sem seljandi skoraði á að borga skyldi útí hönd af jarðarverðinu; en það yrði oflaung þula, ef eg (frekar enn til er bendt að framan) hèr ætti að telja til allar orsakir þær og aðdraganda, sem er að efnaleysi leiguliða vorra; einúngis fýsir mig að vita: hvað fremur valdi því í raun og veru, að efnunum hèr er svo ákaflega misskipt milli landsbúanna, enn einmidt það, að þau, eða peníngarnir eru í svo fárra höndum, eða með öðrum orðum, að veðsetníngar ekki gángast hèr við? en það veit eg af sjálfum mèr og reynslunni, að ekki þarf jarðnæðisþurfa að vanta kaupanda að jörðunni, þó ábúandinn

sjálfur gángi aptur úr — þar sem eða þegar peníngalán og veðsetníngar eru komnar á veg og orðnar algengar.

Þeim peníngum, sem menn að óþörfu eru að hrúga sam anleigujörðum fyrir, og kaupa geypiverði, er yfirhöfuð nokkru en þó litlu betur varið, enn þeim sem látnir eru liggja arð- og brúkunarlausir. Jarðirnar vantar næga rækt og umhirðíngu, í hvörra höndum sem þær eru, annars enn eigandans sjálfs, enda lítur eigandi, einsog fyrr er áminnst, meir á eptirgjaldið, enn á hitt, hvörnig þær eru setnar, og nær þó aldrei lagavöxtum jarðarverðsins í eptirgjaldinu, já, má stundum gefa landsetanum eptirgjaldið upp að nokkru eða öllu, og sjá eign sína bráðskemmda eða gjöreyðilagða af biltíngum náttúrunnar, ef ekki af bóndanum sjálfum. Þannig verður jarða eignin, annaðhvört af leiguliðans og eiganda eða náttúrunnar völdum, framförum landsins tíðum til ama og hindrunar, ef hún ekki er á réttum stað, hjá ábúandanum sjálfum. Þessum er ekki umhugað um neitt eptirgjald, en einúngis um ágóðan eða jarðar ávöxtin, og ver hann til þess öllum þeim kröptum og efnum, sem í hans valdi standa, sè honum annars hugleikið að njóta þess ávaxtar fjár síns sem unnt er, og hann og hans eingaungu búa að. Hann fær jafnvel, með atorku og framsýni, komið í veg fyrir (náttúrleg) áföll, er ætíð fara í vöxt, sè ekki í tíma að gjört, og orðið geta jörðunni að óbætanlegum skaða í annarra höndum enn eigandans, og ámeðan eigandi og leiguliði draga hvörr sinn taum og hvörigur lætur neitt af

hendi rakna, til að afstýra jarðarskemdum eða hjálpa landirkjunni a fót[1]).

Þá er lillu meiri arðs eða ávinníngs von fyrir land og lýð af peníngabrúkun þeirri, sem nokkrir landsbúar eru komnir uppá á seinni árum, síðan 1823. Með Rentukammerbrèfi til Stiptamtmannsins, dagsettu 28 Septbr. 1822, er það nefnil. leyft, hvönær sem óskað er

## VIII. AÐ SETJA ÓMYNDUGRA OG OPINBERRA STIPTANA PENÍNGA Á LAGARENTU Í JARÐABÓKAR SJÓÐIN[2]),

sem þó tekur við 20 rbd. minnst frá hvörjum einum, en geldur á hvörju ári 11ta Júní hlutaðeigendum rentuna, 4 af 100, frá viðtökudeginum þángaðtil peníngarnir aptur eru borgaðir úr fjárhirzlunni á sama tíma. Peníngar þessir gánga úr landsfjárhirzl-

[1]) Sjá Jóns Eiríkssonar Konferenzráðs athugagrein í *Olavii Reise*, bls. 663.

[2]) Það var þegar með konúngs úrskurði frá 19 Júní 1783 (í lögþíngisbókinni fyrir það ár) leyft þeim inubúum landsins, sem penínga áttu fyrirliggjandi, að láta þá inní konúngshöndlunina (að minnsta kosti 100 rd. í hvört sinni) og var þeim lofað lagarentu (úr því að komnir væru 500 rd.) en síðan skyldi setja á rentu í konúngssjóðin; eg efast um, að leyfi þetta nokkurntíma hafi verið notað, af því menn um þær mundir, bæði vegna harðinda áranna og af því þá ekki var lángt að bíða Skálholts stólsjarða sölunnar, höfðu míg annað að brúka penínga sína til: enda tók þetta leyfi enda með konúngs höndluninni 1786.

unni inni Ríkisskuldasjóðin *(Statsgjeldskassen)*, og þaðan eru bæði peníngarnir sjálfir og ársrentan aptur goldin fyrrnefndri fjárhirzlu. Einginn efar, að tilgángur leyfis þessa sè enn bezti, enda má það líka verða stiptunum landsins og þeim ennm ómyndugu að miklu gagni, að því leiti þeim ekki væri kostur á að setja peníngana á vöxtu annarstaðar enn í konúngsfjárhirzluna; en — bæði hafa fleiri fært sèr þetta leyfi í nyt enn upphaflega var til ætlast, og líka er það notað á þann hátt af þeim sem þess notið hafa, að tvisýnt er orðið, hvört það leiðir af sèr meira verulegt gagn enn skaða fyrir landið: það eru nefnil. ekki einúngis ómyndugir og tèðar stiptanir, sem hafa notað sèr það, heldur og myndugir menn. Þannig er það orðinn alvani, að þeir sem á tèðan hátt hafa átt penínga á vöxtum í fjárhirzlunni og ekki hafa þurft þeirra við eptir að þeir hafa náð myndugs aldri, hafa látið þá framvegis hindrunarlaust standa þar á vöxtum; eins eru þess mörg dæmi, að menn kvenna þeirra, sem ógiptar áttu þar penínga á vöxtum, hafa eins eptir sem áður árunum saman, sèr og öðrum að þarflausu, látið konúngs sjóðin gjalda sèr fulla leigu af þeim. Sumir peníngamenn, sem sèð hafa sèr meiri ábata í peníngahrúkun þessari, enn að jarða kaupunum, hafa og tekið til bragðs, (með og án einkaleyfis), að setja penínga sína á rentu í jarðabókarsjóðin, undir nöfnum ómyndugra barna sinna, jafnvel þó báðir foreldrarnir hafi verið á lífi, og börnin því í raunínni ennþá ekki hafi átt neina penínga, eða nokkurn hluta í búi foreldranna (N. L. 5—2—58).

Með þessu móti stóðu á vöxtum í jarðabókarsjóðinum, samkvæmt rentureikníngi landfógetans 11ta Júní 1839, 99,722 rbd. 77 sk. r. s. Af þessu er meira enn helfíngur, eða 49,936 rbd. 78 sk. eignaðir ómyndugum, en hitt (49,785 rbd. 95 sk.) ymsum stiptunum og opinberum fjársjóðum landsins, nefnil.: Fátækrasjóðum 10,192 rbd. 21 sk.; Kirkjum 5,245 rbd. 71 sk.; Thorchillii gjafastiptun til barnaskóla 4,350 rbd.; Sakafallssjóðum sýslanna 4,232 rbd. 57 sk.; Spítölum 7,901 rbd. 11 sk.; hinu íslenzka Biblíufèlagi 2,983 rbd.; hinu íslenzka Bókmentafèlagi 250 rbd.; hinum íslenzka Sakagjaldssjóði (Jústizkassa) 1,650 rbd.; Prestaköllum 1,189 rbd.; Stiptisbókasafninu 1,560 rbd.; Íslands stiptis prentverki 4,415 rbd.; Suðuramtsins Húss- og Bústjórnarfèlagi 2000 rbd.; Norður- og Austuramtsins Búnaðarstofni *(oeconomiske Fond)* 714 rbd. 95 sk.; Vesturamtsins Búnaðarstofni 1,900 rbd.; hinni svonefndu Thorsteinsons gjafastiptun 544 rbd. 80 sk.; Möðruvalla Djákna embætti 271 rbd. 48 sk; Trjábrúnni á Jökulsá 200 rbd.; uppgjafa prestum *(Pastores emeriti)* 136 rbd.; og Sjóðinum til viðurhalds Sæluhúsinu í Fóelluvötnum (stofnsettum af Jóni hreppstjóra á Elliðavatni) 50 rbd.

Það er hörmúng, að þjóðpeníngar þessir ekki skuli koma landinu að meiri notum, enn á þenna hátt getur orðið. Opinberra stiptana peníngar eru, einsog fyrr var áminnst (í 4 og 5ta þættinum til 7) einna helzt til þess kjörnir, að verða þeim

að ærnum notum sem taka vilja þá að láni. Stiptanirnar þurfa sjaldan eða aldrei á öðru að halda enn árs ávextinum eða rentunni, og sá sem þá hefir tekið að láni, brúkar og hagnýtir sèr þá því allra optast í náðum, ámeðan hann stendur í skilum og veðfèun er sæmilega haldið við. Þeim er og sjaldnast sagt lausum þó veðfèð verði annarra eign, sè það að eins álitið nóg fyrir þeim, því þá stendur forstöðumönnum stiptananna á sama, í hvörra höndum þeir eru, en eigendur veðfjárins sjá sèr hagnað í að láta þá standa óborgaða í eign sinni, þareð hún einmidt vegna þess tíðum nær hærra verði í kaupum og sölum, og menn sjaldnast (þar sem peníngabrúkunin er með öðrum hætti enn hjá oss) hafa strax allt andvirði eignarinnar á reiðum höndum; kemur því mörgum vel, að geta náð í girnilega eptiræskta eign, án þess að þurfa að fullborga hana að sinni. Þetta eru og álitin þvílík hlynnindi við hús og jarðir í Danmörku, að aungum þar kemur til hugar að leysa þær þjóðpeníngum þeim, sem þær eru bundnar, hvörsu góð ráð sem til þess eru, heldur setja eigendurnir miklu fremur peníngaþá, er þeir hafa kynnu afgángs, annarstaðar á vöxtu, svo að eignin haldi ætíð því verði, sem lánspeníngarnir þannig gefa honum. Hèr að auki er það athugandi, að skuldunauturinn hefir sjaldnast mikið fyrir að koma ársvöxtum þjóðpeníngaima til móttökumannsins eða lánardrottins; þessi er ætíð enn sami, (því varla ber það við, að stiptanir þurfi að afsala sèr eða framselja skuldabrèf sín, svo að skipti með því móti um lánardrottin) og sem optast í sömu sveit, sýslu eða á þjóð-

farnasta stað í amtinu (t. a. m.) kirkna-prestakalla-spítala - fátækra - sakafalls - sakagjalds - og búnaðarsjóða - forstöðumenn).

Í þessu tilliti er að vísu öðru máli að gegna um ómyndugra eða einstakra manna (prívat) peníngalán yfirhöfuð: eigendurnir verða myndugir og sjálfir opt peníuga sinna þurfandi; þeir flytja í allar áttir og geta selt og veðsett skuldabrèf sín hvönær sem þeim ræður svo við að horfa. Eigi að síður er það, og það með rèttu, haldinn allmikill kostur við fasteignir, að þvílíkir (prívat) peníngar standi á vöxtum í þeim, og að kaupandinn um lángt eða skammt, eptir kríngumstæðunum, geti látið fasteignaverðið, að því leiti innstæðunni nemur, óborgað; enda er það, þar sem regluleg peníngabrúkun eða veðsetníngar viðgángast, ekki torveldt fyrir þann, sem hefir gott veðfè að bjóða, að fá peNínga að láni hjá öðrum, til að borga þeim lánardrottni, sem ekki getur lengur af láninu sèð.

Eínginn, sem er þess fulltrúa, að almennar sjálfseignir leiði af sèr betri jarðarrækt og þjóðar farsæld, getur því efast um, að þeim peníngum landsins, sem eptir áður sögðu eru á vöxtum í fjárhirzlu þess, hefði verið öllu betur varið þeim til eflíngar og uppörfunar, og að það hefði komið landi og lýð betur að lána þá út, samkvæmt fyrirskipuninni í tilskip. 13 Júní 1787 Kap. 2 § 19 og kansellíbrèfi frá 5 Apríl 1788, að dæmi Biskupanna Finns Jónssonar og Hannesar Finnssonar[1]), enn

[1]) Hvört Biskupinn Dr. Hannes þarámóti hafi fært sèr það leyfi í nyt, sem gefið var með fyrrtèðum konúngs úrskurði frá 19 Júní 1783 til að setja þjóðpenínga á lagarentu

að láta já, öllum öðrum enn eigendunum gagnslausa, gista í konúngsfjárhirzlunni. Að sönnu hefir máske ekki forstöðumönnum stiptananna eða verjendum enna ómyndugu boðist renta eða veð fyrir þeim hjá innbúunum sjálfum; en það er víðar enn hèr, að penínga útlán stundum ekki fæst með öllu umsvifa- eða fyrirhafnarlaust, og að menn verða að gjöra heyrum kunnugt, að peníngarnir sèu til og að fá mót rentu, áður enn þeir á þenna hátt geta gjört þá ávaxtarsama; en hèr munu varla, eða þó óvíðast, vera gjörðar slíkar tilraunir, síðan Kansellíráð og sýslumaður í Árness sýslu Steindór Finnsson fèll frá [1]), og enn síður munu nokkrar aðrar uppörfanir vera við hafðar til að brúka peníngana

í enn íslenzka verzlunarsjóð, er mèr ókunnugt; en hitt hefi eg heyrt af trúverðugasta manni, að eitthvört sinni þegar um það varð rædt hafi hann færst undan, þareð hann kynni betur við, að fá veð í jörðu fyrir peníngunum, sem hann og síðan tíðkaði; og má af því ráða, hvörsu álitlegt honum hafi þókt að eiga jarða veð fyrir peníngum, er hann þannig enda hafði meira láns traust á þeim eða eigendum þeirra, enn á konúngsfjárhirzlunni sjálfri.

[1]) Þessi mikilsvirdti embættismaður hefir, eptir því sem lögþíngis og landsyfirrèttar bækurnar votta, gefið einstakt dæmi uppá, að láta bæði á alþíngi og í Landsyfirrèttinum bjóða upp ómyndugra penínga til láns, samkvæmt tilskip: 1787 Kap. 2 § 19, og þannig fyrir laungu gelið löndum sínum eitthvört hið bezta eptirdæmi eins í þessu sem öðru, álíka og faðir hans og bróðir (þeir nýnefndu 2 Biskupar), og er það sem þeir 3 feðgar hafi allir verið samtaka í, að benda Íslendíngum á þá heillavænlegustu peníngabrúkun, með þvílíkum ráðstöfunum og eptirdæmum þeirra.

á þessa lund, þá þess virðist því heldur þörf hèr á landi, sem færstir ennþá munu vera komnir að raun um, að peníngarnir sèu fullt eins vel geymdir í fasteigna veði, og í sjálfs eign. Það er einsog nýnefnt lögboð hafi legið hèr í sífeldri gleymsku, og það hjá Rentukammerinu sjálfu, enn þótt stjórnarráð þetta optsinnis áður enn það hið nýa leyfið var gefið 1822, svosem með brèfi frá 4 Apríl 1789 (birt á alþíngi sama ár), hafi látið í ljósi, að lögboðið í tilskip. frá 1787 sè í vegi fyrir, að vaxtapeníngum verði veitt móttaka í konúngsfjárhirzlunni, og í brèfi þessu undireins gefið til kynna: "að það því síður geti fengist við, að greiða fyrir þvílíkri brúkun penínga þeirra, sem nú liggja fyrir á Íslandi, sem það álíti landinu lángtum heillavænlegra, þar kaupverzlanin sè frjáls, að peníngarnir sèu þar kyrrir, og að þeim sè varið annaðhvört til verzlunar eða annarra nytsamra fyrirtækja, útrýmis bjargræðisveganna og eflíngar"; og þetta ættum vèr ennþá að láta oss að kenníngu verða, og það hvört heldur vèr eigum kost á, að láta penínga vora í konúngssjáðin eða ekki, og hvörn myndugleika sem Rentukammerið hefir haft til að gefa fyrrnefnt leyfi uppá sín eigin býti, ámeðan nýnefnt lögboð var í fullu gyldi.

Í fyrstunni voru aðrir enn forstöðumenn framan talinna þjóðsjóða mjög svo tregir á, að setja penínga á vöxtu í konúngsfjárhirzluna; því 8 fyrstu leyfisárin, til 31 Júlí 1830, tók hún á móti einum 16,311 rbd. 37 sk. að mestum hluta frá þjóðsjóðunum; en síðan (um seinast liðin

9 ára tíma) hafa inngjöld hvörutveggju árlega vaxið þannig, að 31 Júlí 1839 var komið í fjárhirzluna 110,655 rbd. 62 sk.[1]); og er það næsta eptirtektaverdt, að um seinast liðin 4 ár — þau sömu og mestallt konúngsjarða verðið (nl. 37,814 rbd., að frádregnum 2,980 rbd. 15 sk. sem áður voru goldnir) var borgað — frá 1 Ágúst 1835 til 31 Júlí 1839, voru settir inn 50,498 rbd. 91 sk., eða ekki lángt frá helfíngi af öllum þeim peníngum sem inn eru settir í hin fyrirfarandi 17 ár samfleytt, síðan leyfið var gefið. Svo tregir voru landar vorir að fallast á þetta nýa gróða meðal, ámeðan verið var að kenna þeim að þekkja það og reyna, og svo fúsir til að færa sèr það í nyt, þegar þeir loksins komust uppá það. En við þetta er aptur annað, að öðruleiti miður gleðilegt, atriði athugaverdt, og það er: að af }tèðum 110,655 rbd. 62 sk. voru þann 31 Júlí 1839 þá eptir á vöxtum í fjárhirzlunni alls 100,922 rbd. 88 sk., (þ. e. fyrrtèðir 99,722 rbd. 77 sk. og þaraðauki 1,200 rbd. 11 sk., sem komnir voru inn frammyfir það sem útborgað var frá 11 Júní til 31 Júlí 1839), svoað ekki var búið að endurborga hlutaðeigendum meira enn 9,732 rbd. 70 sk. af öllu því, sem inn var komið á þessum

[1]) Eptir inn- og útgjalda bók landfógetans var 31 Jan. 1810 búið að bæta við 2,437 rbd. 93 sk. r. s. — en útgoldið var, síðan 31 Júlí 1839, 808 rbd. 81 sk. — svoað fjárhirzlan þá frá upphafi var búin að taka ámóti 113,395 rbd. 59 sk. og þaraf aptur að svara einum 10,541 rbd. 55 sk. r. s.

17 ára fresti[1]). Um leið og þetta sannar það sem áður var sagt — um órèttilega brúkun leyfisins, þ. e. af öðrum enn ómyndugum, því lángtum fleiri af þeim hljóta að vera orðnir myndugir á svo laungu tímabili enn svo, að þessir 9,732 rhd. 70 sk. geti samsvarað töln og vaxtapeníngum þeirra, (þó gjört væri ráð fyrir, að þjóðsjóðirnir hefðu ekkert fengið aptur goldið af innstæðunni) — svo er það og ljós voltur þess, hvörsu lítið penínga eignin hèr á landi, enn sem komið er, stuðlar til almenníngs heilla, og að menn einúngis hugsa um að safna peníngunum (eða jörðunum fyrir þá) endalaust, án nokkurs annars tilgángs eða auguamiðs. Þannig er það og orðinn alvani þeirra, sem hafa svo mikið á vöxtum í Jarðabókarsjóðinum að ársrentan nemur 20 rhd., — þ. e. 500 rbdi. —, að koma henni einnig jafnóðum þar á rentu; en færstir hafa huga á, að verja árs ágóða þessum til þess sem þeim og almenníngi betur hentar: til betri jarðarræktar og ávaxtarsamari athafna í búskap og búnaðarhátt-

---

[1]) Á ekki lengri tíma er jafnmikil og meiri penínga upphæð "Yfirformyndaradæmanna" í Danmörku vanalega komin í allra annarra eign enn áður, því þar tekur sérhvörr við sínu, þegar menn eru komnir á lögaldur (þ. e. karlmenn orðnir 18 ára *(mindreaarige)*. smbr. L. 3—17—34), og kvennfólk gipt eða farið að búa, og þá ver hvörr peníngum sínum sem þarfir eru til, unnaðhvört til að kaupa sér býli fyrir, að irkja þau betur, eða til að lána þá öðrum, og á aðra lund; svoað arðurinn og notin komi einhvörstaðar niður, og lendi ekki einúngis hjá lánardrottni heldur og hjá skuldunautinum.

um. — Að vísu er það Rentukammerinu að þakka, að landar vorir þannig eru komnir í skilníng um, að peningar geti orðið þeim arðmeiri í skuldabrèfum enn í jarða eignunum, og um það, að ómyndugir og þjóðstiptanir nú, ef þörf krefur, eiga kost á að koma peníngum sínum á vöxtu í konúngs fjárhirzlunna; en þvílík brúkun leyfisins, sem nú var frá skírt, er almenníngi litlu notabetri enn þó peníngarnir með öllu væru óbrúkaðir, enda eru þeir með þessu móti í raun og veru einúngis í eigu, en ekki í brúkun eigendanna. Þeir eru hvörki þeim nè öðrum að meira liði enn geymslufè, gripir eða áhöld, sem þeir aldrei brúka, og þannig eru þeir líka konúngs fjárhirzlunni, sem geldur eigendunum eptir þá árs rentu, til eintómra vanhalda og byrðar[1]); mundu þó bráðum, eptir reynslu enna seinni

[1]) Að vísu er það ekki ólíklegt, að stjórnin beri sig að hafa þau not af peníngum þessum, sem henni er unnt, og sèrílagi til að losa sig við skuldir sínar, þegar bezt er færi á; en þó er það varla efunarmál, að þeir eru henni miklu fremur til byrðar og skaða enn til gagns eða ábata, þareð hún bæði hlýtur að hafa svo mikið fyrirliggjandi af þeim, sem til sèrhvörs tíma, eptir eðli þeirra og örstutta uppsagnarfresti, (hálfs árs eða hálfs missiris, eptir sem innstæðan er yfir eða undir 100 rbd.) er að búast við, að endurborgast skuli, og hún aunganvegin sækist eptir þeim, heldur einúngis að ósk hlutaðeigenda og í viðlögum, þegar þvílíkum peníngum — í Danmörku — ekki verður komið á rentu annarstaðar), veitir þeim viðtöku; enda virðist yfirlit það yfir inngjöld og útgjöld ríkisins, sem vèr höfum fyrir árin 1835—1837, gefa til kynna, að minnstum hluta af þjóð- og ómyndugra-

áranna, sem þegar var um getið, hafa orðið enn meiri hrögð að þessu, væri nú ekki loku fyrir það skotið með því, að Rentukammerið nú loksins hefir ákvarðað, samkvæmt tilmælum Stiptamtmanns v. Bardenfleths, í brèfi til hans frá 18 Maí 1839: að ómyndugir eða fjárhaldsmenn þeirra skuli — til að fá notið leyfisins frá 28 Septbr. 1822 — sanna (líklega með embættis skírslum presta og sýslumanna), að peníngar þeir, sem settir verða á rentu í fjárhirzluna, í raun og veru sèu ómyndugra eign, og að hafðar sèu gætur á, hvönær eigendurnir ná myndugs — 18 ára — aldri, eða ógiptar stúlkur (sem peníngana eiga) giptast; einnig að vaxtar-peníngar allra myndugra, svo fljótt sem orðið getur, verði greiddir eigendunum úr fjárhirzlunni, og það jafnvel án uppsagnar og fyrir rèttan gjalddaga (11 Júní árs hvörs), sè þess æskt af hlutaðeigendum, og peníuga upphæðin ekki nemi meiru enn því sem fjárhirzlan má við að greiða í hvört sinni. Má álíta að ráðstafan þessi sè eins landi voru í hag og konúngsfjárhirzlunni, og það því heldur, sem neyðin og reynslan að von og líkindum fljótt mun kenna enum myndugu mönnum, sem híngaðtil hafa átt peníuga á rentu í fjárhirzlunni, að nú sè það snjallast ráðið, að lána þá landsfólkinu sjálfu, mót veði og lagarentu einsog áður; og munu þetta því heppilegri neyðar úrræði núna, meðan sem óðast er verið að selja konúngsjarðirnar, sem fleiri eru orðnir leyfisins órèttilega aðnjótandi.

---

peníngum þessum sè varið til ríkisskuldalúkningar, smbr. Standatíðindin 1835—36, dálk. 1765—67, 1806 og 1807.

Annars er það eptirtektarverdt, að sjá, hvaðan komnir sèu ómyndugra peníngar þeir, sem á vöxtum standa í fjárhirzlu konúngs, og hefi eg orðið þess áskynja af skírslum þeim, sem landfógetinn samdi 31 Júlí í fyrra, um alla vaxtarpenínga ómyndugra úr hvörri sýslu, eptir að hin umgetna ákvörðun Rentukammersins var komin híngað: að af 47,962 rbd. 58 sk. (sem mèr telst að verið hafi á vöxtum í það mund af áðurtöldum 49,936 rbd. 78 sk., eptir því sem goldið var inn og út fra 11 Júní til 31 Júlí 1839; en síðan hefir svo mikið bæzt við að hin síðari talan er hèrumbil búin að ná sèr aptur) eiga: 9,545 rbd. heima í Norðurmúlasýslu;

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | 7,404 rbd. | 94 sk. | — | í Gullbríngu og Kjósar sýslu; |
| | 7,052 — | 52 — | — | í Eyafjarðar sýslu; |
| | 5,156 — | 40 — | — | í Árness sýslu; |
| | 5,091 — | 32 — | — | í Reykjavíkur kaupstað. |
| | 3,850 — | - — | — | í Snæfellsness sýslu; |
| | 1,975 — | 34 — | — | í Skagafjarðar sýslu; |
| | 1,829 — | 78 — | — | í Borgarfjarðar sýslu; |
| | 1,275 — | 52 — | — | í Mýra og Hnappadals sýslum; |
| | 715 — | 28 — | — | í Húnavatns sýslu; |
| | 711 — | 57 — | — | í Þíngeyar sýslu; |
| | 581 — | 60 — | — | í Vestmannaeya sýslu; |
| | 504 — | 4 — | — | í Barðastrandar sýslu; |
| | 306 — | 84 — | — | í Suðurmúla sýslu; |
| | 300 — | - — | — | í Stranda sýslu; |
| | 106 — | - — | — | í Dala sýslu; |
| og | 1,475 — | 19 — | — | í Rángárvalla sýslu (að |

því sem mèr telst eptir inn- og útgjöldunum, þareð eg ekki hefi getað komist yfir skírslu landfógetans um ómyndugra vaxtarpeninga úr þessari sýslu), en alls ekki í Skaptafells nè Ísafjarðar sýslum. — Hvört nú talnamunur þessi lýsi efnamunnum eða ásigkomulagi yfirhöfuð í hvörri sýslu, fjárhaldsmanna eða sýslumanna misjafuri umhyggju fyrir fjárafla hinna ómyndugu, eða hann rísi einúngis eða meðfram af vegalengd og örðugleika, eða hann máske lýsi öðrum eða ötulli huga á brúkun efnanna og ávexti á einum enn öðrum stað landsins, skýt eg til úrskurðar þeirra sem kunnugri eru þessu enn eg; en eitthvað má til þess koma, að Gullbríngu og Kjósar sýsla gengur hèr næst Norðurmúla sýslu, og leggur enda meira til enn allt Vesturamtið; vegalengd eða örðugleiki getur þó, að sýnast má, aungum hamlað framar enn Norðurmúlasýslu búum frá, að eiga vaxtarpenínga í Reykjavík, og þó eiga þeir þá hèr mesta.

Taki lesendur nu saman það sem að framaner sagt, væuist eg að þeir þegar sèu gengnir úr skugga um: að peníngalán mót veði í fasteignum, eða veðskuldabrèf, hvört heldur á þau er litið sèrilagi eða í samanburði við jarðakaupin og annarskonar peníngalán, sèu eins eigendunum, einsog landi og lýð yfirhöfuð, að mestu liði. En almennt peníngalán mót veði í fasteignum er ekki einúngis ómissandi meðal til að bændur geti eignast býli sín sjálfir, til þar af leiðandi betri jarðarræktar og landsheilla yfirhöfuð, heldur

## IX. TEKUR EIGN VEÐSKULDABRÈFANNA LEIGUJARÐA EIGNINNI FRAM AÐ MÖRGU ÖÐRU LEITI:

1. Jarðakaupandinn undirgengst, auk kaupverðsins, bæði í bráð og lengd, útgjöld og byrði, er sá kemst hjá að öllu leiti, sem lánar út peníngana: hann geldur konúngi ½ (dal) af hvörjum 100 (dölum) jarðarverðsins, er gjalda skal í hvört sinni, sem fasteignir hafa eigenda skipti, og fær ekki eignarskjali sínu þínglýst fyrrenn gjaldi þessu er lokið (tilskip. 8 Febr. 1810 § 1 og 7). Þetta nemur nú litlu eða talsverðu, eptir upphæð andvirðisins. Hann ferr varhluta af mannsláninu og öðrum kvöðum — sem aður lágu á Skálholtsgózinu og konúngsjörðunum, og voru þó konúngi jafnan nokkurs virði — eptir sölu skilmálunum á þesskonar jörðum. Hann geldur uppboðsmanni uppboðslaun¹), sèu jarðirnar seldar við opinbert uppboð²).

¹) Uppboðslaun þessi eru 2 af 100 af hvörjum 1000 rbd., eða þar undir; 1½ af 100 af því sem er yfir 1000 og upp að 3000; og 1 af 100 af því boði eða kaupverði sem gengur yfir 3000 og upp að 30,000 rbd. Aukatekjureglug. 10 Septbr. 1830 § 41.

²) Það gengst við sumstaðar hèr á landi, að uppboðsmenn (*Auctionsholdere*) heimta full laun fyrir uppboð á konúngs jörðum sem annarra. Annarstaðar halda sýslumenn þvílík uppboð ókeypis, og fara þeir eptir kans. umburðarbrèfi frá 7 Aug. 1819, sem segir, að rèttar þjónum ekki beri laun fyrir uppboð þau "sem gjörð sèu í konúngs þjónustu", heldur að eins endurgjald fyrir

En tilfinnanlegri verður þó tíundin, sem árlega verður að greiða eptir jarðirnar, ef ekki innstæðu þeirra með[1]), til allra stètta. Það er í þessu til-

kostnað þeirra (til ferða, fæðis n. s. frv.); en hinir fara eptir opnu brèfi frá 10 Júní 1706, sem segir: að "uppboðsmenn eigi full laun fyrir uppboð á þjóð- (públík-) eignum", með því móti, að þeim sè eptir uppboðs skilmálunum svarað af kaupanda; og eptir kansellíbrèfum frá 5 Júní 1820 og 21 Maí 1825, sem úrskurða uppboðs laun fyrir þau uppboð á konúngsgózum (*Kongelige Domainer*) sem ei viðkoma konúnglegri þjónustu, og skyldu það vera allar þær, sem viðvíkja konúngs eignunum eða konúnginum sem jarðeiganda (*som Ejendomsbesidder*). Rentukammerið skilur ákvarðanirnar um þetta efni seljanda og kaupanda í hag, þareð kaupandi gefur að líkindum þeim mun minna fyrir jörðina, sem uppboðs laununum nemur, eigi hann að greiða þau sjálfur, svoað annaðhvört konúngur eða kaupandi, eða báðir, verða fyrir halla við borgun þeirra, en frá því finnur stjórnarráð þetta sèr skyldt að fría og vernda konúngin. Óskandi væri, að sama regla gyldti um þetta hvervetna í landinu, og það því heldur, sem mönnum er opt hætt við að gleyma, hvörsu miklu þeir eigi að svara auk kaupverðsins, ámeðan þeir eru að bjóða hvörr í kapp við annan.

[1]) Það er hvervetna, eptir undirlagi Rentukammersins, haft í skilmálum við sölu konúngsjarðanna: að innstæðu kúgyldin sèu seld sèr í lagi eða aðskilin frá jörðunni; og þarhjá sumstaðar í Suðuramtinu, að eingin innstæðu kúgyldi framvegis megi henni fylgja. Á þessu byggja sumir þá ályktun: að kaupendurnir einungis skuli gjalda lausaljártíund af innstæðu kúgyldum þeim, sem jörðinni hafa fylgt og þeir keypt undireins og hana, einsog af öðrum kúgyldum. Þannig voru og Skálholts jarða

liti litils varðandi, hvört jarðatíundin er að lögum, landsvenju eða samkomulagi goldin af lands-

kúgyldinseld sèr í logi með þeim skilmála: "að kaupandi megi ekki neyða kúgyldum uppá leiguliða, nema báðum vel semji" (sölu skilmálanna § 3, Nr. 11), og eru einstöku tíundatakendur nýlega farnir að byggja eins á þessu kröfu um allar 4 tíundir af innstæðu kúgyldum þessara jarða, jafnvel þó sjálfar þær sèu "seldar með öllum þeim gæðum, eignum og ítökum, sem sèrhvörri jörðu með rèttu fylgir að heldð og lögum", og hvaráméðal með berum orðum er talið: "að þær, er aungar tíundir híngaðtil goldið hafa, skulu og framvegis aungum tíundum lúka". og hafa þeir öðlast til þessa samþykki Rentukammersins. Það hefir einnig látið þessa meiníngu í ljósi í brèfi til Amtmannsins yfir Suðuramtinu frá 21 Maí 1823. Þó kvað tíundartaka þessi ennþá einúngis tíðkuð vera í Árness sýslu.

Það verður ekki fært þessari kröfu tíundartakenda til gyldis, að stólsgózinn nð lögum ekki var veitt neitt tíundarfrelsi áður enn það var selt, þareð það þó, eptir sölu skilmálum og afsals brèfum samþyktum af konúngi, er komið í eign kaupendanna með því tíundarfrelsi, er það- og kúgyldin með-áður naut ag einlægt hafði notið, hvört það nú var að berum lagaboðum eða lángri venju. — Hólajarða kúgyldin voru eins, samkvæmt sölu skilmálunum frá 13 Marts 1802, boðin upp og seld sèr í lagi með því berlegu skilyrði: "að föst kúgyldi skyldu af þessu gózi aldeilis vera afsköffað, utan kirkjukúgyldi"; en að tilgángur ákvörðunar þessarar ekki hafi verið að binda þau hin venjulegu innstæðu kúgyldi tíund, virðist bæði mega ráða af næstu grein á eptir:. ["Þegar leigukúgyldi innsetjast á þetta góz, skal þarí haga sèr fyrst um sian og þángað til öðruvísi verður þarum boðið, eptir því sem skipað er i lögun-

drottni eða leiguliða; því gjaldi ekki eigandi hana sjálfur eða láti hann ekki landseta njóta upp-

um" (kaupab. 15 Kap.) — en eptir þeim varð tíund ekki heimtuð af innstæðu kúgyldum —" og hvað kúgylda töluna áhrærir, eptir því sem landsdrottinn og leiguliðinn koma sèr saman um"] sem og af því, að þvílík tíund aldrei síðan hefir verið krafin af innstæðu kúgyldum Hóla jarðanna, hvörjum tilskip. frá 21 Marts 1575 þó annars hafði uppálagt tíundarskylduna til prests og fátækra, er Skálholtsjarðir komust hjá. Að öðru leiti virðist það ríða á minnstu viðvíkjandi tíundarskyldunni, hvört innstæðu kúgyldin eru seld með jörðunum eða sèr í lagi, þegar landsvenja hefir verið frá alda öðli (sjá *Olavii Reise*, bls. LXXXVII; Fèlagsr. VII. bls. 172—79; Amtmanns Riddara Thorsteinsons rit, bls. 149, og *Coll. Tid.* 1834, bls. 563 — 67.) að álíta þau sameinuð jörðinni, þannig, að tíund þeirra sè innifalin í jarðartíundinni, einsog líka vant er að telja þau með jörðunum í öllum viðskiptum manna ámilli; þegar þetta er aðgætt, sýnist næsta efasamt, hvört rèttur sá, sem, eigandinn, eða ábúandinn, að landsvenju og lögum hefir, til að telja ekki innstæðu kúgyldin til tíundar, verði að því leiti skilinn frá jörðunni, þótt hún sè seld kúgyldalaus, eða þó kúgyldin sèu undantekin sölunni og seld sèr í lagi; eada stendur það í sjálfu sèr ekki framar í konúngs enn sèrhvörs annars seljanda valdi að gjöra slíkan aðskilnað. Aptur er hitt ekki síður efunarmál: hvört tilskipan frá 14 Mai 1834 — (er eg nú ætla að sè það boðorð, sem vonað er eptir í sölu skilmálum Hóla góz*i*us) sem fyrirskipar, að innstæðu kúgyldi hvörra 5 jarðar hundraða, þar sem fleiri eða færri ekki hafa fylgt bíngaðtil, skuli vera tíundarfrí, eða álítast tíunduð með jörðunni (þrátt fyrir tèða söluskilmála) — nái nú ekki líka yfir konúngsjarðirnar eða kaupendur þeirra og tilkomandi eigendur? Og má um það fullyrða svo mikið:

gjafar í eptirgjaldinu fyrir hana, þá getur hann þó eins sem áður liðið hallá af því, þareð tíunda-

nð þá menn vildu álíta, að oppboðs-kaupbréf þau með sölu skilmálum, sem kaupandi tekur við (eptir að konúngur hefir samþykt jarðasöluna) sèu lög fyrir kaupanda og alla eigendur síðan — þá er þetta, að svo miklu leiti téðri tíundar skyldu viðvíkur, ekki einúngis gagnstædt almennri landsvenju og lögum, heldur og án allrar lagaverkunar fyrir þá, sem kynnu að hafa keypt með sömu skilmálum áður enn tilskipan frá 14 Maí 1834 kom út, því þessi almenna löggjöf hlýtur þó að hafa ógyldt þau en eldri frábrugðnu lög, hvör helzt sem voru.

Enn fremur er í aungum þeim afsalsbrèfum, sem eg hefi sèð fyrir seldum konúngsjörðum í Gullbríngu og Kjósar sýslum — og þó eru þær, að því leiti þær eru seldar að uppboði, allar seldar með þeim sama skilmála: "að ekkert innstæðu kúgyldi hèreptir megi á þeim vera" — né heldur í ennum prentuðu stólsgóza sölu skilmálum, ákveðið, að tíunda skuli jarða- eða innstæðu-kúgyldin sèr í lagi; þau eru einúngis, einsog áður er ávikið, seld sèr í lagi líklega í því skyni, að fá þau þannig betur borguð, þar færstir horfa á að borga kúgyldin fullu verði, þegar þeir eru orðnir hæstbjóðandi að jörðunni, en kúgyldin síður hleypa fram kaupverðinu hjá almenníngi, sèu þau boðin upp ásamt með jörðinni. Þessvegna var það og hyggilega ákvarðað í Skálholtsjarða sölu skilmálum, að sèrhvört kúgyldi án nokkurrar uppbótar skyldi borgast 6 rd. (ef ekki byðist betur) af kaupanda jarðarinnar; þessvegna er einnig haldið nægilegt að selja konúngsjarða kúgyldin í Skaptafells sýslu sèr í lagi, án þess að taka það fram, hvört þau megi fylgja jörðunum hèðanaf eður ekki. Það er og að sjá af kaupbrèfum konúngsjarða þeirra, sem seldar hafa verið eptir samkomulagi eða eintómum konúngs úrskurði (án uppboðs; hvarámeðal og einúngis þarf

takendur eiga forgaungu rètt fyrir öðrum skuldaheimtumönnum — og sèrílagi landsdrottni, eða

að tilnefna Ófriðarstaði í Gullbríngu sýslu, sem konúngur árið 1812 seldi kaupmanni og Riddara Bjarna sál. Sivertsen), að kúgyldin eru seld ásamt þeim á venjulegan hátt, og án þess að taka til, hvört þau megi framvegis vera innstæða þeirra eður ekki. Þar sem þetta annars í kaupbrèfunum er fyrirmunað kaupendum, lætur að líkindum að það fremur sè af því, að Rentukammerið álítur skáðlegt að leggja landsetunum nauðugum þá byrði á herðar, að taka kúgyldin í ábirgð og gjalda eptir þau leigu, enn til að koma þeim undir tíundarskylduna; en það er hvörttveggja, að þetta er hvörki (öðrum) lögum vorum samhljóða, allra sízt kaupab. 15 kap. og tilskip. 15 Mai 1705 § 4, enda byggja líka konúngsjarða kaupendur eins eptir sem áður hindrunarlaust hinar keyptu jarðir með innstæðu kúgyldum og kúgylda leigu, og virðist mèr þetta eins mótstríðandi skilmálunum — en þótt lögum samkvæmt — einsog hitt er gagnstædt lögum og landsvenju, að krefja allan kvikfènað talin fram til lausafjártíundar af ábúendum enna fornu konúngsjarða, án tillits til tilskip. 14 Maí 1834, § 1. — Hafi kúgyldin fylgt jörðinni áður, virðast þau samkvæmt þessu lögboði framvegis mega vera tíundarfri, eða tíund þeirra (eins í Suðuramtinu og í hinum ömtunum) vera innifalin í jarðartíundinni, þar sem hún er goldin, en þar sem hún er ekki borguð, falla burt að öllu, hvörnig sem söluskilmálarnir fyrir jörðunum eða kúgyldunum að öðru leiti eru, og það því heldur, sem konúngs jarðirnar og enn síður stólajarðirnar eru eða voru seldar einúngis í ávinnings skyni, heldur einkum til þess að fjölga sjálfseignar bændum, eða til að aðstoða leiguliða til að eignast býli þeirra (sjá 4da þátt); það væri því sölu tilgánginum öldúngis gagnstædt, að leggja þá þýðingu í sölu skilmálana, að kaupendur þessara jarða

skuldakröfu hans um eptirgjaldið — að eigum þess sem gjalda á, ef ekki að fasteigninni, eða hjá eiganda hennar sjálfum, en landsdrottinn má þar fyrir utan ætíð telja sèr eða jörðinni óhag og skaða í vaxandi útgjöldum landseta til annarra; því af þeim getur leidt vanmáttur hans til að sitja og rækta jörðina eptir þörfum hennar.

Sá sem þarámóti lánar peníngana, kemst bæði hjá ennm fyrrnefnda handraðs (provento-)

---

yrðu verr farnir enn annarra jarða kaupendur, sem njóta hvervetna fullkomins tíundarfrelsis fyrir jarðakúgyldin, að fornri venju og almennum lögum. Meiningar manna um landsnot innstæðukúgyldanna hafa annars verið svo margbreyttar, að ekki er hægt um nú dæma, hvað þeir hafa fyrir augum haft, sem samið hafa skilmálana fyrir sölu stólsgózanna og jarðanna í Kjósar og Gullbríngu sýslum, er þeir skuruðu á, að innstæðu kúgyldi ekki mættu vera á jörðunum. [Smbr. nýnefndan stað í Félagsr.; Eggers *Schilderung*, bls. 114—117 og *lærde Efterretninger* 1786, bls. 421—22; ritgjörð Amtmanns Riddara Thorsteinsons, bls. 149—52 og Æfisögu Jóns Eirikssonar bls. 128, 136, 145 og 162]. Nú þarámóti virðist sem löggjafarinn að minnsta kosti sè orðinn þeim meðmæltur, þareð tilskip. 14 Maí 1834 (sem að mestu leiti enda byggir tíundarskylduna á *samkomulagi landsdrottins* og *leiguliða* um jarðar kúgylda töluna, að því leiti hún er ekki meiri enn fyrir hvör 5 jarðarhundruð), lætur öll innstæðukúgyldi vera tíundarfrí. Eg fyrir mitt leiti er á því, að landinu mundi standa miklu meira happ af, að leigu jarðirnar væru án innstæðukúgylda, svo að hvörki landsdrottinn hefði að reiða sig á leiguna, nè leiguliði á þenna bústofn; því eg ætla að þvílíkt skipulag yrði nýtt meðal til sjálfseigna fjölgunar og betri vegunar leiguliðanna, ámeðan nokkrir eru eptir.

skatti og öllu árs útsvari af þeim eða af skuldabrèfunum; því hvört það nú er með rèttu eður raungu, þá hefir hèr lengst af og víðast hvar viðgengist, að telja alls ekki peninga fram til tíundar[1]) fremur enn annarstaðar í ríkinu, enda sýnist og eðli peninga eignarinnar í rauninni að gefa allálitlega ástæðu til þess. Ekki svomikið sem þinglýsíng veðskuldabrèfanna kemur lánardrottni til byrðar; því hana (sem eptir upphæð lánsins þó getur stigið upp í nokkurra ríkisbánkadala virði) er, einsog áður er ávikið (bls. 107 skgr. smbr. bls. 56 skgr. 1), alvenja að skuldunauturinn borgi, undireins og laun fyrir að aflýsa skuldabrèfinu í rèttinum og afmá það í veðmálabókinni. Sá sem kaupir jarðir hlýtur aptur á móti venjulegast, og þegar ekki er öðruvísi um samið, að borga þínglýsíngu kaupbrèfs síns sèr í lagi.

En mesti hagurinn af að brúka peníngana heldur til skuldabrèfa enn til jarðakaupa, fyrir eigandan, er þó þarí fólginn,

2. að hann ekki, einsog híngaðtil hefir viðgengist í landinu, er neyddur til að vera að safna þeim, og láta þá liggja arðlausa þángaðtil þeir taka jarð-

---

[1]) Fyrirskip. 17 Júli 1782 § 1, (smbr. Amtm. Thorsteinsons rit, *bls. 43—44 og 47*), *sem bauð*, að vaxtarlausa peninga skyldi tíunda, 10 spesíndali fyrir hundrað og 20 rd. fyrir hálft hundrað á landsvísu, hafði meðfram þann góða tilgáng, að hvetja Íslendínga með þessu móti til að *brúka peninga* þeirra *og setja* þá á vöxtu, en reynslan hefir sýnt, að boðorðið hefir fært álíka lítin ávöxt þeim sem peníngana áttu og hinum sem tíundina áttu.

arverði; því sèu fleiri til enn þarf til vinnukaupa, jarðarræktar og annarra heimilishagsmuna, þá er optastnær hægt, þar sem peníngalán er innleidt og í gengi, að koma peníngunum út á vöxtu, þó minna nemi enn heilu jarðarverði, og mun það ekki verða torveldara á Íslandi, enn annarstaðar í ríkinu, geti peníngalán hèr farið að tíðkast, að koma jafnvel 20—50 rbd. út á leigu; en verði svo lítið fyrir hendi, að því verði ekki komið á vöxtu, er það til ráða, að fleiri slái sèr saman til að fylla töluna, til hjálpar þeim sem meira þurfa og veð hafa að bjóða; geta fèlagar þessir þá gjört hvört þeir vilja, að láta skuldunautin gefa öllum þeim skuldabrèf fyrir öllum peníngunum, eða hvörjum fyrir hans hluta, og er það að sönnu nokkru vissara og umstángsminna enn hitt fyrir lánardrottnana, sem búa kynnu fjærlægir hvörr öðrum, en aptur kostnaðarmeira fyrir skuldunautin, þareð þínglýsíngin þá fèlli honum þýngra, enn ef hann einúngis þyrfti að kosta uppá þínglýsíngu eins skuldabrèfs, sem nöfn allra lánardrottnanna geta staðið í, með lánstillagi sèrhvörs þeirra; þar má einnig ákvarða apturgjald höfuðstóls og rentu til hvörs um sig, svoað allir hafi vissu fyrir sèr, að einn geti ekki annan svikið, og til enn frekari vissu hèr um, má þaraðauki geyma skuldabrèfið hjá einhvörjum óvilhöllum manni útifrá, ef lánardrottnarnir ekki treysta vel hvörr öðrum. Með þessu móti þurfa peníngar, hvörsu litlu sem þeir nema, aldrei að liggja arð- eða ávaxtar-lausir hjá neinum; og hvað væri ekki með þessu áunnið til heilla landsbúum, þegar

litið er á, hve talsverðir peníngar ár frá ári hafa að venju legið hèr ávaxtarlausir, vegna þess að menn annaðhvört ekki brúkuðu þá, eða settu þá einúngis í jarðaskrokkana, og urðu þessvegna að liggja á þeim, þángaðtil nóg var komið til að únga út fyrir jörð eða jarðarpart? og hvílíkt gagn væri ekki samheldnum vinnuhjúum og öðrum, er með handafla sínum verða að sjá fyrir sèr og safna ættu til að reisa bú, eða til framfæris sèr og sínum eptirleiðis, að þvílíkri brúkun vinnukaupsins, þar sem öll vinnuhjú, ennþá sem komið er, hafa orðið að geyma sparifè sitt arðlaust í kistuhandraða sínum? Með geymslu þessari eða brúknnarleysinu má segja, að eigandi eyði peníuga eign sinni eða hennar virði á 25 árum einsog hann líka hins vegar tvöfaldar hana á jafnlaungum tíma, sè hún á lagavexti: þá bætist árlega við innstæðuna $\frac{1}{25}$ partur, (4 af 100) og þannig aflar á 25 árum, þúsund dala annarrar þúsundar, hundrað hundraðs, 50 annarra 50, 25 annarra 25 rbd. o. s. frv., auk ávaxtarins af rentu árs hvörs eða r e n t u r e n t u, og sýnist minna mega gagn gjöra í samanburði við jarðakaupin, ámeðan landsdrottinn verður að hafa allt í frammi til að rembast við að ná 3 af 100 í eptirgjaldinu, (sbr. 5ta þáttin).

3. Þ e s s e r á ð u r g e t i ð (í 5ta þættinum), að e f n a m a n n i n u m v e i t i ö l l u h æ g r a o g u m s t á u g s m i n n a a ð s e t j a p e n í n g a n a á r e n t u, e ð a a ð e i g a v e ð s k u l d a b r è f i n e n n j a r ð i r n a r, og þetta á einkanlega við hjá oss, ekki einúngis hjá lánardrottnum heldur og einnig hjá skuldunautum. Báðir eiga þeir erindi á manntalsþíngin, sem haldin eru venjulegast um það bil,

sem vant er að hafa peníngaviðskipti, fyrir og um 11 Júní; hvörugur þarf þá, ef báðir búa innan sýslu, að gjöra sèr ferð til annars eptir láninu eða ársrentunni. Þar er báðum hægt að taka á móti henni og láta hana af hendi, og þar eru líka svo margir samankomnir, að optastnær verður auðveldt að fá liðsinni annarra í bráð til að fylla rentu- eða láns-upphæðina, einsog líka þar má veita þess hægra að útvega sèr peníngalán, sem þar eru allir eða flestir sýslubúar saman komnir, og þessi þíng eru þau einu sem skulda- eða öðrum - brèfum er þínglýst á að áheyranda þíngheiminum, svo hvörr einn getur sjálfur fullvissað sig um allt það, sem verða mætti veðmálarètti hans til hnekkis. Hèr hefir því þínglýsingin sömu verulegu rèttar-þýðíngu og verkun, sem hún, að ætlun laganna og ákvörðun, frá öndverðu átti að hafa, en sem hún hvörgi annarstaðar í rauninni getur einsvel haft, og er það þá ekki ofhermt, að manntalsþíngin sèu eins hentugir peníngaverzlunarstaðir einsog þau eru lögð til að vera það; má og vera að þau, þegar fram líða stundir, geti orðið Íslendíngum að álíka liði í peníngaverzluninni einsog hið svo nefnda *Viborg-Snapsting* áður var Jótum, sbr. Landaskipunarfræðina 1 B. 2 D. bls. 84. Jarðeigendurnir þarámóti og landsetar þeirra fara á mis við þenna hagnað: því þó vel eigi við, að fala og bjóða jarðir til kaups á manntalsþíngunum, er samt færstum hagur í, að taka þar ámóti eða gjalda leigur eða landskuldareyrir, enda er ekki þarmeð búið, ef eigandi á að sjá svo um jarðareign sína, að ekkert fari forgörðum.

4. Margir jarðeigendur eru ekki búfastari í nánd við fasteignir sínar enn svo, að litlu þarf að skipta til þess að þeir flytji frá einum stað til annars, jafnvel í aðra landsfjórðúnga, hvar þær missa hans umsjónar við, sem þó er á svo margan hátt ómissandi, og olla honum aukakostnaðar til umboðsmanns og flutnínga á landskuld og leigum. Þessa óhagnaðar gætir þarámóti ekki hjá lánardrottni, því eiganda veðfjárins er það fyrir mestu, að veðfènu sè haldið vel við og að það taki framförum, svo það geti gefið æ betri fullvissu fyrir innstæðu og rentu borguninni; enda hefir lánardrottinn, einsog fyrr var ávikið, ávöxt sinn af veðskuldabrèfunum óskertan, hvört heldur þau eru gefin fjær honum eða nær; skuldunauturinn lætur sèr lynda, að senda honum fulla lagarentu hvört sem er, á sjálfs síns kostnað, án þess að þörf gjörist að láta hana gánga ígegnum eyðslugreipar umboðsmanna, einsog opt ber við um afgjöld af fjærlægum jörðum.

5. Framvegis má það telja veðskuldabrèfunum, í samanburði við jarðaeignina, til gyldis (sbr. 5 þátt, bls. 115-18), að eigandi veðskuldabrèfanna á öllu hægra með að verða peninga sinna aptur ráðandi, þegar hann þarf á að halda — og getur þetta einnig komið skuldunautunum að notum — enn jarðaeigandinn: því auk þess, að lánardrottinn getur skorað á í skuldabrèfinu, að skuldunauturinn skuli endurborga penínga láuið að árs, misseris eða hálfs misseris fresti eptir að þeim er sagt lausum, eður og án allrar uppsagnar; er honum þarhjá innanhandar,

að selja öðrum skuldabrèfin, þegar hann þarf penínganna við fyrir ákveðin gjalddaga, eða ef hann vill einhvörra orsaka vegna skilja þau við sig. Þetta veitir honum öllu hægra enn jarðeigendunum að skilja sig við jarðir þeirra, ámeðan peníngalán er ekki fullkomlega komið á gáng, eða ámeðan einginn kaupir, nema borgað geti hann allt jarðarverðið útí hönd. Eins verður þeim, sem veð hefir fyrir peníngunum, hæglegast hjálpað um nýtt lán með því móti: að hinn fyrri lánardrottinn framselur *(transporterer)* þeim, sem aptur vill lána í skarðið, veðskuldabrèf sitt, fyrir fullan höfuðstól þess eða umsamið verð, öllum umstángs- og kostnaðarlaust, því kaupandi þekkir optastnær veðfèð (sem ad venju tekur lángt yfir upphæð skuldabrèfsins) svo vel, að hann biklaust getur keypt veðbrèfið án þess nákvæmar að kynna sèr ástand veðfjárins eða gæði, eða — einsog jarða kaupendurnir — að þurfa að óttast um ítök annarra, óviss landamerki og þaraf rísandi landaþrætur o. s. frv., enda er líka framsalan (framsalsbrèfið) fullgyld óþínglesin. Nóg er, að eigandi veðskuldabrèfanna hafi þau sjálf meðferðis og á boðstólum við þá, sem vaxtarlausa peínga eiga fyrirliggjandi til að innleysa þau með, þareð þau sjálf bera sèr nóg vitni um áreiðanlegleika sinn, þegar búið er að þínglýsa þeim, og sýslumaður hefir ritað á þau skírslu sína, bæði um það og um aðrar veðskuldir skuldunautarins (ef nokkrar aðrar vera kynnu veðmálanum til hnekkis), þau geta þessvegna gengið út í fjarska bæði við veðfèð og skuldunautin, og þaraðauki verið sjálf bezta veð fyrir peníngaláni,

efeigandi þeirra þarf á peníngum að halda áður enn hann fær sagt þeim lausum, eða ef sá sem þau tekur til handsöluveðs ekki getur, eða einhvörra orsaka vegna ekki má, innleysa þau að fullu og öllu. Koma menn sèr þá saman um, að sá, sem veðskulda brèfið í höndum hefir (þ. e. nð veði), taki við leigu þess hjá skuldnnautinum, svo sem svarar laga ávexti penínga þeirra, er hann sjálfur fèkk að láni (sbr. L. 5—7—9), og hefir hann, til sannínda merkis um það, veðmála brèf skuldunautar síns meðferðis[1]), sem sýnir veðrètt heggja þeirra og skyldur í tilliti til hins veðsetta skuldabrèfs. Sbr. tilskip. 9. Febr. 1798.

6. Standi skuldunauturinn ekki í skilum, eða gjaldi hann ekki í eindaga höfuðstólin eða ena ákveðnu rentu, þá mun loksins einginn eiga hægra með að ná rètti sínum enn lánardrottinn. Hann hefir öll gögn þau, sem hann þarf á að halda, í höndum sèr, hafi hann að eins veðskuldabrèfið, og þarf einkis annars við til að fá skuldunant sinn dæmdan til að greiða sèr skuld sína, ásamt málskostnaði (sem í þvílíkum málum

[1]) Veðbrèfi þessu þarf ekki að þínglýsa, heldur enn öðrum þeim skuldabrèfum, sem leggja handselt veðfè fyrir skuldum, og er því ekki einúngis kostnaður, heldur og töluverdt ómak sparað hvörutveggjum hlutaðeigendum við þvílíka verzlun og veðsetníngu skuldabrèfanna. Annars er ráðlegast, að lánardrottinn, þegar þannig á stendur, gefi skuldunauti sínum skriflega meðkenníngu um móttöku ens veðsetta skuldabrèfs, hvörnig með það skuli fara og með rentuna, ámeðan seinni skuldinni eigi er lokið, o. s. frv.

sjaldnast er mikill), enn að kæra málið fyrir Sættanefndinni, og ef þar verður ekki sættum á komið, fyrir rèttinum. Eptir dóminum verður veðið honum greiðt af fógeta (sýslumanni), og að auki aðrar eigur skuldunautar, hrökkvi veðið ekki til. Því næst eru eins útgreiddu munir seldir við opinbert uppboð til hæst bjóðenda, hafi lánardrottinn ekki upphaflega komið sèr saman um við skuldunautinn, að taka veðið sjálfur fyrir víst ákveðið verð, ef útaf ber skilunum, því þá hefir hann (lánardrottinn) í sínu valdi, að sæta þeim kjörum, og borga skuldunautinum það sem skortir í láninu uppá hið umsamda verð veðfjárins, (D. L. 5—7—8, 11 og 17; sbr. tilskip. 11 Sept. 1833). Hvörsu flókin og kostnaðarsöm opt og tíðum útbyggíngar mál vor þarámóti geta verið, mun flestum landa minna kunnugt, og er það eptir lánga mæðu og þras alloptast tvísýnt, hvört þau falla á landsdrottin eða landseta, svoað hinum eins geta orðið þau til eintóms kostnaðar einsog þessum til áfellis eða útdráttar.

Þannig ætla eg mig þá hafa vakið máls á þeim ennum alþjóðlegustu atriðum þínglýsínga, jarðakaupa, veðsetnínga og peníngabrúkunar hèr á landi, er mèr að svo stöddu helzt þótti umhugsunar og athuga verð. Að gefa ýtarlegri ávísun um veðmála rèttin yfirhöfuð, eptir ennm dönsku lögum, og um enar ýmislegu tegundir skuldabrèfa, sem viðgángast annarstaðar, þar sem peníngalán er tíðkanlegra og margbreyttara enn hjá oss, hefði vel mátt tilhlýða, ef reynslan hefði sýnt þess þörf; en bæði af því, að öðru máli gegnir hèr á landi enn sem komið er,

og það hefði gjört hugvekju þessa lángtum lengri enn eg ætlaði mèr, læt eg það að þessu sinni hjá líða. Mèr þykir því ekki heldur nein nauðsyn til, að lengja hugvekju þessa með ýtarlegri ávísun um handsölu- eða brúkunarveð, enda er hvörutveggi þessi veðsetníngarmáti útskírður með sjálfu nafninu, og svo einfaldur, að færstum þarf að gefa reglur um hann til þess að láninu sè borgið; læt eg því og nægja hèr að geta þess: að lánardrottinn getur eins áskilið sèr lagarentu af þeim sem leggur honum handselt veð (hvört heldur til brúkunar eður eigi) eins og þeim sem veðmælir honum fasteign sína sjálfhaldsveði, að sèrhvörr hefir í sjálfs valdi að lána án þess að taka nokkurt veð fyrir peníngunum, og að renta yfirhöfuð ekki verður heimtuð af neinum, nema hún sè áskilin. Þarámóti á það við höfuðefnið og aðaltilgáng minn að þessu sinni, að athuga nokkru ýtarlegar enn búið er: að fleiri enn einn geta verið veðhafandi lánardrottnar ens sama skuldunautar, á þá lund, að þeir allir hafa veð í sama veðfè, og má þetta verða bæði með því móti, að þeir hafa sama veðrètt hvörr fyrir sínum lánspeníngum — enda fá þeir þá eigi að síður fullborgaða, ef veðfèð hrökkur til, og ef það verður eigi nóg til að fullborga þeim öllum, þá að tiltölu *(pro rata)* eptir hvörs eins láns upphæð — eða þannig, einsog helzt er venja til, að þeir taka veð í fasteigninni í ákveðinni röð og með ákveðnum forgangurètti *(Prioritet)* til lúkníngar lánsfjár hvörs um sig, þannig, að sá sem áskilur sèr fyrsta eða bezta forgangsrètt í veðfènu fær fullvissu um lúkn-

íngu peninga sinna framyfir þá, sem einúngis áskilja sèr enn síðari *(secundaire)* nl. annan eða þriðja (o. s. frv.) forgaungu rètt. Á þenna hátt getur sama fasteignin í einn verið veðsett mörgum, með fyrsta, öðrum, þriðja o. fl. forgaungu rètti, t. a. m. fyrir 400 rbd. með fyrsta, 300 rbd. með öðrum, og 700 rbd. með þriðja forgaungu rètti, o. s. frv. Sè hún nú ekki 1400 rbd. virði og skuldunauturinn eigi heldur geti fullnægt þeim lánardrottnum sínum, er nokkuð kynni að vanta til að geta fengið lánið að öllu borgað með verði veðfjárins, af öðrum fjármunum sínum, þá verða þeir á hakanum sem höfðu þann hinn lakara forgaungu rèttinn í veðfènu fyrir láni sínu. Hinsvegar er öllum óhætt að láta sèr nægja með hvörn forgaungu rèttinn sem er, eptir tiltekna peninga upphæð, ámeðan þeir lánardrottnar, sem eru á undan honum, ekki hafa fengið veð fyrir meiru í fasteigninni enn auðsèð er að hún ætíð sè fær um að bera, ásamt með enu seinna forgaungurèttar láni, svo að lánardrottni í ranninum má standa á sama hvört hann lánar t. a. m. með fyrsta eða fimmta forgaungu rètti, þareð hann hvörteð er verður að sjá um, að lána ekki meira, enn hann fær fullvissu eða veð fyrir, og hann að öðru leiti hefir allan enn sama rètt mót skuldunauti sínum, hvörn veðtöku mátan eða forgaungu rèttin sem hann kýs.

Að svo mæltu ætla eg ekki fjærri vegi að tengja hèr við

# X. SÝNISHORNI AFSALS- OG VEÐSKULDA-BRÈFA FYRIR JÖRÐUM, FRAMSÖLU BRÈFA OG KVITTANA.

## 1. Afsalsbrèf.

Eg undirskrifaður Árni Bergsson, bóndi á Flóagafli í Flóamannahrepp, Árness sýslu og Íslands Suðuramti, kannast við og gjöri hèrmeð heyrum kunnugt: að eg, samkvæmt kaupsamníngi frá 11 Desbr. f. á., hefi selt og afhendt, einsog eg með þessu afsalsbrèfi mínu afsala mèr og erfíngjum mínum, til handa fyrrveranda landseta mínum, bóndanum Kára Daðasyni eignar- (og óðals) jörð mína Kópsvatn í Hrunamanna hrepp og sömu sýslu, 20 hundruð að dýrleika með 4 kúgyldum, ásamt öllum hennar húsum og byggíngum, einsog þau nú eru, með öllum þeim gögnum og gæðum, eignum og ítökum, sem henni fylgt hafa (á vatni og landi), einsog eg híngaðtil hefi átt hana (eptir afsalsbrèfi frá 12 Jan. 1830, sem eg hèrmeð enn fremur afhendi kaupanda, ásamt öllum eldri eignarskjölum, máldögum og lögfestum jarðarinnar) að afsöluðum öllum óðals og innlausnarrètti til tèðrar jarðar af minni og erfíngja minna hálfu, fyrir umsamið kaupverð 800 rbd. r. s., segi: átta hundruð ríkisbánkadali reiðu silfurs, hvaraf þriðjúngi, eða 266 rbd. 64 sk. er lokið úti hönd með peníngum, en tveim þriðjúngum eða 533 rbd. 32 sk. r. s. með leiguhærn *(rentebærende)* fyrsta forgangurèttar veðskuldarbrèfi.

Kaupandi gengur því þegar að kaupi og eign sinni, er hann upp hèðan með fyllsta eignarrètti

nýtir og hagnýtir, einsog hann bezt hefir kost og vit á; en skyldi, mót von, nokkrir meinbugir þará verða að lögum, svarar seljandi kaupriptíngum og öllum þaraf leiðanda kostnaði, svo að kaupandi sè skaðlaus að öllu. — Framan skrifuðu til fullvissu undirskrifa eg og innsigla þetta afsalsbrèf mitt, í nærveru bændanna Konráðs Einarssonar á Þórisstöðum og Einars Finnssonar á Miðhúsum í Flóamanna hrepp, með eigin hendi og signeti.

Flóagafli 14 Janúar 1840.

Árni Bergsson

(L. S.)

sem vitundarvottar:

Konráð Einarsson Einar Finnsson.

Það er alvani hèr á landi, að láta afsalsbrèfið innihalda sölu- eða kaupskilmálana á báðar síður, hvörsvegna líka bæði seljandi og kaupandi eru vanir að skrifa undir afsalsbrèfið, eða "kaupgjörníngin" svokallaðan. Að sönnu ríður það, einsog áður var á vikið (bls. 32 skír. gr. 1), á minnstu, hvört þessum eða hinum mátanum er fylgt, gefi skjalið einúngis fullkomna eignar heimilun. En fullgjörist ekki kaupin (með afsalsbrèfinu og þínglýsíngu þess) af beggja hlutaðeigenda hálfu, undir eins og um þau er samið — sem þó sjaldan verður og sjaldan er hægt, nema peníngarnir sèu fyrirliggjandi og jarðarverðið sè goldið þegar í stað — verður þó varlegra, að semja skriflega söluskilmála, sem ákveða: hve mikið kaupverðið er; hvönær og hvörnig það skuli borga; hvört í tómum peningum eða meðfram í landaurum, og þá af hvörju tægi, eða í skuldabrèfum með

veði í jörðunni, og nær brèfin þá skuli útgefin og fyrir hve miklu af jarðarverðinu, eða í skuldabrèfum útgefnum af öðrum útífrá og framsölnðum seljanda, hvör þessi þá sèu og hvönær framsalan *(Transport)* eigi fram að fara, eða í konúnglegum skuldabrèfum, og nær þau þá skuli framselja; eða enn fremur í próventu eða forsorgun seljanda, og hvað próventan þá sè metin árlega (til ávísunar um ½ pro cento afgjaldið, er 4 rbd. í ársafgjald eða forsorgun eru gjörðir jafnir 100 rbdala höfuðstóli, og um útreikníng afgjaldsins af þesskonar kaupverði, sjá tilskipun 8 Febr. 1810 § 2 a); hvörr njóta skuli eptirgjalds eða afrakstrar fasteignarinnar, þángaðtil seljandi afsalar sèr hana að fullu og öllu og kaupandi tekur við; hvörr gjalda skuli jarðakaupskostnaðin (þ. e. ½ pro cento laun fyrir þínglýsíngu kaupsamníngsins, afsalsbrèfsins og veðskuldabrèfsins m. m.), skatt af fasteigninni þángaðtil kaupandi tekur við og annað þesskonar; hvað með jörðinni fylgi (t. a. m. hús, kúgyldi, ítök, hlynnindi til lands eða vatns — sè nokkurt vatn í landar eigninni — og áhöld föst eða laus útan húss eða innan); hvenær seljandi (búi hann sjálfur á jörðunni) skuli víkja fyrir kaupanda, og þessi, eða þá annarr hans vegna, taka við; í hvörs ábirgð eignin þángaðtil sè og hvörr skaðan bera skuli, verði hún fyrir tjóni eða áföllum af eldi, skriðum, sjáfar- eða vatns-ágángi, þángaðtil kaupin eru fullgjörð, þ. e. þángaðtil kaupandi hefir tekið við eign sinni, eða afsalsbrèfinu er þínglýst. — Þvílíkan samníng ættu hlutaðeigendur að hafa í tvennu lagi, og

kaupandi þarnæst að láta sínum þínglýsa, eða sýna hann sýslumanni, til að geta fengið þá fullvissu, er hann heitir honum, en sem hann þó fyrst öðlast mót þriðja manni með þínglýsíngunni. — Í kaupsamníngunum má og meðal annars ákvarða, hvönær útgefa skuli afsalsbrèfið (með hvörju seljandi fyrst gjörir kaupanda rèttan eiganda að fasteigninni); en þetta ætti aldrei að verða fyrr, enn seljandi hefir fengið jarðarverðið borgað, eða honum með öðru móti (t. d. með veðskuldabrèfi) er fullnægt fyrir það af kaupanda. Seljandi ætti og að selja fasteignina frjálsa af öllum ógoldnum sköttum og eptirgjöldum, sem annars geta ollað sölunni tálma, af þeirra hálfu sem afgjaldanna krefjast. Það er sjálfsagt, að afsalsbrèfinu, eins og öðrum þeim skjölum sem fasteigninni viðkoma, á að þínglýsa á því þíngi sem fasteignin á þíngsókn að, og er það kaupanda í sjálfs valdi, að fullvissa sig um heimild seljanda fyrir fasteigninni og rètt hans til að selja hana, áður enn kaupin verða fullgjörð. Þó ætla eg að hèr sè ekki ofaukið varúðarreglum þeim, sem lögvitríngurinn konferenzráð Örsteð gefur kaupanda sèrhvörrar fasteignar (í *Formularbog* 5ta upplagi, bls. 72), með þessum orðum: "að öðru leiti hlýtur kaupandi, þegar hann tekur við afsalsbrèfinu, ætíð að sjá um, að sá sem gefur það út hafi löglegan tilkallsrètt (*Adkomst*) að hinni afsöluðu fasteign, sè hún ekki seld honum sjálfum, og hann sem erfíngi, ektamaki, eða á annan þvílíkan hátt, þykist hafa rètt til að ráða yfir eign þeirri sem öðrum er seld (þ. e. áður); má því kaupandi krefja hann sönnunar um þetta. Enda

þar sem kaupandi ekki efast með sjálfum sèr um rètt seljanda til sölunnar, er það þó nauðsynlegt að útvega sönnun þessa, svo að rèttarþjóninn riti ekki neina þá athugasemd á afsalsbrèfið, er vakið geti vantraust annarra, sem eigandinn (kaupandinn) eptir á kynni að vilja selja eða veðsetja fasteignina. Sömuleiðis má kaupandi fullvissa sig um, að útgefandi afsalsbrèfsins ekki hafi útgefið neitt þínglýst skjal, hvört heldur afsalsbrèf, veðskuldabrèf, leigusamníng (byggíngarbrèf), kaupsamníng, ítaksskjal, eða annað, sem tekið gæti frá honum full umráð yfir eigninni, og að heldur ekki neinn sá atburður hafi orðið, sem svipta má umráða-rètti yfir eigum sínum" [þ. e. að seljandi sè myndugur, heilvita, að hann ekki hafi gefið próventu sína, eða honum sè með kyrrsetníngum, æðri rètta stefnu, dómi, sáttargjörð (forlíkun), eða á annan hátt, bönnuð umráð yfir eigum sínum, eða eign sinni þeirri, sem hann vill selja eða ráða yfir]. "Um allt þetta má fyrirfram fá skírslu hlutaðeiganda rèttar-þjóns (veðbókar skírslu, veðmála-seðil), en hvört sem er, mun hann við þínglýsíngu skjalsins gefa því gætur, og ef hann finnur nokkuð ábótavant við rètt seljanda til að gefa út afsalsbrèfið, þá líka þarum rita á það athugasemdir sínar". — Það má og vel til hlýða og verða að miklum notum, að landamerki jarðarinnar til móts við aðrar jarðir sèu tilgreind í afsalsbrèfinu, því með því yrðu opt reistar skorður við landaþrætu málum.

## 2. Veðskuldarbrèf.

Eg undirskrifaður Kári Daðason, eigineignarbóndi á Kópsvatni í Hrunamannahrepp, Árness sýslu og Íslands Suðuramti, viðurkenni og gjöri hèrmeð heyrum kunnugt: að eg er orðinn bóndanum Árna Bergssyni á Flóagafli í Flóamannahrepp og greindri sýslu, skuldugur um peninga, að upphæð 533 rbd. 32 sk. r. s., sem eptir standa af andvirði tèðrar jarðar, er eg að honum keypt hefi. Því skuldbind eg mig og erfingja mína með veðskuldarbrèfi þessu, ekki einúngis til að borga velnefndum lánardrottni mínum eða veðskuldarbrèfs þessa rèttum eiganda, tèða fimm hundruð þrjátigi og þrjá Ríkisbánkadali, trö mörk reiðu silfurs — að tilteknum hálfs misseris uppsagnar fresti fyrir ákveðin gjalddaga, 11ta Júní, af annarshvörs okkar hálfu, þó þannig, að skuld þessari ekki verði sagt lausri af lánardrottni fyrr enn að 10 ára fresti; — heldur og til að svara lagarentu, 4 af 100, þann 11ta Júní árs hvörs á heimili lánardrottins míns, hvar sem vera kynni (hèr á landi), frá 11ta Des. f. á. og allt þángaðtil lánið er endurborgað. Svo gef eg og lánardrottni mínum fyrsta forgannguveð fyrir skuldinni og ákveðinni árs rentu, í tèðri eignarjörðu minni, 20 hundruðum að dýrleika, með 4 innstæðu kúgyldum, ásamt öllum húsum hennar, byggingum, eignum, ítökum og hlynnindum, hvörju nafni sem heita. Skyldi, mót von, nokkurr ágreiníngur eða þræta rísa útaf láni þessu, skuldbind eg mig til að bera allan þaraf leiðanda kostnað, lánardrottni með öllu að skaðlausu, einnig til að borga þínglýsíngu veðskuldarbrèfs þessa, sem

eg að lyktum staðfesti með eigin handar undirskript minni og innsigli, í nærveru bændanna Konráðs Einarssonar á þórisstöðum og Einars Finnssonar á Miðhúsum í Flóamannahrepp.

staddur að Flóagafli, 14 Jan. 1840.

Kári Daðason

(L. S.)

sem vitundarvottar:

Konráð Einarsson Einar Finnsson.

Eins og það á vel við í jarðakaupum, til að komast hjá misskilníngi og þrasi, að tilgreina, með hvörju eða hvörnig fasteignin sè borguð (hvað þó raunar á betur við í kaupsamníngunum, enn í afsalsbrèfinu sjálfu), eins er vel til fallið, að skíra frá í skuldabrèfum, svo sem hèr var gjört: hvörnig lánið hafi atvikast og sè stofnað (þ. e. frá skuldar efninu); hvemikil renta (sem ekki má vera meiri enn 4 af 100, samkvæmt tilskip. 20 Marts 1815 § 7) sè ákveðin, og stendur það eins í valdi hlutaðeigenda, að koma sèr saman um, að goldinn sè 1 einsog 4 af 100; hvört höfuðstóll og renta skuli hafa forgaungu rètt fyrir seinni *(secundaire)* peníngaskuldum, þareð rentan einúngis um 1 ár eptir eindaga býr að sömu veðkjörum og höfuðstóllinn, nema þetta sè áskilið (tilskip. 12 Marts 1790 og Kansellíbrèf 9 Septbr. s. á.); hvörr vera skuli gjalddagi *(Omslags Termin)* höfuðstóls og rentu, er lög vor þegja um, og sem því verður að ákvarða, þó tíðkanlegast sè að hafa hèr penínga viðskipti 11ta Júní, eða nokkru fyrr eða seinna eptir sem á stendur; hvar höfuðstól eða rentu skuli gjalda, sem annars mætti

verða ágreiningur um, sèrílagi ef lánardrottinn flytur búferlum, eða býr lángt burtu frá skuldunauti sínum; hve lengi skuldunauturinn megi halda láninu óuppsögðu af lánardrottins hálfu, eða hve lengi sjálfur hann undirgengst að halda því, þareð hvörntveggjum annars er í sjálfsvaldi að segja því lausu þegar, með þeim (uppsagnar) fresti er þeir báðir áskilja; og verður því einnig að tilgreina þann frest. Annars er sèrhvörjum þeirra eins leyfilegt, að afsala sèr allan rètt til uppsagnar (gjalds eða móttöku) og er þá forsjállegast að fastráða það í sjálfu skuldabrèfinu; einnig, sem sjálfsagt er, hvört borga skuli lánið án allrar uppsagnar, einkum sè það stofnað að eins um tiltekin tíma. Enn skal það tilgreint með berum orðum, ef hlutaðeigendum hefir komið saman um, að gjalda skuli lánið smámsaman, að eindögum (*i Terminer*, t. d. 400 rbd. á 8 árum: 50 rbd. 11ta Júní árs hvörs), eins hvört það allt skuli vera fallið til endurgreiðslu án allrar uppsagnar, sè hið ákveðna eindaga gjald eða rentugjaldið ekki lokið á rèttum tilteknum gjalddaga árs hvörs, hvað að vísu kynni að virðast samkvæmt D. L. 5—7—2 og 8, en gæti þó verið efa undirorpið, og kveða menn því stundum á, að nokkrum tilteknum tíma (til að m. einum mánuði) eptir að hluta lánsins eða rentunni átti að vera lokið, skuli allt lánið vera fallið til borgunar án frekari uppsagnar, svo og ef skattar og afgjöld safnast á lánardrottin, eða veðfènu ekki er dyggilega haldið við. Sömuleiðis: hvört lánardrottinn eða skuldunautur (annarr eða báðir) skuli segja öllu láninu lausu, eða hvört nokkrum hluta þess

líka megi segja lausn af öðrum hvörjum; er einkum áríðandi að kveða það á, sèu fleiri enn einn hluttakandi í skuldabrèfinu, sem skuldunauturinn varla muu þurfa að borga eða lánardrottinn geta heimtað öðruvísi enn í heilu lagi, sè það ekki berlega áskorðað (tilskip. 7 Júní 1827 § 9, sbr. *jurid. Tidsskr.* 29 B. bls. 142—43). Enn skal það ákveðið, ef skuldunauturinn fær einhvörn til að gánga í borgun fyrir sig, hvört borgunarmaður þá skuldbindi sig til að gánga í stað skuldunautar (sem *Cautionist* og *Selvskyldner)* eða einúngis til, því að eins að gángast undir skuldina, ef skuldunauturinn ekki sjálfur getur borgað hana (sem *simpel Cautionist)*; þá getur lánardrottinn í fyrra tilfellinu þegar, og án þess að leita skuldunautar síns, krafið borgunarmanuin, en í seinna tilfellinu ekki fyrr enn útsèð er um, hvört skuldunauturinn ekki sjálfur fær borgað; einnig (skal tiltekið) hvört og hvílíkt veð borgunarmaður gefur lánardrottni, og má þínglýsíng borgunarskjalsins, hvört heldur það er gefið út sèr í lagi eða borgunarmaðurinn skuldbindur sig í sjálfu skuldabrèfinu (sem bezt á við og tíðkanlegast er), fara fram á því þíngi, sem hin veðsetta eign á þíngsókn að; borgunarmaðurinn ætti aptur á móti, sèr til fullvissu, að áskilja sèr af lánardrottni rètt til að fá veðskuldabrèfið framsalað af honum, ef hann (borgunarmaðurinn) kynni að neyðast til að uppfylla það skuldunautarins vegna, svo að hann fái þannig hið sama veð og sóknarrètt gegn þessum, sem lánardrottinn hafði; svo geta og borgunarmenn fyrir láni hvörju verið fleiri enn einn, og það bæði hvörr sèr í lagi, þ. e. hvörr

fyrir tiltekinni láns upphæð, og líka í sameiníngu, þannig, að allir sèu eins skuldbundnir og hvörr fyrir annan *(correaliter)*, og á lánardrottinn þá aðgángin að hvörjum þeirra sem hann helzt kýs, en þessi aptur, þegar hann er búinn að borga skuldina, að einum eða öllum fèlögum sínum, fyrir þeim hluta sem þeim ber að borga (D. L. 1—23—14). Með því það getur verið efunarmál, hvört sá lánardrottinn, sem lætur sèr nægja seinna forgaungurèttar veð í eign nokkurri fyrir tilgreinda láns upphæð, hefir rètt til að ná betra veðrètti í henni, þegar skuldunauturinn losar sig við skuldir þær sem áður nutu slíks rèttar, eða hvört skuldunautinum sè í sjálfs valdi að taka nýtt lán (sè það ekki meira enn hið eldra) með sama forgaungu rètti *(Prioritet*, smbr. tilskip. 12 Septbr. 1806 § 2, og 7 Júní 1827 § 7) — er vissara, að ákvarða þetta í skuldabrèfinu, hvörutveggjum til eptirbreytni og öðrum útífrá til viðvörnunar. Eins miðar það til óhultleika þeirra, sem lána út penínga mót veði í áður veðsettri fasteign, að ákveða í skuldabrèfinu, að lánið skuli án allrar uppsagnar gjalda, hvönær sem rentan ekki í tíma (svo sem einum mánuði eptir eindaga) er goldin þeim hinum eldra lánardrottni. Sè lausafè veðsett, er ráðlegast og venjulegast að festa lýsíngu og uppteiknun *(Specification)* þeirra við skuldabrèfið, sem sè þínglýst á varnarþíngi skuldunautarins; og veðsetji hann, sem stundum ber við, "allt hvað hann á og eignast kann", þá líka í þeim öðrum þíngsóknum, hvar hann eiga kynni eða eignast nokkrar fasteignir (tilskip. 24 April 1833 § 1 og 2). Verði eigur skuldu-

nautarins veðsettar til **brúkunar**, ætti skuldabrèfið að tilgreina rèttindi beggja og skyldur í tilliti til brúkunar, um meðferð hlutarins og skil þau sem lánardrottinn á að gjöra skuldunauti sínum fyrir árs ávexti veðfjárins, samkvæmt L. 5—7—9. Sömuleiðis er skuldunautinum óhultara, að taka skriflega meðkenníngu lánardrottins fyrir móttöku lausafjár þess, sem hann handsalar honum að veði, og má hún standa í sama veðskuldarbrèfi, bæði eingaungu og ásamt með sjálfhaldsveði *(Underpant)*.

### 3. Framsal *(Transport)*.

Þareð eigineignarbóndinn Finnur Tómasson á Skálholti í Biskupstúngum, hefir að mèr keypt og borgað framan og ofanskrifað veðskuldarbrèf (fyrir 533 rbd. 32 sk. r. s., sem er þess upphæð) eptir samkomulagi: svo afhendi eg honum það hèrmeð og framsel til fullra eignarumráða upp hèðan, með sömu rèttindum sem eg það áður átt hefi, einsog brèfið sjálft hermir. Svo skal hann og hirða ákveðna árs rentu 4 af 100 fyrir yfirstandanda rentuár til næstkomanda 11ta Júní. Þessu til staðfestu er nafn mitt og innsigli, og undirskript viðstaddra vitundarvotta, bændanna Lamba Magnússonar og Árna Narfasonar.

Flóagafli, 24 Febrúar 1840.

Árni Bergsson.

(L. S.)

sem vitundarvottar undirskrifa:

Lambi Magnússon. Árni Narfason.

Í Danmörku verður að rita framsalsbrèfið sèr í lagi í hvört sinni sem (prívat) skuldabrèf eru

seld, vegna stimplaða pappírsins, sem þar er ætlaður hinn sami til framsalsbrèfanna og til veðskuldabrèfanna; en hèr ferr bezt á, að rita framsalið á skuldabrèfið sjálft, enda er það óhultast bæði fyrir kaupanda og skuldunaut. Vilji kaupandi veðskuldabrèfsins fullvissa sig um, að hann reyndar fái að notið rèttar þess, sem það heitir eigandanum, að fullu, hlýtur hann að skora á (hvað þó sjaldnast er gjört) að seljandi í framsalsbrèfinu skuldbindi sig til að svara til skuldarinnar ef hinn rètti skuldunautur ekki yrði fær um það; því annars er sali ekki skyldugur til að ábirgjast meira, enn að rètturinn sè til eptir því sem skuldabrèfið hermir (einsog hèr er gjört ráð fyrir). Eru þesskonar framsalsbrèf kölluð einföld eða ógjaldfest *(simpel Transport)*, en hin, sem innihalda skuldbindíngu þá, að skuldin að vísu skuli borguð verða, skaðlaus eða gjaldfest *(skadeslös Transport)*.

## 4. Kvittunarbrèf.

Þareð Kári Daðason hefir borgað mèr lán það, 533 rbd. 32 sk. r. s., segi fimm hundruð þrjátigi og þrjá Ríkisbánkadali, þrjátigi og tvo skildínga reiðu silfurs, sem veðskuldarbrèf þetta greinir, með rentum til þessa dags, svo gef eg tèðum skuldunauti mínum hèr með kvittun þar fyrir, um leið og eg afhendi honum skuldabrèfið til aflýsíngar á þíngi og ónýtíngar í veðmála bókinni (allt í krapti framanritaðrar framsölu, með hvörri eg er orðinn skuldabrèfsins eigandi).

Skálholti 11ta Júní 1850.

Finnur Tómasson.

Sè skuldabrèfinn þínglýst, einsog lög gjöra ráð fyrir, hlýtur skuldunauturinn að fá skýlausa kvittun lánardrottins eða eigandans á það ritaða, hvört hann geldur honum skuldina alla eða nokkurn hluta hennar, til að geta fengið því aflýst á þíngi og brèfið afmáð í veðmála bókinni; er ráðlegast að gjöra það sem fljótast, ef brèfið kynni að glatast skuldunautinum, eptir að hann hefir skilað því aptur borguðu; annars neyðist hann til að hafa kostnað fyrir, að fá það með dómi að aungu gjört *(mortificeret)*, þyki honum nokkuð undir því komið, að eign hans standi óveðbundin, eða ekki hærri veðskuld bundin, enn hún í rauu og veru er, og getur honum opt riðið það á miklu, vilji hann annaðhvört selja hana eða veðsetja fyrir nýrri skuld. Án kvittunar ætti skuldunauturinn heldur aldrei að gjalda skuld sína, þó veðskuldabrèfinn ekki sè þínglýst, því það má við bera, að erfíngjar lánardrottins, að honum dauðum, hafi ekki vitað af, að skuldinni var lokið, og getur þaraf leidt, að skuldunautur neyðist til að greiða hana tvisvar, ef hann ekki með kvittun lánardrottins fær sannað, að hún í raun og veru sè borguð. Það er af þessu auðsèð, hvörsu varúðarlítið það er, að rífa í sundur fullborguð (og þínglýst) skuldabrèf, í stað þess að geyma þau kvitteruð, þángað til útsèð er um að eingin krafa framar geti af þeim risið. Þegar þarámóti búið er að afmá þau skuldabrèf í veðmálabókinni sem áður eru þínglýst og kvitteruð, verður eingiun rèttur framar á þeim bygður, og er því aungu vogað, þóað þau þá sèu rifin, eða á annan hátt eyðilögð. Annars hlýtur skuldunauturinn að

sjá um: að *rèttir hlutaðeigendur* (sem skjallega geta sannað rètt sinn með framsölu skuldabrèfsins eða á annan hátt) gefi kvittunina, einsog hann líka, í hvört sinni sem hann greiðir nokkuð af skuldinni, gjörir rèttast, að heimta kvittun sèr í lagi fyrir því, og geyma hana þángaðtil hann fær skuldabrèfið löglega alkvittað í hendur. Sè lánardrottinn ekki fáanlegur til að kvitta löglega og skýlaust fyrir það sem borgað er, eða til að taka ámóti borgun á rèttum gjalddaga eptir skuldabrèfsins ákvörðun, hefir hann með því mist rètt sinn til ákveðinnar rentu af peníngunum upp frá þeim degi að borgun stóð honum til boða (tilskip. 9 Febr. 1798 § 2); þó er forsjálegast fyrir skuldunaut að taka votta uppá þetta, og vilji hann fría sig ábirgð peninganna, getur hann fengið sýslumanni (Fógeta) þá, eða sett þá inn í Jarðabókarsjóðin til geymslu, á kostnað lánardrottins.

Loksins get eg eigi leidt hjá mèr að hnýta hèr við fáeinum

## XI. ATHUGASEMDUM, VIÐVÍKJANDI NOKKRUM GREINUM Í RITI PRÓFASTS SÍRA TÓMASAR SÆMUNDSSONAR, "um bygging jarða, meðferð og úttektir" í Búnaðarritinu, fyrsta bindis fyrri deild, að því leiti mèr ekki kemur saman við hann í því sem hèr að framan er talið.

Þetta má eg því síður láta hjá líða, sem þekkíng og greind þessa hins upplýsta manns er of alræmd til

þess, að eg geti vænt, að mín samfæríng eða hugleiðíngar um almennings gagn hafi tilætlaða verkun, nema eg leitist við að setja lesendunum fyrir sjónir, af hvörju meinínga munurinn rís, um leið og eg reyni til að hrinda þeim meiníngum hans, sem mèr þykja vanta ástæður eða ekki nógu vandlega hugaðar. Á þetta sèr einkum stað í tilliti til trúarjátníngar Prófastsins: 1. um þjóðjarðasöluna, 2. um sjálfseignar not bænda hèr á landi og 3. um orsökina til, að peníngum hèr eingaungu er varið til jarðakaupa; og vænist eg, við yfirvegun þessara atriða í riti Prófastsins, að fá tækifæri til, enn betur að leiða í ljós gagn veðsetníngarinnar, þeirra góðu verkanir í tilliti til útbreiðslu bændaeignanna og þaraf leiðandi jarðarræktar og landsheilla.

1. Eptir að Prófasturinn bls. 163—66 er búinn að segja frá, hve misjafnt landanna afinin gyldi ámilli landsdrottna og leigniliða, er sumir gjaldi 30, aðrir 20 og enir þriðju 10 landskuldar álnir með 1 Spesíu, einnig að konúngs eignirnar til og frá um landið hafi verið seldar á leigu, að nokkru eða öllu leiti, á fyrsttèðan hátt, ályktar hann: "að konúngsjarða salan sè landinu tjón en enginn hagur, þegar allt er vel skoðað, og muni þó með tímanum leiða í ljós beiskari ávexti enn ennþá eru sèðir"; síðan tekur hann til dæmis: "að skóla (stóla) eignunum hafi verið fleigt burt fyrir ekkert að kalla, hvörs landið aldrei bíði bætur", og vill enn framar sanna þetta með því: "að stjórnin sè miklu verr farin og ófrjálsari, þegar hún er búin að svipta sig allri fasteign og öllum umráðum land-

auranna, ef þeir kæmu tímarnir, að til slíks þyrfti að grípa, og það kæmi sèr betur að verja því heldur enn peningum til launa embættismannanna og annarra nauðsynja", og skírskotar til, að það eina haldi andlegu stèttinni við, einkum í hörðu árunum, að tekjur hennar eru í landaurum.

Að því leiti sem nú Prófasturinn sýnist að byggja óvild sína gegn konúngs jarða sölunni á fyrrtèðum leigumála jarðanna, sem ollir því að konúngs fjárhirzlan hlýtur að verða fyrir halla, en landsetarnir og landið að ábatast (ámeðan jarðirnar eru óseldar), þá er ástæða þessi í sjálfri sèr bæði næsta sèrdræg, að því leiti höfundurinn virðist ætlast til, að vèr eða land vort skuli ábatast og græða á annarra (ríkisstjórnarinnar) vanhag og skaða, og líka í mótsögn við hina höfnðástæðuna, er gjörír ráð fyrir, að stjórnin sè miklu verr farin, þegar hún er búin að svipta sig fasteignunum og umráðum landauranna, enda getur hún ekki átt við jarðasölu þjóðstiptana landsins, þareð skaði og ábati af henni hlýtur að koma niður á landinu sjálfu, hvört sem það er seljandi eða kaupandi sem þar hefir ábata. Að öðru leiti er ætlun Prófastsins, um leigumálan á konúngsjörðunum, sem hann styður sig við, ekki rètt: því þar sem landskuldirnar af þeim enn ekki eru goldnar í fríðu eða eptir kapitulstaxta, svo sem híngaðtil hefir við gengist í Gullbríngu, Kjósar og Árness sýslum, í Norður og Austur amtinu[1]), hafa þær á konúngsjörðunum

[1]) Í Vestur amtinu eru landskuldirnar á Arnarstapa umboði (á hinum konúngsjarða umboðunum þar misjafnt, á einstökum jafnvel að gömlu verðlagi, 20 áln.

í Suðuramtinu (í Skaptafells sýslu) verið greiddar að helfíngi á þennan hátt (eptir einkaleyfi Rentukammersins fyrst um sinn) og að helfíngi með 8 rbsk. fyrir alin hvörja á landsvísu; leigurnar þarámóti (núna í Gullbríngu og Kjósar sýslum, hvar konúngs landsetar um stund hafa Rentukammersleyfi til að gjalda þær eptir gömlu lagi, með 90 sk. eptir hvört kúgyldi) annaðhvört með 2 fjórð. smjörs eða eptir kapítulstaxta, samkvæmt byggíngarbrèfum þeim, sem prentuð voru handa konúngs landsetum í Skaptafells sýslu; enda hefir Rentukammerið optsinnis látið á sèr skilja, að það ætli, þegar því sýnist færi á, samkvæmt tilskip. frá 16 Júlí 1817, að gefa landsetunum þann eina kostin, að borga landskuld og leigur á landsvísu *(in natura)* eða eptir kapítulstaxta í peníngum, enda vill Prófasturinn sjálfur og hyggilega, að allir, sem tekjur hafa, ættu að láta sèr lynda penínga í skuldirnar, en hefir þó í öðru orðinu frammá, til hnekkis þjóðjarða sölunni, að stjórnin sè miklu verr farin, ef hún hefir ekki landaura að grípa til í viðlögum, og það kæmi sèr betur, að launa embættismönnunum með þeim, enn með peníngum. Þessi hugmynd virðist mèr því óskiljanlegri, sem hann rètt á undan (bls. 162) hefir skírt

á 90 sk. r. s. allt eptir ásigkomulagi og kríngumstæðum) goldnar með 1 rbd. 57 sk. fyrir hvörja vætt eða 20 áln. á landsvísu, en leigurnar annaðhvört *in natura* eða eptir Kapítulstaxta. Hinsvegar er hèrvið þó athugandi: bæði að jarðirnar þar eru í hærri hundraðatölu enn víðasthvar annarstaðar á landinu, og að konúngs landsetar svara af þeim fullri tíund, og gengst það óvíða við annarstaðar.

frá: "að orðið sè þvílíkt geipiverð á jörðum, að menn ekki taki í ávinníng af þeim meira enn 2 eða 3 af hvörjum 100, og að fyrir þær nú á tímum sè meira gefið, enn þær reyndar eru verðar". Mèr skilst ekki betur, enn að stjórnin þvertámóti sè miklu **betur** farin og frjálsari, þegar hún er búin að skilja sig við fasteignirnar "fyrir geipiverð", enn áður; heldur ekki sè eg betur, enn að Prófasturinn sjálfur reyndar sè sömu meiníngar, er hann (bls. 162) viðurkennir, að **þær færi öðruvísi meiri ávöxt seldar enn óseldar.** Eins held eg það af þessu í augum uppi, að embættismönnunum, **undir sömu kríngumstæðum,** geti ekki komið betur að taka laun sín í landaura eptirgjaldi jarðanna, enn í peninga ávexti jarðarverðanna. Afli þeir ekki sjálfir til nauðsynja sinna nægilegra landaura, hafa þeir því betur ráð til að fá þá til kaups, sem þeir hafa fleiri peninga, og geta landaurarnir, sèu þeir til, aldrei orðið ófáanlegri fyrir það, þó jarðirnar verði annarra enn konúngs og stiptananna eignir, því þeir hljóta einmidt að því skapi að vaxa, sem sjálfseignar bændurnir fjölga og jarðarræktin ferr í vöxt; en því hærra peninga verði sem landaurarnir geta náð, eða því útgengilegri sem þeir eru, þess meira landslán, eptir játníngu Prófastsins sjálfs (bls. 170—71), og kveður hann því rèttilega (bls. 167) að orði: "að **landaurarnir sèu máttar stólpinn undir öllu voru bjargræði.**" Eg viðurkenni því einnig, að fari prestarnir að verzla með landaura tekjur sínar, þegar þær eru í hæstu verði, eða þurfi þeir meira við enn þeir afla sjálfir til lífsins

viðurhalds, þá geti þeim verið hagur í landaurunum; en eg verð að vega að Prófastinum með hans eigin vopni, eigi þetta að hlýða uppá embættismanna þessara jarðartekjur (í landaurum) yfirhöfuð, og get þá ekki sèð, hvörnig prestarnir (með rèttu) geta haft meiri ágóða af embættis- (mensal-) jörðum þeirra, enn aðrir af eignarjörðum sínum; og þó þeir, er eg samt ekki vil gjöra ráð fyrir, væru harðari í tekjum enn flestir aðrir, eða tækju peninga eptir kapítulstaxtanum þar sem hrestur á landaura, get eg samt ekki trúað, að þeir nái meiru enn laga ávexti, þar sem aðrir ekki ná nema hálfum eða tveim pörtum; tel eg því prestunum eins vissan ábata að sölu mensal-jarðanna (að undanteknu að eins prests setrinu sjálfu) einsog að sölu konúngsjarðanna fyrir konúngsfjárhirzluna, en landinu þó öllu meiri, ef þær gætu með því móti komist undir umsjón og rækt hirðusamari eigenda, enn mèr af riti Prófastsins (bls. 192—93 smbr. 204—211) skilst að prestarnir sèu með jarðir þær, sem þeir hafa hönd yfir[1]); og sýnist mèr þessi

[1]) Barún Eggers hefir áður stúngið uppá þessu í *Schilderung*, bls. 190; en þó að Jón Eiríksson Konferenzráð þá (1786) ekki sæi það ráðlegt, bæði af ótta fyrir að kaupendur ekki yrðu nógu margir að jörðunum, og að jarðaverðið ekki mundi geta gefið prestum eins ríkuglegan árs ávöxt og jarðirnar sjálfar (*lærde Efterretninger for* 1786, bls. 425 og 437), fær þetta nú ekki hnekkt uppástúngunni, þareð reynslan sýnir, að bæði eru orðnir nógir jarðakaupendur (með því að landið nú og er orðið auðugra að peningum) og að jarðirnar eru komnar í það verð, að lagavöxtur jarðaverðanna yfirstígur lángt venjulegt og löglegt árs eptirgjald jarðanna eða þess

uppástúnga mín eiga sammerkt við það, sem hann seinna (bls. 215) samkvæmt konúngsbrèfi frá 24 Febr. 1747 segir, um hús og innstæðu prests-setranna, á þessa leið: "þessvegna er það bæði hagur brauðunum og líka þeim sem halda þau, að haga svo til, eptir því sem verður, að allir þesskonar hlutir geti orðið seldir fyrir sem mest, og sæta því laginu að losast við þessháttar, þegar hvað um sig gengur helzt út"; en sá tíminn er, eptir meiníngu sjálfs hans (smbr. bls. 162) þegar kominn, að því leiti jörðunum viðvíkur, og þessvegna er því hinn aptranda dæmi, sem á eptir kemur, bls. 170) — "að skóla eignunum hafi verið fleigt burt, svo að ekkert kom í staðin fyrir þær að kalla", — hèr ofaukið, og á næsta illa við, þó það annars væri á góðum rökum byggt; því, "eigi jarðirnar fyrir sèr að ná meira verði en enn eru þær í", þá getur einmidt þetta orðið landinu hagur, og eptir hugmynd sjálfs hans (smbr. bls. 166), verið hin bezta ástæða til að selja konúngsjarðirnar og hvörjar þjóðjarðir sem eru, hið allra bráðasta, svo að landið eða landsbúarnir geti haft þeirra sem mest eignar not; þetta er þó að vísu allra þess sona og ekki sízt Prófastsins sameiginleg innileg ósk, og það án alls tillits til, hvað embættismönnunum sè hagaulegast; því þó þeir kæmu tímarnir, að sumum

virði. Konúngsbrèf frá 11ta Maí 1708 hótaði að sönnu prestum þeim, sem níða niður prestsaetrin, að láta biskupinn setja þá frá embættum ef þeir hlýddu ekki áminníngum hans um, að reisa þau við aptur (*Arnesens isl. Retterg.* bls. 519) en uppá það hafa aldrei dæmi gefizt, heldur hefir allt lendt við tómar hótanir híngaðtil.

þeirra kæmi betur, að taka laun sín í landaurum enn í peníngum, getur þó þetta aldrei orðið ástæða til að ráða frá þeirri ráðstöfun, er miða virðist til heilla landinu eða allri alþýðn. Embættismennirnir er minnstur hluti landsbúa, og það væri stök ósanngirni, að gefa þeim hèr, fremur enn annarstaðar, alls nægtir á ófriðar eða hallæris árum, þegar allir aðrir líða skort til fata og matar. Embættismennirnir geta og því síður vænt þvílíkra hagsmuna, þegar það ollir öðrum landsbúum tjóns eða kostnaðar, sem þeir sjálfkrafa hafa gengizt undir, að þjóna konúnginum fyrir ákveðin laun (þángaðtil annarrhvörr segir upp þjónustunni) líkt og vinnumaðurinn húsbónda sínum; og mundi einginn geta krafist vinnukaups í landaurum, ef það er ákveðið í peníngum, hvörsu mjög sem harðnaði í ári, og hvörsu miklu haganlegar sem kaupið kæmi þeim sem við á að taka í landaurum enn í peníngum.

Embættismenn hafa hèr, áður enn stólagózin voru seld, flestallir tekið laun sín í landaurum, og það er ekki lengra enn síðan 1823 að hætt var að launa Amtmanninum yfir Norður- og Austur-amtinu með jarða eptirgjaldi Múnkaþverár klausturs, sem um seinastliðin 10 ára tíma (frá 1829—39) hefir gefið konúngssjóðinum 8,140 rbd. 34 sk. í peníngum, afdráttarlaust, þ. e. rúma 814 rbd. á ári, auk sjöttúngs ($\frac{1}{6}$) þess er umboðsmaður fær, og alls kostnaðar við landaura söluna, og má þá hiklaust segja, að klaustrið gefi yfir 1000 rbd. árs tekjur; eigi að síður hafði Amtmaður hèrumbil um 40 ár afgjald klausturs þessa, metið til 157 rbd. 36 sk., uppí embættis laun sín, og er þá ekki að

undra þó hann yrði sterkríkur maður, að njóta svo lengi þvílíkra embættishlynninda; en hitt skilst mèr ekki, að þetta hafi getað orðið konúngssjóðinum eða þá landinu nokkurr hagur. Það mun og sem optast hafa komið biskupum öllu betur enn skólunum, að þeim voru lagðar allar vissar og óvissar tekjur af jarðagózi stólanna[1]) til að taka af þeim laun handa sjálfum sèr, rektóri og konrektóri (sem báðir sátu við 150 rd. í kost og laun), standa kostnað af viðhaldi dómkirknanna og skólanna og af kennslunni yfirhöfuð. Barún Eggers hefir mótmælalaust (í *Schilderung*, bls. 196—98) verðlagt árs tekjurnar af Skálholts jörðum á 2500 rd. og af Hólagózinu á 2000 rd., og byggt á því þá ályktun, að biskuparnir hafi haft bezta embættið á landinu (smbr. *Arnesens isl. Rettergang*, bls. 535—539); og er það ekki ólíklegt, þegar litið er til þess: að 1760 lágu 459 býli undir Skálholts biskupsstól, auk 149 eyði jarða, og undir Hólastól 379 býli, og 211 eyði jarðir að auki[2]); að Skálholts stóll átti, eptir skilnaðar gjörníngnum (*Separationsact*) á tekjum stólanna og skólanna m. m., sem samþyktur var af konúngi 29 Maí 1767 (þó gjörníngur þessi, sem er prentaður aptan við alþingisbókina frá 1769, annars aldrei kæmist á fastan fót), 1,192¾ kúgyldi, 288½ landskuldarhundruð og 185½ krónudali í tinndum, allt virdt á 2,134½ rd. í krónum; en Hóla-

---

[1]) Sbr. æfisögu Konferenzráðs Jóns Eiríkssonar, bls. 17-19.

[2]) Sjá Eggers *Schilderung*, bls. 190, 391—92 og töblu Nr. II.

stóll átti á sama hátt 280 landskuldarhundruð, 972½ kúgyldi, 80 rd. *í tíundum*, og prentverkið, allt virdt á 1,635½ rd. í krónum (að frádregnum 411½ rd. til umboðslauna); þetta var allt að auk allra mannslána, hestlána og dagsverka (á Skálholts góziuu), alls fiskjar og trjáreka á hvörutveggju gózunum, afgjaldslausrar bújarðar og alls bústofus, og auk annarra hlynninda, er biskuparnir nutu sjálfir, og ekkjur þeirra. Engelstoft reiknar að tekjurnar af Skálholtsgóziuu árið 1785 enda hafi verið 34,621 landskuldar álnir, á 4½ sk. hvör, 1,223½ kúgylda leigur á 90 sk. hvör, fyrir utan kvaðirnar, til samans 3047 rd. 45 sk. virði í kúranti (*Skole Annaler* 1813, bls. 190).

Að öðru leiti er það sagt enn ekki sannað, að landið aldrei bíði stólsjarða sölunnar bætur. Að skólinn hafi liðið skaða við hana, ber öllum saman um, en þó varla óbætanlegan, þareð fjárhirzla konúngs hlýtur að hafa gengizt undir, að gegna öllum þeim skyldum, sem stiptuninni lágu á herðum áður enn jarðir hennar voru seldar, eða áðurenn konúngur tók við verði þeirra, og þó að ölmusurnar sèu færri enn áður, vegur samt þessi hagi af stólsjarða sölunni lítið upp á móti hagnaði þeim sem þaðan er risinn, þegar litið er á, hvörsu velmegun manna hefir farið fram síðan, að færri vegna þess eru orðnir ölmusu þurfandi, og að sala jarðanna meðfram á þátt í velmegun þessari eða framförum yfirhöfuð; og það er því varla ofhermt, að landið og jarðirkjan hafi unnið það sem skólinn misti við sölu jarðanna. Það er og aðgætandi: að í þeim eina latínu skóla sem vèr nú höfum eru

aldrei færri lærisveinar enn í hinum báðum, og að 24 lærisveinar sem gengu í Skálholts skóla og 16 í Hólaskóla höfðu einúngis 18 rd. ölmusu hvörr, til samans 720 rd., en að þarámóti nú gánga 1,440 rbd. r. s. til ölmusanna, því hvörr af 24 fær 60 rbd. Eins eru laun kennaranna (sem nú eru 4) stigin til 2,300 rbd. frá 300 rd. í krónum, auk húsleigu og annars, sem skólinn á að gjalda og sem (af landfógetanum þann 31ta Desbr. 1833) er talið til, að yfirhöfuð sè 5,740 rbd. (þ. e. lagarenta af 143,500 rbd.) á ári, að með töldum 1200 rbd. uppí laun Biskupsins, er hann fær af skólasjóðinum síðan Hólaskóli var tekinn af; að eg ekki tali um framfarir þær, sem kennslan hefir tekið síðan skólarnir voru fluttir frá Skálholti og Hólum, og allar viðgjörðir fæðis og þjónustu skólapilta, og mun sá hinn fyrri stjórnar háttur, að halda skólanum við af jarða afgjöldum, ekki sízt hafa ollað óreglu og glundroða í þessu[1]). Það má næstum ráða af orðum Jóns Eiríkssonar sjálfs, að einskonar trygð við Skálholts skóla, hvar hann fyrst nam mentir, hafi, ef til vill, meðfram átt nokkurn þátt í, að hann var jarða sölunni svo mótfallinn, (sjá æfisögu hans bls. 19, 53 og 141); en aðal ástæðu hans þeirri, að stiptunin gæti eigi staðist við reiðupeninga tekjur, heldur hlyti að sakna ens nauðsynlega handa sjálfri sèr og kennurunum (samastaðar, bls. 135, 141, og 159—67) er þegar fyrir laungu hrundið með reynslunni, síðan skólinn var fluttur að Bessastöðum.

[1]) Sbr. æfisögu Jóns Eiríkssonar, bls. 19. Engelstofts *Skole Annaler* 1813, bls. 182 og ff.

Það er að síðustu ekki nema missýníngar Prófastsins, er hann segir, að skóla eignunum hafi verið fleigt burt fyrir ekkert að kalla. Það er sjálfsagt, að allir nú sjá að þær hefðu orðið meiru verði seldar, hefðu menn ekki verið svo fljótir á sèr með að selja þær, og að svo miklu leiti má það enda segja, að skólinn hafi tekið skaða við söluna, sèu jarðirnar á annað borð álitnar að hafa verið eign hans og ekki konúngsins[1]); en bæði er Hólagózið almennt haldið vel selt, og líka má enda sama segja um Skálholts gózið, sè sölutíminn og kríngumstæðurnar teknar til greina; kýrin og jarðarhundraðið voru í þá daga lögð að jöfnu (5 rd. 60 sk. hvört um sig); peníngar voru, sem von var, næsta fáir, og þá enn ekki orðnir almennt borgunar- eða verðlags- meðal á landinu, en allar jarðirnar voru seldar í bendu; og ætla eg þá að eins góð rök sèu til, að kalla Skálholts gózið, eptir þessum kríngumstæðum, vel selt, er hvört jarðarhundrað náði fullu gángverði sem þá var, eða 6 rd. í kúranti, og fór jafnvel framyfir höndlunar- eða vöru- ("taxta") - verðið, sem 1 hundrað á landsvísu (eða verðlagsmælirinn þ. e. kýrin) þá var í[2]). Að Skálholts gózið ekki

---

[1]) Smbr. *Arnesens isl. Retterg.* bls. 535—36; J. Eiríkssonar æfisögu, bls. 135 og 161, og *Engelstoft* s. st.

[2]) Sjá Amtm. Riddara Thorsteinsons optáminnst rit, bls. 23—25 og reikníngin í konúngsbr. 29 April 1785. Að kýrverðið almennt, einsog verð annarra landaura, hækkaði lángt yfir 6 rd., eptir að sölu skilmálarnir voru gjörðir 1785, kemur ekki þessu máli við, því jarða verðið hækkaði ekki að heldur, fyrr enn lángt um leið;

var selt undir gángverði þess á þeim tíma, má og vel ráða af því, að þóað maður taki hundraða tölu þess, einsog hún er í jafnaðar reikníngnum við konúngsbrèfið frá 29 Apr. 1785, þ. e. 7,212 hundruð, koma samt ekki út nema 43,272 rd. í kúranti þegar hvört hundrað er virdt 6 rd.[1]). Og þóað kúgylda verðið ekki hèr sè talið með, virðist samt óhætt ráða mega, að flestar jarðirnar hafi verið seldar lángt yfir 6 rd. hundraðið, einkum þegar að er gætt, að 410 hundruð af enum töldu 7,212 hundruðum voru enn óseld 1833, einsog áður er sagt (bls. 63 sk.gr.); kúgyldin voru líka orðin næsta fá á stólnum (að vitnisburði jafnaðarreiknings þess, sem nýlega var um getið, ekki nema hèrum 300 talsins) þegar salan byrjaði, en þaraðauki eru þessir 43,272 rd. miklu minni peníngar enn áður (í 4 þætt.) var sýnt að stóllinn með öllu saman gekk í rann og veru.

Væri landsdrottni, einsog Prófasturinn (bls. 237 og v.) kennir, "frjálst að selja jarðir til byggíngar með þeim kjörum sem hann unir bezt við" vildi eg láta mèr þá röksemdina (bls. 169) gegn þjóðjarða sölunni skiljast: að margir bændur hafi einberan skaða af konúngsjarða sölunni, "með því það sem selt er lendir eins opt hjá þeim sem rík-

en þetta olli því sjálfsagt, að þeim, sem haldið gátu mestum fénaði sínum á enum undanförnu hallæris árum, varð hægra um að kaupa þegar höndlunartaxtinn var úr gyldi genginn, og kaupmenn fóru að borga vörurnar (með peníngum) eptir óbundnu náttúrlegu verði þeirra.

[1]) Árni Magnússon eignar Skálholtsstóli, í jarðabók sinni frá 1702, 304 jarðir (Eggers *Schildernng*, bls. 39, og töblur Nr. II og III).

astir eru og mestar eiga jarðirnar undir, og einmidt þeir sem búa á eignum slíkra manna hafa opt vestu kjörin, og miklu verri enn meðan konúnginum var eignuð jörðin, og þar verður jarðarræktinni hvað minnst ágengt"; og því er verr og miður, að ástæða þessi í sjálfri sèr mun vera allt of sönn. Já, oss má hrylla við að ímynda oss, að landinu á endanum verði mestöllu skipt á millum einstöku manna, sem einúngis er umhugað að mylkja það sèr til nota, en sjálfu því eða alþýðu til hrörnunar og niðurdreps; og hvörr sèr þá ekki, að hèr er orðið mál aðgjörða, eða að tíminn þegar er kominn til að stemma stigu fyrir fleirum jarðakaupum og lögleysis frjálsræði jarðeigendanna, og til að ryðja vegin fyrir leiguliðunum til að fá keyptar leigujarðir þeirra[1]? En þessi ástæða (sem annars að sumu leiti á eins við allra jarða sölu til annarra enn leigubændanna sjálfra) mót sölu þjóðjarðanna, verður með öllu stuðníngslaus, undir eins og greiðist úr öllum þeim flækjum, sem skyldur og rèttindi landsdrottins og leiguliða hvörs við annan eru komin í hèr á landi, og peníngalán og veðsetníngar fara að leysa fjötur þan, sem haldið hafa leiguliðunum eins og landsbúnnum

[1]) Hèldi eg að inubúar lands þessa gætu borið meiri skatta enn nú liggja á þeim, væri mèr næst geði, að stinga uppá skatti af þeim, sem fleiri jarðir eigu enn ábúðarjörð sína. Gæti skattur þessi hækkað eptir fastri tiltölu jarðarhundraða fjölgunar (en ekki eptir tiltölu aukins afgjalds) t. d. af 20 hundruðum auk ábúðarjarðar (einsog tíundin er) 40 fiskar, af 30 hundr. 60 f., af 40 hdr. 80 f. og af 60 hdr. 100 f. o. s. frv. eða á annan þesskonar veg.

yfirhöfuð frá flestu sem táp var í; enda líka vegur hún nú sem stendur næsta lítið, ef landseti vill bera hönd fyrir höfuð sèr, og færa sèr lögin í nyt, því þau eru, eins og eg að framan (í 5ta þætt. bls. 106—115) hefi leitast við að sýna, tèðri meiníngu Prófastsins gagnstæð. En nýði landseti niður jörðina, hefir landsdrottinn eins nóg fyrir sig að bera í byggíngarbrèfinu og lögunum, og veitir honum því hægra að koma því við og fylgja því fram enn konúngi eða umboðsmönnum hans, sem hann hefir betra tækifæri til að gefa landsetanum auga og sjá um rækt eignarjarðar sinnar; og hèr kem eg til þeirrar ástæðu fyrir þjóðjarðasölunni, sem enn þá einginn hefir viljað eða getað hrundið, og sem allra helzt á sèr stað við konúngsjarðirnar. Sá sem hefir annarra jarðir til umsjónar *(Administrator)* gjörir sèr eigi heldur alltjafnt svo mikið far um þær, eins og væru þær sjálfs hans eign. Þetta er nú eðli mannsins og breiskleika eiginlegast, þó að vísu nokkrir eigi að síður ræki þessa sýslu fyrir aðra eins og fyrir sjálfa sig. En þeir sem aptur hafa umsjón yfir aðgjörðum umboðsmannanna (þ. e. Amtmenn og Rentukammer) hafa enn síður tækifæri til að líta eptir meðferð jarðanna; þeir geta ekki svo mikið sem ráðið við það, þó tekjurnar sèu goldnar öðruvísi af landsetunum til umboðsmannanna enn umboðsmenn gjalda þær aptur í sjóð konúngs, og eru enda stundum neyddir til að semja á þá leið við umboðsmennina, til að geta fengið þá sem eru menn til að standa straum af

umboðinu [1]). Umboðsmennirnir fá ekki einúngis sjöttúng af eptirgjaldinu og þaðan af meira (svo sem fimtúng og fjórðúng), stundum vegna eklu á öðrum, sem hæfir eru til umboðsmanna, heldur og ábata þann, er gjald og sala landauranna gefur þeim færi á að njóta. Það ber við, að haldin eru uppboð yfir afgjaldsaurana í skyndi, svo að umboðsmennirnir sjálfir verða hæstbjóðandi fyrir lítið verð, ella setja þeir afgjaldið í kaupstaðina, og er þá fjárhirzlunni ekki hlíft við að greiða umboðsmanni vöruflutnúngin eins og frekast er kostur á. Yfirhöfuð munu umboðsmenn sjá um, að ábatinn hvörki lendi hjá landseta nè lánardrottni, ef hann, með rèttindum tilsýndar, getur orðið þeirra, og þó báðir þeir, í hörðu árunum einkanlega, hljóti að verða fyrir skaða, landseti flosni upp og jörðin byggist ekki, mun umboðsmaður samt optastnær búa svo um hnútana, sem von er, að hann verði skaðlaus. Getur þá nokkuð verið náttúrlegra, enn að þjóðsjóðirnir vilji komast hjá þvílíkum skaða og óhöppum, eða verður nokkurt betra ráð til þess, enn að selja þjóðeignirnar, ámeðan þær eru í svo háu verði, og setja kaupverðið á laga rentu?

Þess er einnig getið, bæði í riti Prófastsins og optsinnis hèr að framan, að landinu er lítill arður að illa ræktuðum og vanhirdtum leigujörðum,

[1]) Þannig er sagt, að umboðsmaður þeirra 25 jarða sem konúngur á í Stranda sýslu, af því þar var ekki neina um hann einn að velja, hafi 2 fjórð. smjörs fyrir 1 rbd. 9 sk. r. s.; ábatast hann þar, ef satt er, næstum 3 rbd. á smjörleigu hvörs kúgyldis, eptir því gángverði sem smjörið nú er í.

og að það því ekki einúngis megi vera eigandanum, heldur og landinn sjálfu bersýnilegur hagnaður, að slíkar jarðir sèu seldar og komi í þeirra manna eigu og umsjón, sem ekki einúngis njóta góðs af árs-ávexti þeirra, heldur einnig um leið af verðhæðinni, þ. e. að þær verði eignir ábúendanna sjálfra; og mun það af reynslunni andsært eins á Íslandi sem annarstaðar, að eigi verði affarabetra að stjórnin fáist við atvinnu vegina, og sèrílagi jarðarræktina, enn að þegnarnir stundi hana sjálfir, og hafi til þess frjálsræði sem þörf gjörist. Þetta lætur stjórnin sèr einnig skiljast í tilliti til konúngsjarðanna hèr á landi, og þó hún þurfi alls síns við og vel gæti brúkað peníngana sjálf, lætur hún sèr þó lynda, að fá minnstan hluta þeirra goldin útí hönd, en gefur kaupendum kost á að halda tveimu þriðjúngum þeirra að láni — af því hún veit að þetta er landinu til þarfa, og að bóndinn fyrst þá gjörir sèr far um að halda býli sínu í verði, svo nóg verði til endurgjalds láninu, þegar hann er sjálfur búinn að eignast það. — Eg er að vísu ekki færr til að dæma um, hvört það sem Prófasturinn (bls. 170) ber fyrir sig — "að nærri því allra ríkja dæmi hafi svo yfirfljótanlega leidt í ljós, að ríkis eignirnar sèu ekki betur geymdar eptir að búið er að draga þær í gullhúsið, enn ámeðan þær voru í fasteignum til og frá um landið" — á við peníngabrúkun Danaríkis; en eg efast um, að það geti gyldt eins almennilega og Prófasturinn meinar, eða yfirhöfuð án margra og mikilvægra undanteknínga. Allir sjá, að ríkisstjórnin einhvörstaðar verður að taka það sem hún þarf með til

nauðsynja sinna, og er það þá gömul og sönn fræði: að betra sè hjá sjálfum sèr að taka enn sinn bróður að biðja. Á þetta sèr víst ekki hvað sízt stað við peníngalán þeirra ríkja, sem eiga kost á að selja ríkiseignirnar fyrir "geipiverð"; og einsog nýnefnd athugasemd Prófastsins því kemur illa við í tilliti til sölu konúngsjarðanna á Íslandi nú sem stendur, eins sè eg heldur eigi betur, enn að jarðaverðið, eða laga ávöxtur þess, sè eins vel geymdur í "gullhúsinu" einsog jarða afgjaldið áður. Er tèð athugasemd Prófastsins og nokkuð svipuð þeirri ástæðu mót sölu konúngsjarðanna, sem eg líka hefi heyrt: að andvirði konúngsjarðanna sè tekið inní fjárhirzlu ríkisins, án þess að til greina komi, að það sè hèðan komið, eða án þess það síðan loði við fjárhirzlu landsins eða jarðabókar reiknínganna, enn síður að peníngar þessir komi landinu að haldi; því mèr skilst ekki betur, enn að bæði þetta sè rèttast, og að landinu að öðru leiti megi standa á sama, í hvörjum reikníngum grein er gjörð fyrir peníngum þeim, sem landsbúarnir einusinni hafa goldið fyrir tèðar jarðir, og það því fremur, sem þeim sýnist vera drumbs um að nýta sèr þann kost sem konúngur gefur þeim — að mega halda mestöllu kaupverðinu að láni — einsog þeir væru ekki láns þurfandi. Vegna þess geta þeir og því síður vænt meira hagnaðar af jarðasölunni enn þeim þannig er gefinn kostur á, sem einginn efast um, að j a r ð i r n a r e r u k o n ú n g s e ð a r í k i s s t j ó r n a r i n n a r e n e k k i l a n d s i n s e ð a l a n d s b ú a n n a e i g n, og þessir því fyrst við kaupin eignast þær sem peníng anna fullt ígyldi.

Öðru máli gegnir um þær eignir, sem vafi kynni um að vera, hvört þær með rèttu heyra konúngi til eða landinu sjálfu, eins og í orði er um stóla eignirnar (sjá bls. 239 skír. gr. 1) og klaustra gózin, er nokkrir vilja láta landið eiga tilkall til, og bera fyrir sig gömul konúngsbrèf, svosem 2 gefin 1542 (á "*vor Frue Aften præsentationis*" ɔ: fárnardag Maríu, 21 Nóv.) um latínuskóla á Helgafelli og Viðey, og barnaskóla á Þykkvabæar- Skriðu- og Kirkjubæar-klaustrum, og hið þriðja gefið á Jóladagin sama ár, "að einginu latínuskóli skuli vera á Viðeyarklaustri", um leið og gjört er ráð fyrir, að skólar verði hafðir á öllum hinum klaustrunum; en auk þess að um þetta má segja, að ráðstöfun þessi sè gjörð áður enn klaustrin við siðaskiptin 1557 urðu konúngs eign, og hann fyrr sem síðar hefir haft eignar umráð yfir þeim, skilst mèr ekki að þetta vafamál, (ef svo skal kalla), sem stendur geti orðið röksemd ámóti sölu klausturjarðanna, þar nú er öllu öðru að skipta, enn þegar jarðir Skálholts stóls voru seldar, máske nokkuð ofbrádt, að tilhlutun ríkisstjórnarinnar.

Hèr að auki virðist mèr, sem Prófasturinn byggi á rángri ímyndun um eigin stjórnarhag Íslands, er hann þannig mótmælir sölu konúngsjarðanna; mèr virðist sem hann gjöri ráð fyrir, að stjórnin láti landið lifa og deya við eigin efni þess, eða fari eptir því, hvört ríkis inntektirnar af landinu jafnist við *(ballancere)* kostnaðin til þess þarfa, áður enn nokkru er varið til þess af ríkissjóðinum, þ. e. fari með það einsog nýlendu sína *(Colonie)*, en ekki sem væri það eitt umdæmi ríkisins *(Pro-*

*vinds)*, sem nyti örlætis stjórnarinnar sèr til gagns og þarfa án tillits til ríkis inntektanna af því. Væri þessu nú þannig varið, kynni Prófastinum að vísu sýnast að hafa nokkuð til síns máls; en það er öðru nær, og má þvertámóti fullyrða, að Ísland hafi ávallt notið sömu, ef ekki meiri, náðar konúngs enn hin ríkis umdæmin. Það er einúngis með tilliti til kaupverzlunarinnar að landið hefir fengið nokkurn nýlendu svip, en það fórst fyrir að því í fleiru yrði komið á sama fót og nýlendum [1]), og er skóla stjórnin og skólaráðstafanirnar þess ljósastur vottur, að stjórnin ekki mælir við oss kostnaðin eptir tekjunum: því þó vèr nú vildum gjöra, að inn væri komið fyrir Skálholts jarðirnar hèrum 60,000 rbd. r. s., eða framundir 62,500 rbd. r. s., sem er innstæða til 2500 rbd. árs rentu, er konúngur í brèfi sínu frá 29 Apríl 1785 hèt skóla (1500 rbd.) og Biskupi (1000 rbd.) til endurgjalds fyrir tekjurnar af jörðunum, og eins fyrir Hólastól á að gizka 70,000 rbd. r. s. [og varla mun það geta hærra komist, enda þó vèr vildum reikna andvirði þeirra fáu jarða með, sem enn eru óseldar og tilheyrðu stólunum, geti ekki verð tíundanna, sem komu undir konúng, bætzt hèr við], vantar þó 13,500 rbd. höfuðstól, eða 540 rbd. árs rentu uppá fyrrtèðan árs kostnað (5,740 rbd.) til skólans.

Það er því svo lángt frá, að landinu geti orðið nokkurs óhags eða skaða von af því, að árs tekjur konúngs af jörðum hans hèr *(nominatim)* rírni við sölu þeirra, um leið og ríkissjóðurinn ábatast við það

[1]) Sbr. æfisögu Jóns Eiríkssonar, bls. 75.

svo tölnverdt — að það þvertámóti getur orðið þess skaði, eins og það væri ósannsýni mesta, ef stjórninni ekki væri hèr eins heimilt og í öðrum umdæmum ríkisins, að leitast við á þenna hátt að sæta sèrhvörju tækifæri til að lètta undir byrði ríkis fjárhirzlunnar, og bæta með því hag þegna sinna og innbúa lands þessa. Gjörum við að stjórnin hafi 9000 dala afgjald á ári af konúngsgózinu sem eptir er óselt hèr á landi, en að fyrir það gætu fengist 300,000 rbd. (sem mun koma nálægt því sem áður, bls. 136 sk. gr. var gizkað á að væri verð allra þjóðjarða landsins, ef hvört hundrað væri selt fyrir 16 Spesíur). Látum nú þessu fè verja, hvört heldur sem vill til lúkníngar nokkru af ríkisskuldum, eða til vaxtar peníuga, eptir sem ástendur; hefir þá stjórnin, um fram það sem hún hafði af gózinu óseldu, 3000 rbd. á ári, eða 12,000 rbd. (sem er renta af 300,000 rbd.) á ári í staðin fyrir 9000 rbd.

Væri nú nokkurr sá, sem gjöra vildi ráð fyrir að þeir tímarnir þó kynnu að koma, að stjórnin sæi sig um hönd, og tæki fyrir að láta tekjurnar ráða kostnaði til landsins þarfa, þá má því með ennþá fullkomnari vissu spá, að verð konúngsjarðanna, sem vaxtarstofn landsins, verði talið með tekjunum, og verða þá eins landsins kjör þeim mun betri, sem eptirgjald jarðanna er minna enn árs rentan getur orðið af kaupverði þeirra.

Það er enn fremur augljóst af því sem áður er sagt, að innbúar landsins eða kaupendurnir sjálfir eiga peninga þá sem þeir verja til jarðakaupanna, eins og eg líka vænist að hafa fært sönnur á, að peníngar þessir, að því leiti þeim ekki er til þessa

varið, eru yfirhöfuð að tala látnir liggja arðlausir; og leiðir þá af þessu að landið græðir við sölu konúngsjarðanna allt jarðaverðið á 25 eða 35 ára fresti, (þegar gjört er ráð fyrir, að það nái sèr í eptirgjaldinu á þessum tíma, og mun óhætt að ætlast til þess, ef sjálfseigna fjölgun og veðsetníngar styðja að því); og er þannig bæði jörðin og jarðarverðið á sama tíma komið í eign kaupandans; einsog líka allt afgjald jarðanna, eptir að konúngur er búinn að selja landsmönnum þær, vinnst landinu, er það áður gekk útúr því inní ríkissjóðin. Þegar nú loksins aðgætt er, að þetta sama jarðaeptirgjald, ef því væri safnað og sett á vöxtu, tvöfaldar innstæðuna (jarðarverðið) á hvörju eptirfylgjanda jafnlanngu tímabili: svo hlýtur það að vera öllum í augum uppi, til hve mikils ábata fyrir landsmenn jarðasala þessi er; og enda þó nú tèðu eptirgjaldi ekki væri ætíð haldið þannig saman, heldur að nokkru eða öllu leiti varið til annarra nauðsynja, má það eigi að síður heita tölnverður styrkur til velgengnis eða gagns og nota landsbúunum, og er þó hèr ekki getið framfara þeirra í rækt jarðanna, sem sala þessi og veðsetníngarnar ættu af sèr að leiða, og alls þess ábata sem þaðan er að vænta.

2. En — mèr virðist sem Prófasturinn færi sèr ástæður í nyt sem öllu fremur veikja og skaða málstað hans, hvörsu góður sem hann annars hefði verið, enn bæta, og ætla eg þetta einkum um þá ástæðuna gegn þjóðjarðasölunni sem hann hefir kaldhamrað úr eigineignar notunum fyrir land og lýð (bls. 168 -69), þar hann segir: "En eins er tví-

sýni á hvað landinu sè það hollt að verið er að selja þjóðeignirnar ár frá ári, því þó það sè borið fyrir, að þá fari jarðirkjunni mest fram er bændur eigi jarðirnar sjálfir, er þeir búa á, þá er fyrst, að reynslan ekki staðfestir það nærri allstaðar — því bæði er það, að þar sem náttúran er með jarðirkjunna og menníngin er komin, þar miðar henni áfram og lagfæríngu jarðanna, hvörr sem þær á; enda gefur að skilja, að ekki er unnið fyri gýg, þó ekki eigi þeir jarðirnar sjálfir sem þeir búa á, þar sem menn fá að sitja á jörðunum og brúka sem þeir ættu æfilángt og standum niðjar þeirra eptir þá, og lengra komast menn ekki, þó þeir sjálfir ættu þær."

Það væri hörmulegur vottur ómennsku, þánka- og framtaksleysis Íslendínga, ef satt væri, að jarðirkjunni ekki færi betur fram þar sem bændurnir eiga jarðirnar sjálfir, en þó þeir sitji á annarra eign; það sýndi óheyrt hugsunarleysi um eigið gagn, þareð öllum mönnum er eiginlegt og geðfeldara framar og betur að rækja sitt gagn enn annarra; það sýndi stakt framtaksleysi í að stunda hvað gagnlegt er og nytsamlegt yfirhöfuð og merkilega ómennsku og ódugnað landsbúanna við þann eina bjargræðisvegin, sem þeir geta reidt sig uppá og ætíð fá aðnotið; og ætla eg Íslendíngum því vera öllu meiri mínkun enn sóma í, að staðhæft er uppá þvílíka — mannlegu eðli svo öldúngis gagnstæða — reynslu um jarðirkju manna hèr á landi; slíkt hlýtur og að baka ennm góða málstað eða tilgángi (sem einginn getur verið samfærðari um hjá mínum heiðraða mótstöðumanni enn sjálfur eg) öllu meira

skaða enn gagn; því eg veit ekki neina áhrifameiri uppörfun til jarðarræktar enn þá, að bóndinn einn taki öll laun verka sinna og uppskeri allan ávöxt og ágóða handafla sins, og ekkert fremur henni til niðurdreps eða eflíngar atorkuleysis vors enn hið gagnstæða, og alla þá fræði, sem mælir fram með því eða leigubrúkuninni. Að vísu lætur Prófasturinn í ljósi, að sú reynsla, sem hann styður sig við, ekki sè almenn — "að reynslan ekki staðfesti *það* nærri allstaðar"; en hvörnig getur hann þá fengið af sèr að byggja á henni þessa ótrúlegu sögnsögn um eigineignar brúkunina, eða þessari sögnsögn til styrktar að nýta þá athugasemd: að jarðirkjunni miði áfram þar sem náttúran sè með hana og menníngin sè komin á, hvörr sem jarðirnar eigi? Sè reynsla sú, sem til var vitnað, ekki almenn, sannar hún ekkert, og sè meiníngin sú, að nokkrir eða fáeinir irki eins vel annarra eign sem sína eigin, þá verður þessi reynsla Prófastsins (eða reynslu ástæða) einstök, og frábrugðin því sem náttúrlegast er og allmennt viðgengst, og þessvegna málstað sjálfs hans til hnekkis *(exceptio firmat regulam)* og þá samsinni eg honum að sönnu í því: að jarðarrækt vor yfirhöfuð sè í ólestri, að einstöku bændur hirði um annarra jarðir einsog væru þær sjálfra þeirra eign, en aptur aðrir vanræki sjálfseignar og ábýlisjarðir sínar, álíka og þeir sem sitja og nýða niður annarra eign; en einsog þessir munu vera úrgángur bændastèttarinnar, sem betur væri upprættur með rótum, svo eru og hinir einvala lið hennar, sem öðrum fremur verðskulda að sitja á sjálfs eign og búa að þeirri jörðu, sem

þeir hafa lagt mesta og lengsta rækt við, og ættu allir landsdrottnar að gefa þvílíkum mönnum kost á að kaupa ábýli þeirra [1]).

---

[1]) Eg vil ekki draga dulur á, að einu af enum áreiðanlegustu og gagnkunnugustu löndum vorum hefir fyrir skömmu skrifað mér á þessa leið, til sanninda merkis um, að leigubrúkunin ekki yfirhöfuð standi jarðarræktinni hér í vegi: “Hólastóll og Reynistaðarkl. áttu næstum alla Skagafjarðar sýslu. Nú eru stólsjarðir þær fyrir laungu seldar, en hvörgi eru jarðir verr hirdtar enn í Skagafirði og í aungri sýslu Norður- og Austuramtsins velmegan minni, og þó er hún ekki verri kostum búin af náttúrunni enn hinar”; en þetta dæmi er svo lángt frá að hrekja meiníngu mína um eigin eignar notin, að mér virðist það miklu fremur styrkja hana: Sýslan átti næstum tóma leigubændur, þángaðtil farið var að selja Hóla gózið 1802, en klausturjarðirnar þar eru enn þá óseldar. Nú get eg ekki gjört ráð fyrir, að nærri allir leigubændur Hóla jarðanna hafi getað keypt þær, en ætla, eptir efnanna og téðra kríngumstæðna ásigkomulagi, að flestir leiguliðar þessir séu leiguliðar enn, og að jarðirnar að miklu leiti hafi lendt hjá þeim einum, sem ekki létu þá sitja við betri kjör, enn stólinu áður, höfðu öll tök á að þrengja að þeim með eptirgjaldið, að láta þá “taka heima” o. s. frv. En mér skilst líka dável þetta ástand jarðarræktarinnar í Skagafirði af lýsíngu þeirri sem Eggert Ólafsson (í ferðabók sinni bls. 687) gefur yfir Skagfirðínga: “að þeir kjósi heldur að vera á flakki og að prånga með hesta og vörur enn að vinna og gæta búa sinna; að þeir séu enir mestu grobbarar, hneigðir til drykkjuskapar, áfloga, lausúngar og pretta í kaupum og sölum m. fl.” (sbr. bls. 737—39). Annars ber þetta dæmi sannast vitni um, að það er ekki ófyrirsynju, er eg að framan (í 7da þættinum) hefi kennt leigubrúkuninni um flestar þær lands óreglur, sem vanrækt jarðarinnar

Að jarðirkjan ekki er söm eða eins fullkomin allstaðar á landinu, gefur mèr einsvel að skilja; en að það standi á sama hennar vegna hvört ábúendur sjálfir eiga jarðirnar eða ekki, "þar sem náttúran er með hana og menníngin er komin á", er mèr óskiljanlegt. Það veitir hægra að irkja eina jörð enn aðra: landslagið, hægð til aðdrátta, góð eptirdæmi, nákvæm umsjón eigendanna og margt annað ollir mikils mismunar í þessu tilliti á ymsum stöðum og í ymsum sveitum; en aldrei og hvörgi kemur "náttúran með jarðirkjuna" eða "menníngin" til hennar sjálfkrafa eða að orsakalausu, og þó að framfarir í jarðirkjunni hljóti að vera hvörntveggju samfara og fylgja einsog verkan orsök, þá hefir Prófasturinn í ranninum ekkert sagt nè sannað með því, nema lesendurnir um leið sèu fræddir á, hvað aptur framleiði og styðji tèða jarðirkju, náttúru og menníngu; og er eg sannfærður um, að sjálfur hann eptir betri yfirvegun viðurkennir, að hið vissasta og ypparsta meðal til þess sè: að hvörr irki jörð sína sjálfur, og það ekki sízt hvað konúngsjarðirnar snertir, því hvörgi hvetur leigubrúkunin (eða meðferð jarðanna af landsetum konúngs) meirr til sjálfseignar enn á þessum jörðum, sem að allra sögn víðast hvar eru lèlegar setnar enn bænda eignirnar, þótt leigubændur, einsog fyrr

---

hefir í för með sèr, með því það líka er að sjá bæði af nýnefndri ferðabók, sem og af Ólavii ferðabók (bls. 271 sbr, 213—14, 261—62 og 324—26) að Skagfirðíngar ætíð hafa verið fremstir í flokki til að vanrækja landið og flakka að sjónum, suður á land og vestur undir Jökul, sjálfum sèr til skaða og vanvirðu.

var á minnst (í 7 þættinum og v.), sæti þar betri kjörum enn annarstaðar, en þetta er aptur því ljósari vottur þess, að leiguhrúkunin er landinu skaðvænni enn sjálfseignin, sem leigubrúkun konúngslandsetanna kemur sjálfseigninni nærr. Mèr skilst eigi heldur betur, enn að hann sjálfur annarstaðar í riti sínu láti þetta ásannast og gjöri ráð fyrir, að leiguliðar að venju öllu fremur hafi eigin hag enn gagn landsdrottins eða jarðarinnar fyrir augum, t. a. m. á bls. 190, 195, 201—202, 206 og 233—34, hvar mèr virðist þetta nógsamlega vera hrýnt, hæði með tilliti til jarðarræktarinnar yfirhöfuð, jarðarhúsanna og kúgyldanna, ekki einúngis á bændabýlunum, heldur og sèrílagi á embættisjörðum prestanna, og ætti þeim þó ekki sízt að vera hugfast, að elska náúngan og efla hag annarra sem sjálfra sín; en hvört þeir nú betur enn aðrir halda boðorð þetta eða ekki, þá sýna þeir þess þó, eptir sjálfs Prófastsins lýsíngu, bls. 192—93 og 204—211, næsta lítin ávöxt, þareð bæði "þeir og aðrir sem fengið hafa hönd yfir þjóðeignunum", til eigin hagsmuna og ávinníngs, nýða hús þeirra, skóga og aðrar landsnytjar til óbætanlegs tjóns og skaða eigendum og eptirmönnum, og gefur öllum af þessu að skilja, hve hollt það sè fyrir land og lýð, eða ábatasamt eigendunum, að þjóðeignirnar, þar sem þannig er með þær farið, ekki eru seldar ámeðan þær eru í nokkurnvegin verði, og yfir höfuð hvörsu völlt sú ástæða er, sem Prófasturinn tekur af reynslunni fyrir efasemdum sínum um betri framfarir jarðirkjunnar, þar sem bændur sitja á sjálfra sinna eign heldur enn á

annarra; enda er mèr það óskiljanlegt, að reynslan ekki skuli hafa sannað honum hið gagnstæða í Árness og Rángárvalla sýslum, síðan Skálholts gózið var selt. Sama er að segja um verkanir konúngsjarða sölunnar í Gullbríngu sýslu; eg hefi þegar sèrílagi nefnt Brekku og Elliðavatn og núorðna eign Jóns Helgasonar í Garði, sem allar voru konúngsjarðir áður, og tek nú (að frásögn þeirra sem til þekkja) hèrað auki einúngis hið fjórða dæmið af Ytri-Njarðvík, sem í eign konúngsins var orðin svo niðurnýdd og af sèr gengin, að hún varð ekki bygð, nema aumíngjum einum, og var hún því og um þær mundir kölluð "Sultar-Njarðvík"; en þegar búið var að selja hana nokkru eptir aldamótin seinustu, fór hún þegar að rètta við, og er síðan komið reisuglegt þríbýli þar sem áður ekki gat lifað nema tæplega ein bóndamynd, og jörðin orðin einhvör hin fallegasta og girnilegasta í höndum eignarmannsins.

Eg þyrfti þá ekki að hrinda þeirri efasemd Prófastsins um eigineignarnotin, sem hann þarnæst dregur af lífsfestu jarðanna, ef eg ekki óttaðist, að hún ómaklega kynni að þykja nokkrum lesendanna álitlegri: það er að vísu satt, að bændurnir ekki vinna fyrir gýg, þó þeir eigi ekki jarðirnar sjálfir — ef "þeir fá að sitja á þeim og brúka sem þeir ættu æfilángt og niðjar þeirra eptir þá", einsog líka nokkuð er til hæft í, "að þeir ekki komist lengra þó sjálfir ættu þeir þær"; en hæði er það þessari ástæðu til hnekkis, sem þegar er sagt, að það sè manninum eðlilegast og geðfeldast að leggja meiri rækt við eign sjálfs sín enn annarra, jafnvel þó hann megi nýta sèr eign annars manns

sem sína eigin, því þetta mega, að heita má, konúngs landsetarnir, og fara þá manna verst með leigujarðirnar; líka er það ofhermt, að leigaliðarnir yfir höfuð megi fara með bújarðir sínar einsog þeir ættu þær: því auk þess að þeim optastnær eru settir, ekki einúngis leiguskilmálar, heldur og meðferðar skilmálar í byggíngarbréfunum, sem þeir verða að fylgja undir ábúðar töpum (sjá ritgjörð Prófastsins, bls. 152 og 173); svo eru sum eignar notin í rauninni annaðhvört að nokkru eða öllu hjá eigandanum eða landsdrottni sjálfum. Þannig skipta þeir báðir hvörs árs ávexti ámilli sín, landseti geldur árlega landsdrottni fyrir brúkunina landskuld og leigur, sem hann ætíð má hafa á reiðum höndum í tækan tíma í áskildum góðum og gyldum landaurum. Gjöld þessi mega verða bæði landsetanum og jörðinni þúngbærari enn svo, að mikilla jarðabóta geti verið að vænta, einkum ef kenníngu Prófastsins, sem áður var getið bls. 237—38, er fylgt: "að landsdrottni sè frjálst að selja jarðir til byggíngar með þeim kjörum, sem hann unir bezt við". Eptir Prófastsins eigin játníngu (bls. 166) er þar hjá "landaura eptirgjaldið" — sem þó gengst mest við manna á milli — "erfiðast af öllu", eins og líka sjálfir landaurarnir eru "máttarstólpinn undir öllu bjargræði okkar" (bls. 167); því er trauðskilið, að landsetar þeir, sem landaurunum eiga að svara, og eiga upphæð gjaldsins undir velþóknun ýtinna og ágengra landsdrottna, komist ekki lengra, þó þeir ættu jarðirnar sjálfir. Að landsdrottinn að öðruleiti einnsaman hafi öll **eignarumráð** jarðanna og sè í sjálfs valdi að selja og veðsetja þær o. s. frv., er

í augum uppi, einsog líka að hvörttveggja getur haft afleiðíngar fyrir ábúandan. Verði landsdrottinn sjálfur jarðnæðislaus, þá á sá, sem þegið hefir jörðina að honum til ábúðar, einsog fyrr var á minnst, enda undir kríngumstæðunum, hvört hann líka, þessarar orsakar vegna, fær aðnotið leigubrúkunarinnar um hinn ákveðna tíma (smb. 5ta þátt. bls. 115—118 og 7 þátt.). Eins er það mjög tíðkanlegt í Danmörku, og getur einnig átt hèr við, eptir Lbrb. Kap. 12, að lúnir og lasburða jarðeigendur gefa jarðir sínar með sèr til framfæris, hvörjum sem bezt býður, og er þetta þá eitt það sem því getur ollað, að ábúandinn verði sviptur býlinu, eða megi víkja fyrir kaupanda, þ. e. þeim sem próventuna tekur. Loksins fellur efasemd þessi, eða (lífsfestu) ástæða um koll við lenzku þá, sem áður var getið og sem víða er komin á, að byggja ekki jarðirnar æfilángt heldur eptir samkomulagi, "svo lengi sem landsdrottni og leiguliða um semur", ámeðan landseti "tekur heima" o. s. frv., og eru annarsvegar heldur eingin lög fyrir, að landsdrottinn skuli láta "niðja" landsetans njóta ábúðarinnar eptir hann; annað er hvað verða mætti eptir samkomulagi eða af góðvild eigandans, sem þó sjaldnast mun ná lengra enn hann sèr sèr hag við; en því betri sem jörðin er orðin undir ábúð formannsins, þess hærri verður festa og árlegt eptirgjald þess sem síðan kemur, hvörr sem hann verður, (þar sem þetta einúngis ferr eptir og er komið undir sjálfdæmi landsdrottins); og það hefir reynslan sýnt víðar enn hèr, að jafnvel enir duglegustu og efnuðustu landsetar, einmidt þessa atriðis vegna — þ. e. af því

þeir hafa sèð, að niðjar þeirra ekki fá öðrum fremur aðnotið býlanna eptir þá og yfir höfuð ekki nema fyrir geipiverð — ekki hafa varið neinn eða þá ekki nærri eins miklu erfiði eða peníngum til jarðarbóta sem skyldi, og sem þeir annars gjört hefðu; og er þá komið lagið á jarðarræktina og framfarir landsins, þegar þetta á sèr stað hjá þeim af (leigu) bændunum, sem mestrar atorku og dugnaðar er von að (þ. e. lífsfestu bændunum).

Þriðju ástæðuna fyrir því, að sjálfs eignarbændur ekki sèu jarðirkjunni þarfari enn leiguliðar, sækir höfundurinn til Englands, og vill færa sönnur á mál sitt (bls. 169) með þessum orðum: "hvörgi er jarðirkjan betur stunduð enn á Englandi, en færstir bændur búa þar á sjálfs síns eigu". Eg þekki, því miður, of lítið jarðirkju Enskra til að geta gefið lesendunum ánægjanlega ávísun um ásigkomulag hennar; en svo mikið veit eg, að bæði er ökrunum og sáðlöndunum á Englandi í sjálfum sèr, og einkum rækt þeirra og meðferð allt öðruvísi varið, enn í flestum öðrum löndum, og sè eg því ekki hvörnig Prófasturinn, sem þetta er eins kunnugt og kunnugra enn mèr, getur verið að líkja Íslands hrjóstugu mónum, foræðis mýrum og þýfðu túnreitum við þá. Á jörðum vorum er gras eini ávöxturinn, á jörðunum á Englandi allskonar kornávöxtur, ef ekki eingaungu, þá samt að mestum hluta, og er hann ensku jarðirkjumönnunum því dýrmætari sem en ensku lög ekki, nema í ýtrustu nauðir reki, leyfa aðflutnínga á korni frá öðrum löndum, og fólksmergðin þar er svo afar mikil (þ. e.

hèrumbil 3950 manna á hvörri ferhyrndri mílu í konúngsríkiuu Englandi sjálfu, þar sem ekki eru nema 1000 í Danmörku og tæpir 37 á Íslandi, á jafnstórùm bletti) svoað þeim þessvegna ríður máske meir enn nokkurstaðar annarstaðar á, að reyna með öllu mögulegu móti að afla sem mestrar kornvöru handa Englands ógrynnis fólksfjölda, sem neyðist til að kaupa hana af þeim, hvörsu dýr sem er, til viðurhalds lífinu. Meðal kornirkju tilrauna þessara má telja þann hinn kostnaðarsama vallar áburð af muldum gripabeinum, sem Enskir fyrstir allra hafa hagnýtt, og getið er um í Búnaðarr. I B. I D. bls. 47. En því að eins svara allir slíkir viðburðir (sem hafa tilætlaða verkun) kostnaðinum, að bændur eða jarðirkjumenn á Englandi eiga lögunum að þakka bann það, sem lagt er við kornflutníngum annarra þjóða til landsins, og hvörgi er annarstaðar, og er jörðin þar því óþrjótanlegri og vissari uppspretta velmegunar landsbúanna enn annarstaðar, ámeðan kornlögum þessum ekki er breytt [1]); en svo er öllum

---

[1]) Til þessa hefir nýlega verið gjörð árángurslaus tilraun í enu enska þjóðarráði *(Parlament)*, þareð þeir, sem ekki eru jarðeigendur, una illa við að kaupa lífsbjörg sína af enum síðar nefndu, hvörsu dýr sem vera kynni, og miklu dýrra enn erlendis mætti kaupa hana. Aptur ámóti sjá jarðeigendurnir sèr af þvilíkri lagabreytingu óbætanlegan skaða búin, bæði með tilliti til árleigunnar af jörðunum (sem að mestu eru leigðar um tiltekin margra ára tíma enum ötulustu jarðirkjumönnum) sem við það mundi falla stórum; og eins með tilliti til verðhæðar á jörðunum, er jafnframt hlyti að lækka um allan helfíng, ef ekki meir. Er því mjög vandsèð um, hvör endalok kornlaga frumvarpsins muni verða, með því líka að enir

atvinnuvegnm til hagað á Englandi, að einginn helzt þar við, nema með sèrlegri atorku og framtakssemi, og gætir þessa þjóðaranda sjálfsagt ekki hvað sízt við þann hjargræðis vegin, sem gefur svo ríkugleg og viss laun verkanna einsog jarðirkja Enskra híngaðtil hefir gefið. —

En, eg tek þá röksemdina seinast, sem að minni ætlun ein hefði getað rekið Prófastin í vörðurnar og sýnt vansmíðin á hugleiðíngum hans um þjóðjarðasöluna og sjálfseignar notin. Hann ritar "um bygging jarða, meðferð og úttektir"; byrjar ritið (bls. 139) með þeim mikilvægu sannindum: "að velgengni landa og lýða sè hvað mest komin undir góðri meðferð og notkun jarðarinnar"; segir (bls. 140—41, smbr. bls. 152—53, 178 o. v.) "að framför eða hnignan jarðirkjunnar sè að miklu leiti komin undir því, hvörnig byggíngunum er hagað, og hvörnig úttektirnar sèu af hendi leystar", og leiðir síðan, tilgánginum og efninu samkvæmt, lesendunum fyrir sjónir það sem óskipulega ferr við byggíngar og úttektir, er hann álítur landi, landsnytjum, jarðabyggíngum og jarðirkjunni yfir höfuð skaðvænast, um leið og ráð þau við hnignun jarðirkjunnar, er af óreglunni leiðir, sem hann í þessu tilliti álítur hyggilegust, framförum landsins og jarðirkjunnar hollust og affarahezt. Nú sjá allir, að höfundurinn, sem einúngis hefir leigujarðir fyrir augum, ei getur staðhæft uppá, að jarðirkjunni fari

tignustu aðalsmenn og göfugustu stórjarða eigendur eru meðlimir þjoðarráðsins.

aptur við byggíngar jarðanna og úttektír — einsog þær nú einnsinni viðgángast — hvaðan rót alls ens illa: að landsdrottnar "láta eptirgjaldið sitja í fyrirrúmi" fyrir "ábúandans skyldum við jörðina", er sprottin, og lengst af mun loða við í landi voru, ámeðan peníngaverzlunin ekki tekur hèr annað snið og jarðirnar ekki gefa eigendunum lagavöxt jarðaverðanna — sem traudt mun verða, ef þær ekki falla í verði, en þess er ekki að vænta nè óska fyrir land nè lýð — nema hann einnig viðurkenni, að jarðirkjunni hljóti að því skapi að fara fram, sem fleiri ná að sitja á sjálfseign (og það verða margir, ef ekki að lokunum allir, fái veðsetníngarnar hèr inngaungu) svoað einhvör hin skaðvænasta hindran jarðarræktar og lands framfara (óskipulag byggínganna og úttektanna) ekki fái staðist. Einsog eg því get vitnað undir ritið sjálft, efni þess og innihald, um nytsemi leigujarðasölunnar og þjóðjarðanna sèrílagi, og um eigin eignar notin yfirhöfuð, svo má eg í hvörutveggju tilliti álíta athugasemdir hans, þær sem eg hèr mælti á móti, því fremur ástæðulausar og óvandlega hugaðar, sem þær ekki einúngis stríða á móti sannfæríngu minni, heldur og ámóti berum orðum og efnis skipun í riti sjálfs hans, einsog nú var sýnt [1]).

[1]) Hèr verð eg annars að geta þess, að Prófasturinn að bón minni hefir lesið (flestallar) athugasemdir þessar við ritgjörð hans, ef verða mætti, að við með þessu móti yrðum á eitt sáttir, og urðum við það að sönnu í höfuðefninu; en hann gaf að sök, að eg hefði miskilið greinir þær í ritgjörðinni, sem eg að framan hefi tilfært viðvíkjandi þjóðjarðasölunni og sjálfseignar not-

3. Þriðja atriðið, er mèr ekki kemur saman um við minn háttvirdta mótstöðumann, viðvíkur

---

nuum, því þar sem hann talar um, hvað "landinu" sè hollast í þessu tilliti, (bls. 166—70) hafi hann ekki einúngis haft landið sjálft, heldur og jarðabókar eða konúngs-sjóðin (þ. e. "fjárhag Íslands, *Finantsvæsen* yfirhöfuð") fyrir augum, og í þessum skilníngi elað, að landið geti hlotið gagn af þjóðjarðasölunni eða sjálfs eignar brúkuninni, "þegar allt (þ. e. "hið umliðna og eptirkomandi") er vel skoðað". En eg get ekki af ritgjörðinni sjálfri, innihaldi hennar eða samanhengi orðanna orðið sannfærður um, að þessi sè meining þeirra, og sè ekki hvörnig hún getur verið hulin í þrim, þegar eg yfirvegn efnið og sambands þráð greinanna. Að sönnu kemur hún að nokkru leiti heim við það er hann segir um sölu stólagózana; en mèr skilst ekki betur, enn að hún (auk þess að hún er mjög óljós og á ekki við eiginlega þýðíngu orðsins: "landið") að öðruleiti sè gagnstæðileg hinum öðrum röksemdum hans gegn sölu þjóðjarðanna, þar sem hann auðsjáanlega aðgreinir landsins hag og stjórnarinnar, eða lands ágóða og "konúngstekjur" o. s. frv.; og gefur öllum þetta sem bezt að skilja af greininni um "gullhúsið". Og þareð eg ná ekki gat vikið frá skilníngi mínum nè meiníngu (sem eg líka vissi vera margra annarra) í tilliti til fyrrtèðra atriða, kom okkur saman um, að eg skyldi leitast við, að hrinda ástæðum hans einnig eptir skoðunarmáta sjálfs hans, eða eptir þeim skilníngi, sem hann sjálfur gefur ástæðum sínum; og það ætla eg nú sè gjört, sèrílagi með ennm nákvæmari athugasemdum (í fyrstu grein) viðvíkjandi sölu skólaeignanna og skoðunarlagi því, sem mèr virðist hann hafa á stjórnarhag landsins, m. m., hvaðan ótti hans fyrir sölu þjóðjarðanna — eptir útleggíngu sjálfs hans — þá má vera sprottinn. Vænist eg því að athugasemdir þessar ekki með öllu sèu óþarfar, hafi mèr annars heppnast að

orsökinni til, að landsbúarnir næstum eingaungu brúka peninga sína til jarðakaupa. Þetta kennir hann (bls. 162) skorti bjargræðisvega og aðburða hèr á landi, og kveður hann upp, að á þessu mundi breytíng verða, eins og líka jarðaverðinu og eptirgjaldinu — sem hann tjáir því meir fært upp við landsetana, sem jarðirnar eru dýrra verði keyptar, þareð það ella ekki mundi nema meiru enn 2 eða 3 af hvörju 100 jarðarverðsins, og mönnum því er nauðugur einn kostur, að koma peningum sínum í jarðir heldur enn að hafa þeirra eingin not — „ef að betur rýmkaðist um bjargræðisvegu vora, og þeir yrðu óhultari, svo kostur yrði á að hafa meiri ávöxt fjár síns með öðrum athöfnum". Mín trú er í þessu tilliti veik, og eg vænti jarðirkjunni næsta lítils árángurs af fjölgun bjargræðisveganna á Íslandi, ámeðan hún (eða nýtíng jarðarinnar) ekki er í betra lagi, enn nú sem stendur. Eg er Prófastinum öldúngis samdóma í, að landi og landsbúum væri það þörf og hagur, "að koma verzlunarefnum vorum í annað horf": að þeir gætu sjálfir náð í kaupverzlunina og áunnið það landinu sem við hana er að ábatast, "svo það sem við öflum, loddi við okkur, og við ættum meira undir sjálfum okkur og minna undir högg að sækja með það sem við þörfnumst frá öðrum löndum". Sama er að segja um not handiðna (handverka) fyrir landið. En þó mikið væri

---

finna sannleikan í höfuðefninu, sem eg leitaðist við, og geti hann rudt sèr til rúms hjá fleirum.

unnið á, ef allir verzlunarmenn vorir væru orðnir Íslendíngar og vèr hefðum gnægð valinkunnra handiðnamanna, vantar samt það sem mest á ríður, "máttarstólpan undir öllu bjargræði vorn", ámeðan skortir á hyggilega nýtíngu og rækt jarðarinnar.

Eins og nú fjöldi bjargræðisveganna sèr í lagi eða eingaungu aldrei getur eflt almenna velgengni, eða gjört það land hólpið, hvörs höfuð bjargræðisvegur er í vanrækt, svo yrði penínga brúkunin til þeirra enna nýu bjargræðis útvega hvörki svo almenn nè mikil, að hún yfirhöfuð gæti stórum breyzt við það, eða tekið aðra rás hèr á landi, og færstir af þeim sem orðnir eru vanir að hrúga saman jörðum fyrir peníngana, munu verða til að setja þá í kaupverzlun eða í aðra bjargræðis útvegu, þóað þeir annars hefðu vit eða tök á kaupmennskunni, sem varla er að ætlast til ámeðan svo mörg vansmíði eru á næsta atvinnuvegi þeirra, jarðarræktinni. Jarðirnar eru nú einusinni orðnar efnamannanna eða peníngamannanna átrúnaðargoð, sem þeir ekki sleppa trygð við fyrr, enn þeir finna annan eins vissan og ábatasamara gróðaveg; og þarf því þessvegna, enn sem komið er, hvörki að kvíða, að þjóðjarðirnar ekki gángi út, nè heldur að treysta, að jarðirnar yfir höfuð falli í verði, eða að eptirgjald jarðanna lækki, þó rýmkaðist um bjargræðisvegina meðal vor. — Fjölgun bjargræðisveganna hefir ætíð verið og hlýtur að vera öllu fremur afleiðíng af enn orsök til framfara sèrhvörs þess lands, hvar jarðirkja eða jarðarrækt er á stofni; og aungri jarðirkjandi þjóð, sem kannast við tilvern sína og ákvörðun, eða hefir vit á og

vakir yfir ad færa sèr hlutina rèttilega í nyt, hefir enn þá orðið vandræði úr peníngum sínum. Þannig er jarðirkjan víðast hvar hinn bezti, ef ekki eini bjargræðis vegur bændanna og landbúanna í Danmörku, og hafa þeir þó aldrei meiri peninga (þó ríkari sèu enn vorir svokölluðu ríkismenn) enn hún útheimtir, og þeir með lèttu móti finna rentustað fyrir í sveit sinni, og það er enda ekki sjaldgæft, að menn þaraðauki optsinnis leita til kaupstaðanna og einkum til þjóðsjóðanna eptir peníngaláni, til að geta ræktað jörð sína til hlýtar. Kaupstaðirnir og handiðnirnar eru eins uppá jarðirkjuna komin, einsog hvörutveggju, að kalla má, eru sprottin af henni eða landávextinum, allstaðar þar sem verzlun og handiðnir eru orðnar til. Landið (og sjórinn), eða með einu orði *bændurnir*, klæða og fæða oss alla, í hvörju öðru standi eða stètt sem vèr erum. Eigi því aðrir bjargræðis- og atvinnu-vegir að lifna við og dafna í landi voru, enn þeir tveir sem vèr höfum, jarðirkja og sjáfarafli, þá hljóta þeir, ásamt atburðum þeim sem þar að lúta, umfram allt að taka framförum; en þá fyrst er þessa von, þegar vèr höfum fengið þekkíngu á og vilja til að færa oss öll þau meðöl í nyt til þess, sem vèr höfum ráð yfir; eg má enda segja, að vèr án þvílíkrar þekkíngar og vilja hvörki sèum færir um, nè hæfir til að bæta á oss öðrum eða fleirum atvinnu — eða bjargræðis — útvegum, og að peníngum þeim eða kostnaði sem til þeirra gengi væri fremur illa enn vel varið, ef þeir bjargræðisvegirnir, sem landinu eru eiginlegastir, eðlilegastir og áreiðanlegastir missa

þessvegna nokkurs við, eða ámeðan þeir eru í ólagi og vanrækt. Sè það nú, sem eg að framan vona að hafa leidt fyrir sjónir, sèrhvörjum mögulegt, að verja peníngum sínum, undireins og hann sjálfur hefir hag og ábata af þeim, jarðirkjunni eða bjargræðisvegum vorum til meiri nota með öðrum hætti, enn með því að kaupa fyrir þá jarðir, svo er fjölgun bjargræðis útveganna, þegar þannig stendur á, bæði ónóg og óþörf til að koma ávaxtarmeiri peningabrúkun á veg, og þó vèr ekki fáum fleiri bjargræðis útvegi enn þá sem vèr þegar höfum, verður því ekki kennt um arðleysi penínganna, ámeðan þessir sömu þurfa meiri peninga og atburði, er gefið gætu meira og betra ávöxt með öðru móti. Eg fæ því ekki fundið aðra líklegri orsök til ennar arðlitlu peníngabrúkunar meðal vor, sem eg áður gat um, enn eg að framan hefi látið í ljósi, þ. e. vankunnáttu landsbúanna og lángvinnt lagaleysi viðvíkjandi þínglýsingum og veðsetníngum, rótgróin vana, sprottin af þeim stofni, ásamt tómlæti, deyfð og framtaksleysi, sem fyrr var getið, með orsökum þess og afleiðíngum yfirhöfuð; og er þá ekki lángt frá, að Prófasturinn sè mèr samdóma í þessu, er hann í upphafi ritgjörðar sinnar lætur í ljósi:" að kunnáttuleysið ekki hvað sízt olli því, að svo margt í búnaði vorum ferr illa og óskipulega, og að framfarirnar verða minni enn skyldi." Viti menn fyrst og reyni, að tíð og erfiðismunir eru penínga virði, og að hvörr sá, sem ver peníngum til tíðarauka, eða til að spara erfiðismuni (krapta og verk)

hefir þeirra farsælust og varanlegust not, þá skal einginn peníngamaður framar þurfa að kvarta yfir, að hann nái ekki laga ávexti penínga sinna, þó vèr að svo stöddu ekki öðlumst fleiri bjargræðis útvegu enn vèr nú höfum, og þá jarðirnar aldrei falli í verði. Allt er hèr undir því komið, að vèr notum það lítið sem vèr höfum, og látum ætíð þann bjargræðisvegin, sem vèr helzt höfum oss á að reiða, verða í fyrirúmi; að vèr verjum öllum efnum vorum til jarðarræktarinnar ámeðan hún þarf þeirra við. Og þegar svo er komið, hlýtur reynslan eins hèr og annarstaðar að sýna: að hinir atvinnuvegirnir fjölga og dafna af sjálfum sèr; en þó oss sè hulið hve nálæg eða fjærlæg þessi tíð sè, þarf samt aungan spámann til að segja það fyrir, að hún komi aldrei, nema peníngamennirnir leggi af jarðakaupa æði þeirra, og í þess stað, betur enn híngað til, styrki með peníngunum landseta til að eignast ábýli þeirra, hvar sem kostur er á, því einginn ætlist til, að aðrir enn eigendurnir leggi þá rækt við jörðina, sem hún á skilda og þarf, til að bera svo mikin ávöxt sem auðið er.

**Þannig hefi eg nú leitast við að hrinda þeim fáu meiníngum í áður nefndu riti Prófasts Síra Tómasar Sæmundssonar, sem sýnast að stríða á móti athugasemdum mínum í þessari hugvekju,** (hvörrar mestur hluti var ritaður áður enn það kom út). Frekar eða nákvæmar enn til þessa augnamiðs útheimtist var ekki ætlan mín að láta meiníngu mína um ritgjörðina í ljósi, og er þess því síður þörf, sem eg (eptirá) í henni hefi fundið

hugleiðíngar mínar optsinnis staðfestar, og stundum leyft mèr að færa sönnur á mál mitt með að vitna til hennar, og að láta inngángs orð Prófastsins vera oddvita hugvekju þessarar — af því þau innibinda eins vel þánka minn og tilgáng með hana, einsog þann hug og anda sem lifir í Prófastsins þarflega riti.

---

## PRENTVILLUR.

Bls. III. l. 12: sem næstum 11 ára vera l. sem mèr hefir nflast á n. 11 ára veru.
— 35. l. 13 eptir "Landsyfirrèttinum, set".
— 90. l. 8 að n.: peníngameninn l. peníngamennina.
— 94. ath. gr. l. 2 að n.: gróðrarveg l. gróðaveg.
— 126. neðst: náttúr-egt l. náttúr-legt.
— 130. l. 2 að neðan: singaungu l. eingaungu.
— 146. skírgr. 2 l. 2 að neðan: vand að l. vandað.
— 184. l. 5: sam anleigujörðum l. samnn leigujörðum.
— 190. l. 2: konúngsfjárhirzluuni l. konúngsfjárhirzlunni.
— 200. ath. gr. l. 1: kúgyldinseld sèr í logi l. kúgyldin seld sèr í lagi.
— 201. ath. gr. l. 18: sem, eigandinu l. sem eigandinu.

